mæltijdena / sem oss verdur fram̃boden̄ i Guds Orde / og þeim heiløgu Sacramentis. Eñ hvar firer (kañ einhvør ad seigia) kallast ꝥsse Kvølld mæltijd mikel? Þar til svara eg / ad þar eru bæde vissar og vigtugar Ordsaker til. Hin firsta er / ad Veitareñ eda sa sem Kvølldmæltijdena giører / er ecke eirn sliettur Herra / helldur eilijfur almættugur Gud. Þar næst kallast hun mikel / vegna þess mikla Kostnadar / sem sa Himneske Fadereñ hefur firer þessare Kvølldmæltijd / i hvørre hañ giefur til andlegrar Fædu / siñ allra elskulegasta Son / hvør ed i Ordenu og Sacramentunum verdur firer oss a Bord boreñ. J þridia lage ma̅ ꝥta heita ein stoor Kvølldmæltijd / vegna ꝥra ypparlegu og mikels hættar Sendeboda / s̄ Gud hefꝛ fra Veralldareñar Upphafe hafft til ꝥss ad bioda i ꝥssa Veitsluna / so s̄ ad eru ꝥr H. Patriarchar / Spameñ ⁊ Kongar.

J fiorda lage / heiter þetta med riettu sw stoora Kvølldmæltijd / vegna ꝥss mikla Mañfiollda sm̄ til heñar verdur boden̄ / þvi hier til verda bodner aller Meñ i Heimenum. J fimta mata / ma̅ ꝥ vel heita stoor Kvølldmæltijd / vegna ꝥss stoora Gagns ⁊ Nitsemdar / sm̄ Trwudū þar af stendur / þviad hvør hañ etur mitt Holld ⁊ dreckur mitt Blood / seiger Herrañ Christur hia Joh. 6. Sa hefur eilijft Lijf / ⁊ eg mun uppvekia hañ a efsta Deige. J siøtta og sijdasta mata / er hun og ma heita stoor Kvølldmæltijd / vegna þess / ad hun varer ecke ad eins um̄ litla Stund / helldur allt til Heimsins Enda. O hvijlijkt Giestabod? O hvijlijk dyrdleg Kvølldmæltijd er þetta? Hvør skyllde ecke feigeñ ⁊ giarnañ vilia koma til þessa mikla Giestabodsins / ⁊ þad mikels virda? Seigiande med hinū heilaga David / af Psalm. 31. Hversu mikel er ꝥijn Good girne Drotteñ / hvøria þu hefur geimt þeim sem þig ottast? ect. ect.

Þegar Mephiboseth heirde / ad hañ ætte ad sitia vid Kongsins Bord alla sijna Lijfdaga / þa audmykte hañ sig stoorlega firer Kongenum / og sagde / hvør er eg þiñ Þræll / ad þu snijr þier til eins dauds Hunds / sem eg er / 2. Sam. Bookar 9. Cap. Hvad miklu framar ættum vier med Hiartans Audmykt ⁊ Lijtelæte / ad falla flater fram̃ firer hañ ædsta Kongeñ allra Konga / og þacka hønum þar firer / ad hañ ecke ad eins / bijdur oss einu siñe i Aare hvørin / helldur a hvørium ⁊ einū Deige / til

Frar

þeirrar miklu Kvølldmaaltijdar og Lambsins Brwdkaups?

Hvøriar eru þa/ þeir sem sa Himneske Hwsherrañ wtsender/ til ad biooda til þessarar miklu Kvølldmaaltijdar? Hier um̃ hlioodar so Textenn. Og hañ wtsende sijna Þienara um̃ Kvølldmaals Tijmañ/ ad þeir segde þeim sem bodner voru/ Komed/ þviad nu eru aller Hluter til reidu.

Firer þessa Þienara merkiast og skiliast þeir heiløgu Spaamenn/ Postular og aller trwlinder Ordsins Þienarar/ hvøria Gud hefur æ tijd i fra Upphafe wtsendt/ til ad biooda til þessarar Kvølldmaaltijdar. til hennar baud sialfur Gud Forfødurnum Noha/ og Nohe sijdañ øllum Heimenũ/ Gen. 6. Epter Flooded voru bodner til þessarar Kvølldmaaltijdar/ Abraham/ Isaach og Jacob. Sijdañ þar epter liet Gud Spaameñ, ena biooda sijnu eigeñ Folke til þessarar Kvølldmaaltijdar/ allt til þess hñ sende sin̄ Eingietna Son JEsum Christum/ hingad i þennan Heim/ hvørn hañ kallar sin̄ Þioon/ hia Spaamañenum Esa. 53. Epter Christi Himna För/ liet hñ Postulana biooda øllu Folke/ epter þvi sem liooft er af Befalningu sialfs Herrans Christi/ hia Matth. 28. Eñ hvørneñ vel=flester hafe teked þessu Tilbode lifanda Guds til þeirrar miklu Kvølldmaaltijdar/ þad faaũ vier ad heira i þvi ødru Greinarkornenu/ hvørt nu epterfilger med einu Orde.

## Aunur Greineñ.

OG þEir TOku Til Aller i Señ ad Afsaka sig/ seiger Gudspiallamadureñ. Hier setur nu Herrañ Christur oss firer Siooner/ þa hrædelegu Blindne og Opacklæte/ sem Mañeskiañ æ ad sier/ ad hun þecker ecke sin̄ Vitiunar Tijma/ Luc. 19. Hvad þo ecke sijdst sañast a þvi auma Gydinga Foolke/ hvøriu Gud DRottenn liet ecke einusiñe/ helld ur optlega biooda til þrar stooru Kvølldmaaltijdar/ bæde firer Predikun Johañis Skijrara/ Postulana og sialfs Herrans Christi/ eñ þeir villdu þo samt ecke koma/ berande firer sig einar og adrar fanstar/ Ja/ einskis verdar Afsakaner/ so sem vier faaum þessu næst ad heira.

Eirn ber þad firer sig/ ad hañ hafe keipt BV=GArd/ og verde hañ þvi endelega ad fara wt ꝛ skoda hñ/ etc. etc. Hvørs Lijkar ꝛ safningiar

 ad eru

ad eru aller þr / sem leggia sig epter meir eñ Hooþe giegner / ad koma under sig Fasteign sijns Naunga/ og vilia lijted eda ekert þirergiefa/ Ja/ eru allorei til Frids / þirr eñ þeir gieta eygnad/ edur Heþdad med eitthvørtslag/ Land og Reka undañ añara Maña Jordū. Yþer þessum hroopar Ande Guds Vei/ hia Spaamañenū Es. 5. Cap. seigiande/ Vei þm̄ sem samañ draga eitt Hws til añars / og leggia eirn Akur til añars / þangad til ad þar er ecke meira Rwm til / ect. ect. Item stendur so i Deut. Book. 27. Ad Bolvadur skule sa vera sem samañfærer Landamerke sijns Naunga.

Añar sa sem boden var til þessarar Kvølldmaltijdar / afsakar sig þar med / ad hañ hafe KEypt FJm̄ AK-Neyte/ Og VILe Nu Ad FAra Vt Og REina þAu. Vid hvørn ad lijkiast aller ægiarner Kaupmeñ og Kramarar/ sem allorei læta sier nægiast hvørsu miked sem þeir komast yþer/ aþ Aud & Peningum/ & svijkia siñ Naunga i Kaupum & Sølū/ so þeir verde þess rijkare og rijkare.

Hiñ Þridie ver sig med þvi / ad hñ hafe FEst Sier KOnu / Og meige þess vegna ecke koma / þad er / hñ meige ecke viña þad þirer neirn Hlut/ ad yþergiefa Brwskijslan skilua/ & þ Gagn sm̄ hñ meige þar aþ haþa.

Þetta er nu þ/med ødru fleira/ sem Møñum giører Skada/ og þa dregur þra Nædar Kvølldmaltijd DRottens. Ecke þess vegna/ad þesser ødurneþnder Hluter/ sieu i sialþum sier þordæmañleger edur skadleger Hluter/ edur hindre vorn Christeñdoom edur Sæluhialp/ þviad Rijke, dæme og tijmañleg Audlegd/ er Guds Blessan. Lijka haþa þeir heiløgu Forþedur / Abraham / Isaac og Jacob / att Akra og Fie / so sem Heiløg Ritning vottar. Þar haþa og so ecke ad eins gooder og Gudhrædder Kongar & Spaameñ/helldur & eirneñ nockrer aþ Postulunum/ vered Eigeñgypter/ & giørdu ekert Rangt þar wti. Hier af er þ gott ad skilia/ ad aungvañveigeñ er þ Oleifelegt / þo Madur eyge Akra og Kvikþie/ eda sie Eigeñgyptur/ eñ þad/ ad þesta so Hiarta sitt vid þessa stundlega Hlute/ad Madur yþergieþe þar þirer þ Andlega & Eilijþa/ þ er þ siñ Herrañ Christur hier straffar og adþiñur.

Þridia

# Þridia Greinen.

NV er ad minnast a þad þridia/ sem er / hvørs Straffs þeir haþe sier ad vænta/ sem þorsmaa þetta Herrans Christi Giestabod/ og skulum vier vita / ad þad er sierdeilis Ferþalldt Straff sem yþer þeim hænger.

First er þad/ ad Þienarar liþanda Guds klega þa / og seigia sijnum Herra þra þeirra Ogudlegleika og Ohlijdne / so sem ad giørde Þienare þessa Hwsherrans/ hvør ed kungierde sijnum Hwsbonda / ad þeir sem bodner voru heþdu ecke viliad koma. Firer þessare Ohlijdne tekur Ande Guds einum og sierhvørium sterkann Vara i Pistlenum til Heb. 13. seigande/ Hlijded idrum Kiennefedrum/og þilged þeim/ þviad þeir vaka yþer idrum Sælum/svo ad þeir giøre þad med Glede/enn ecke med Andvarpan/ þviad þad er idur ecke gott.

Annad Straff sem koma mun yþer alla Guds Orda og Sacramentanna Foracktara/ er sw hrædelega og ogurlega Guds Reide / sem brennur allt nidur til Helvijtis/ þvi i Textanum stendur/ ad Hwsbondenn haþe ORced REidur. Mørgum þyker þad miked / þa hann verdur þirer Reide og Ogunst sijns Herra/ so sem ad skiede Drottningunni Vasthi og Haman / Esth. 1. & 7. Enn hvad er Reide Mannanna ad lijkia vid Guds Reide? Þad þeingu þeir Chore/ Dathan og Abiram ad vita þordum/ sem sucku liþande nidur til Helvijtis / þirer þad þeir møgludu a moote Guds Manne Moyse/ Num. 16. Item/ þeir i Sodoma og Gomorra / Gen. 19. Og adrer fleire.

Þridia Straþþ þeirra Ogudlegu/sem ecke vilia hlijda Herrans Þienurum/ & koma til þeirrar Andlegu Kvolldmaaltijdarennar/ þa er þad/ ad þeir verda wtrekner / enn adrer inntekner i þeirra stad/so sem skied & framkomed er alla reidu vid þa aumu Gydinga/ i hvørn stad ad Gud heþur kallad aptur Heidingia/epter þvi sem Herrann Christur haþde þeim adur hootad hia Matth. 21. Cap. Ad Guds Rijke skylde þra þeim takast/ & Heidingium gieþed verda/ þeir sem þar aþ Avøxt þæra.

Fiorda og sijdasta Heþndar-Straþþ/sem Gud hootar øllum Ogudlegum/sem læta sier meira umhugad vera um þetta stundlega & þorgengelega/

lega/ helldur eñ um̃ slijna Sælar Velferd ꝛ þad Himneska Siestabodeð/ þa er þetta sem hier stendur skijdast i Epterlijkinguñe/ þar Herrañ seiger/ Eñ eg seige idur/ ad eingeñ þeirra Mañа sem kallader voru / munu Smacka Mijna KVØlldmaaltijd. Og kiemur ꝥ hier fram̃ / sem Ande Drottens talar fırer Muñ Spámañsins Hos. 4. Seigiande /Af þvi þier hafeð kastad i burt fra idur Guds Orde / þa vil eg aptur i stadeñ kasta idur i burt fra mier / þad er ad skilia/ ad sa Himneske Hwsherrañ vill láta slijka Forácktara sijns dyrmæta Siestabods koma i Andlegt Hungur ꝛ Þorfnun þess signada Himnabrauds/ꝛ fara toomhendta og snauda fra sijnu Himneskū Giædū ꝛ Audæfū/ꝛ rata i kreptugañ Villu dom/hvar fra Gud vardveite oß alla i JEsu Nafne. Og þm̃ hinū sama eilijfū almattugū Gude Fødur/Syne ꝛ H. Anda/ seigiū vier Lof og Packer fırer alla sijna Naadar Velgiørninga/ nu og ad Eilijfu/Amen.

# Pridia Suñudag epter Trinitatis.

## Evangelium/ Luc. 15. Cap.

ENN aller Tollheimtumeñ og Bersinduger nálægdu sig til hñs/ so ad þeir heirdu honum/ Og hiner Skriftlærdu og Phariseı møgludu um̃ þad / og søgdu / Þesse medtekur Bersinduga Meñ / og etur med þeim. Eñ hann sagde til þeirra / þessa Epterlijking / so seigiande. Hvør sa Madur af idur/ sem hañ hefur Hundrad Sauda / og ef hañ glatar einum af þeim/ yfergiefur hañ ecke þa niju og nijutiger a Eidemørku / og fer epter þeim sem ad glatadest/ þangad til hañ finur hañ. Og þa hann hefur funded hann / leggur hañ þañ sama ( med Fagnade ) sier a Herdar/ kiemur Heim / og kallar samañ Vine og Nabwa/ og seiger til þeirra. Samglediest med mier / þviad eg hefe mıñ Saud aptur funded / þann sem glatadur var. Eg seige idur / ad lijka so mun Føgnudur vera a Himnum / yfer einum Sindugum sem Jdran giorer/ meır eñ yfer þeim nıju og nijutiger Riettlátum/sem eige þurfa Yferbootar vid. Edа hvør er sw Kona/ sem hefur tiju Peninga /

ef hun

eþ hun tÿner einum/ er eige ſo/ ad hun kveiker Lioos og ſoopar Hwſ-ed/ og leitar vandlega / þangad til hun þiñur hann / Og þa er hun heþur hañ þunded / ſamañ kallar hun Vinkonur ſÿnar og Grann-konur/ ſeigiande. Samgledieſt med mier/ þviad eg heþe miñ Pening aptur þunded / hvorium eg tÿnda. Lÿka ſo og ſeige eg idur / þad Føgnudur mun vera þirer Einglum Guds / yfer einum Sindugum þeim ed Yferboot giører.

# Exordium.

NUmeri Bookar 12. Cap. Leſum vier / ad þegar Moyſes haþde ſier til Ecktq teked þa Morlendſku Kviñu / þa hafe hñs Brodur Aaron/ ꝛ hñs Syſtur Mariæ misþocknaſt þad ſo miøg / og þau mòvÿſkudu hñ þar þirer hardlega/ þvi þau meintu ad ſier bæde ꝛ ſiñe Ætt munde verda O-virding þar aþ / ad þvilÿkur Madur ſem Moyſes var/ ſkyllde gipta ſig/og ad ſier taka eina Moriñu/ og haþa Vm̃geingne vid hana/ þar hun var Heideñ. Þetta kañ vel heim ad þæraſt til þſſa Dags Gudſpialls / þvi þa Phariſei og Skriþtlærder ſau og þormerktu ad Herrañ Chriſtur (hvørn Gud haþde heited ad ſenda ſÿnu Folke / i Moy-ſis ſtad) haþde Vm̃geingne ꝛ Samtal vid Tollheimtumeñ ꝛ Berſind-uga/ þa kuñu þeir ꝥ i aungvañ mota ad lÿda/ helldur møgludu þar yþer ꝛ ſøgdu/þeſſe medtekur Berſinduga Meñ/ og etur med þeim / meinande ad ſlÿkt være O-ſæmelegt og O-lÿdande/ og tooku ſier þar ꝥ hiee wt aþ Ordſøk/ad mÿnka hñs Perſoonu /ſo ſem hañ være aungvu betre eñ þſſer ſem hañ umgieckſt ſo med. Eñ þr goodu Meñ ſkilldu ecke rietteleqa Vnd-erſtodu þſſa Eþnis. Þvi ꝥſſ vegna var Herrañ Chriſtur komeñ hÿng-ad i þeñañ Heim/ad hañ kallade þa Sindugu til Ydrunar/ꝛ leitade ept-er þvi ſem tapad var/ Matth. 18. So ſem hñ þeim þad eñ klarlegar audſÿner/ med þſſū tveimur Epterlÿkingum/ſem hañ ſetur þrañ/i þſſu Heilaga Evangelio/ hvort vier vilium med þæſtu Ordum einþalldlega yþervega i þettaſiñ/ꝛ oſſ wt aþ þvi þriar ſmaa Greiner ꝥ Hendꝛ taka.

Og ſkal hin þirſta vera um̃ þſſa Tollheimtumeñ ꝛ Berſinduga/ ſem nalægdu ſig Herranum Chriſto. Auñur um̃ Murr og Møgl Pha-

 riſeaña

riseaña og þeirra Skriftlærdu. Og hin þridia um̄ Forsvar Christi / sem hn̄ fram̄setur aptur þeim i moote.

GUD hialpe oss med sine Naad / so vier mættum hier wt af nockud Gott læra / og oss til Nytsemdar færa / Amen.

# Firsta Greinen̄.

FYrsta Sunnudag heirdum vier talad um̄ þa miklu Kvølldmaaltijd / sem Gud Drotten̄ hefur tilreidt og bwed øllum Mønum / fyrer Predikun Neilags Evangelij i Christelegre Kyrkiu. En̄ i Dag verdur oss kien̄t / hvørnen̄ vær kun̄um til hen̄ar ad komast / sem er / fyrer san̄a Jdran / þa vier med þessū Tollheimturum og Bersindugum / nalægium oss Herran, um Christo / þviad so stendur i Upphafe Gudspiallsins / AD Aller Tollheimtumen̄ og Bersinduger hafe nalægt sig til han̄s / so ad þeir Neirde Nønum. Þren̄t er oss hier athugande. Firsi / hvad fyrer Folk ad vered hafe þesser Tollheimtumen̄ og Bersinduger. Þar næst / hvad þeir hafe giort edur adhafst. Og i þridia lage / hvørt Erende þeir hafe hast til Christum. Hvada Folk ad Tollheimtumen̄erner hafe vered / þad wtvijsar heilog Ritning allvijda / sem er / ad þeir voru þeir mestu Stoorsindarar / sem vegna sin̄ar illrar Breitne / voru hatader af øllū / hvørs vegna sialfur Herran̄ Christur samlijker þm̄ vid Gudlausar Man̄eskiur / sem ecke ackta fyrer nockra Amin̄ing / so seigiande / hia Matth. 18. Ef þin̄ Broder brijtur vid þig / og skeiter hvørke um̄ heimuglega nie open̄berlega Amin̄ing / þa hallt þu han̄ sem an̄an̄ Neidingia og Tollheimtuman̄. J þessara Selskap voru og so adrer / hverier hier nefnast Bersinduger / þeir voru ꝛ ecke helldur betre en̄ hiner / en̄ allt um̄ þ / þsser koma þo samt til Christum / medkien̄a sijnar Sinder / og bidia hn̄ um̄ Naad / hvøria þeir eirnen̄ faa. Þar fyrer / min̄ Broder og Syster / siertu eiru Tollheimtumadur / siertu eirn Stoorsindare / Jaa / hin̄ meste a medal allra an̄ara Sindara / so sem Paall Postule jatar um̄ sig / 1. Tim. 1. Þa ørvæntu þier samt ecke Guds Naadar / eins og Cain / Gen. 4. Helldur huggadu þig og hughreystu vid Dæme Davids / Manassis Kongs / Mariu Magdalenu / Zachæi / Postulans Paals / S. Peturs / og an̄ara

z aññara fleire Stoorsindara/ hvörier aller þeingu Nad fi rer liþar da Gude/og bid þu af Hiarta med hinum heilaga David/ aþ Psalm. 51. Miskuna þu mier Gud epter þiñe Miskunseme/og aþmaa mÿnar Sind- er epter þiñe stooru Miskun. So muntu vissulega faa þad sama And- svar og Aflausn sem David fieck/ad Gud hafe burt teked þÿna Sind/ 2. Sam. 12. Þar næst er þad næsta Huggunarsamlegt / fi rer oss Sindarana/ ad JEsus vor vill ecke reka oss fra sier/ nær sem hellst vier komum med sañre og alvarlegre Jdran frañ fi rer hañ/ so sem hann rak ecke þessa Tollheimtumeñ i burtu/ þviad/ Þo merg og stoor sie Mañleg Sind/ miklu stærre er Nadeñ/ Endalaus er Guds Hialpar- Hond/ hvörsu stoor sem er Skadeñ/ etc.

J aññ maata viliu vier skoda z yfervega/ hvad þesser Tollheimtu- meñ og Sindarar hafe giort z adhafst/ sem er/ad þeir komu z giordu sier Reisu til JEsum. Og eru eingeñ Olÿkende ad þeir mune hafa vered under Predikun Johañis Skÿrara adur/ þa hañ so kieñde og sagde. Auxeñ er sett til Rootar Triesins/og hvört þad Trie sem ecke ber good- añ Aavxt/skal upphöggvast og i Elld kastast. Þeir hafa og heirt sagt fra þvi allra Huggunarsamlegasta JEsu Christi Tilbode/ þar hann seiger. Komed til mÿn aller þier sem Ervided og Þwnga erud hlad- ner/ Jeg vil Endurnæra Ydur / Matth. 11. Og þar fi rer syntst þeim þad raadlegast/ ad rÿsa upp af sÿnum Sinda Svefne/ og koma til JEsum/ og jaata hönum sÿnar Sinder. O / Gud giæfe ad vier og eirneñ epterfilgium þeirra Dæme i þessu. Þvi hvad marger Tollheim- tarar og Bersinduger fiñast nu a þessum Dogum / eñ fæster þo af þeim vilia nalægia sig Herranum Christo/ med sañre og alvarlegre Ydran siña Sinda/ helldur geingur þad miklu helldur so til / sem Spaamadurenn Jeremias seiger/8. Cap. Hvör er sa nockur sem villt fer / ad hañ vil- ie ecke giarnañ komast a þñ rietta Vegeñ aptur. Samt vill þo þetta Foolk ætÿd og alla Tÿma villt fara/ þar er eingeñ sem lætur sier mis- lÿka sÿna Illsku/z seige/hvad er þad eg giöre? Helldur hlaupa þeir aller sitt Hlaup / so sem griñer Vÿghestar i Bardaga. Þar fi rer sie hvör og eirn aminntur i Nafne DRottens / ad hañ drage ecke undañ ad snwa

 sier

ſier til Guds/ og ſkioota þui ecke fra einum Deige til annars/ helldur betra ſig a medann Nadartijmenn er/ þuiad þad kann ſirer Kuölldtijmann edur vijſſe ad verda enn þad var umm Morguninn / og ſlijkt ſkiedur ſnarlega ſirer Gude/ ſeiger Syrach. 5. og 18. Cap.

Nvørnenn (kann einhvør ad ſeigia) edur med hvørium hætte æ eg ad nalægia mig Herranum Christo / og koma til hanns ? Firſt ættu minn Brooder og Syſter / ad giøra þad / med eirnre heitre og alvarlegre Bæn og Jatningu þinna Sinda / ſeigiande med þeim fortapada Syninum / Fader eg hefe Sindgad i Himenenn og ſirer þier / og er þui ei verdugur ad kallaſt þinn Sonur / Luc. 15. Cap. Þuiad hvør hann neitar ſijnum Misgiørningum/ þeim mun þad ecke vel vegna/ enn ſa ſem þær medkienner og ſirerlætur þær/ mun Miſkun ødlaſt / ſeiger Salomon/ i Ordſkvida Book. 28. Cap. Þar næſt eigum vier ad koma framm ſirer Gud/ med fullu Trwnadartrauſte / þad er / ad vier efunſt ecke/ edur ørvæntum oſſ Guds Nadar / vegna vorra Sinda / helldur ſeigium med Poſtulanum Pale/ Christur hefur mig elſkad/ og wtgiefed ſialfann ſig ſirer mig / Gal. 2. J þridia lage ef vier vilium riettelega framm koma ſirer Gud/ þa ſtæum til/ad þad meige ſkie med Christelegu x Gude velþoknanlegu Verkum/ þui Christur er ſa allra heilagaſte/ þar ſirer hvør til hanns vill komaſt / ſa hlijtur ad afleggia allann Ohreinleik og Jllſku / enn epterfilgia Helgunene / ann hvørrar þad eingenn kann Drottenn ad ſiaa / ſeiger Poſtulenn til Heb. 12. Þegar vier þetta giørum x ſo framm komum ſirer lifanda Gud/ ſem er/ med heitre x alvarlegre Bæn/ mz ſannre x ſtødugre Trw/ x mz goodum x Gude þægelegum Verkum/ ſo vill hann aptur a moote/ nalægia ſig til vor/ Ja/ hann vill nalægia ſig oſſ/ ſo ſem eirn Fader ſijnu Barne/ edur ſo ſem eirn Brwdgume ſinne elſkulegre Brwdur/ x kyſſa oſſ hier i Nadar Rijkenu/ med einum Nadar Koſſe/ enn þar ſijdar meir i Rijke Dyrdarennar / med Koſſe eilijfrar Glede og Vnadſemdar. Þad þridia ſem oſſ er akhugande / i þeſſu firſta Greinar kornenu / er/ hvørt Erende ad þeſſer Tollheimtu-Menn x Bersinduger / hafe haft til Herrans Christum / hier umm talar ſo Gudſpiallamadurenn/ ſeigiande/ Ad þeir hafe nalægt ſig honum / til ad heira hanns

Kienning

Kieñing og Predikun. Oskande være/ ad vier breitkum epter þeim i þessu/ og lietum aungvañ Nlut hindra oss þar i fra/ ad koma þangad sem optast sem Guds Ord er kieñt og um̃ Nønd hafft/ eñ hvørneñ þad tilgange þiter allmørgum/ þad er Gude liooſaſt.

# Auñur Greineñ.

NV oilium vier vikkia til þeſſ ſijdara Greinarkornſins/ og fram̃veigis yfervega Murr og Møgl þeirra Phariſeara og Skriftlærdra/ hvar um̃ Gudſpialls Texteñ ſo hlioodar. OG NIner Skriftlærdu & Phariſei møgludu um̃ þad og ſøgdu/ þeſſe medtekur Berſynduga MEñ & ETur Med þEim. Nier læta þeſſer Illſkufullu & ofundſiuku Meñ/ eñ nu einu ſiñe ſem optar/ i liooſe/ þel ſitt og Niartalag/ſem þeir hafa til Nerrans Chriſtu/ i þvi/ad þeir miſuña hoñu þſſ/ þo nockret fræiner hiellde ſig til hñs/& hlijdde hañs Kieñingu.

Mun þetta ecke & ſo eñ nu i Dag/vera miøg almeñelegt/ad Underſatarner møgla i moote ſijnum Ifferbodurum/ þeir rijku a moote þeim fatæku/ og Tilheirendurner i moote ſijnum Kieñefedrum/ og miſuña ſo hvør ødrum ſiñar Lucku og Velferdar/ Nier firer ſeiger Salomon ſo/ i ſiñe Predikunar Book/ 4. Cap. Eg ſa uppa Ervide og Aſtundan/ i øllum Efnum/ og þa hatade ſa eine þañ aŋañ. Nier firer ſkylde hvør og eirn þar med aminñtur vera/ad læta ſig ecke fundeñ verda i Selſkap & Tølu þvilijkra møglunarſamra og nørrunarſamra Giergiædinga/ſem alldrei gieta til Frids vered. Ja/ þeſſer Phariſearar møgla ecke ad eins og murra i giegn Nerrañ Chriſto/helldur & eirn/ eñ þa forackta þeir hañ þar ad auke/ i þvi/ad þeir virda hañ ecke þeſſ/ad kalla hañ ſijnu rietta Nafne/helldur komaſt ſo ad Orde/og ſeigia/þEſſe MEDtekur BERſynduga/ etc. etc. Slijker og þvilijker fiñaſt enn nu a þeſſum Døgum Mijmarger/ſem hallda ſig af ſialfũ ſier/ eñ forackta og forſmaa adra. Nvad opt meiga gooder og trwlinder Guds Ords þienarar heira/ad um̃ þa verdur ſagt/ſm̃ ſtar ſtendur i 4. Pſalme Davids/ Nvørneñ ſkal þeſſe ſijna oſſ þad Gott er? Eins geingur þad og ſo til i þeirre Veralldlegu Stiettefiñe/ ad þeir ſem þar ijñe þiena/hafa



eirneñ

eirneñ þa sem þa forackta og lýtels virda/ so sem giert vat Saul/ David og ødrum fleirum. Eñ þesser ættu ad hafa i Miñe þad gamla Ord, tæked/ Noſce te ipſum / þad er/ ad læra ad þeckia ſialfa ſig / ædur eñ þeir kaſta Steine a adra.

# Þridia Greineñ.

Epterfilger med fæſtu Ordum þ þridia Greinarkorned/hliodande um þær tvær merkelegu Epterlijkingar / sem Herrañ Christur framſetur ſier til Forſvars/ ſem er um þñ villuraſande Sauden / og tijnda Peningeñ. Her um hliodar so Texteñ. HVOr Sa MAdur Af Jdur ſem hefur Hundrad Saude/ og ef hañ glatar einum af þeim/ yfergiefur hann ecke þa niju og nijutijer a Eidemørku / og fer epter þeim sem glatadeſt/ þangad til hann finur hann ? J hvørre Epterlijkingu vor allra ſæfaſte Endurlauſnare / lijker oſſ vid eirn tijndañ Saud. Siaum til / firer Fall vorra ſirſtu Forelldra vorum vier ſamt med þeim heiløgu Einglum/hvør med ødrum / Guds elſkuleger Sauder / Pſalm. 110. Eñ vegna Svikrædis Diøfulſins erum vier aller Villuraſande orduer/þar firer/ þar Herrañ Christur talar hier um þañ tijnda Saudeñ/þa vill hñ oſſ aminñt hafa. Firſt um Eimd vora z Veikleika/ þvi so sem þad/ad þar fiñſt valla þad Dyr / sem so marguijſlegū Kvillum ſie underokad/ſem Saudureñ / so erum vier og so aller / firer þa andlegu Spilling Sindareñar/ymſum Siukdomum hladner/so þad ma ſañaſt a oſſ / sem Eſaias ſeiger / 1. Cap. Ad Høfuded ſie ſiukt/ og Hiartad veikt / J fra Hvirfle til Jlia / ſie eckert heilbrygdt a oſſ.

Þar næſt lijker hañ oſſ vid eirn Saud / vegna vorrar Fævitſku/ þvi lijka ſem þad/ad Saudureñ/þa hñ hefur eittſiñ villſt fra Hiørdeñe/ þa kañ hñ ecke af ſialfum ſier til/ad rata heim aptur/helldur þſſ leingur ſem hñ er i Villuñe/ þſſ villtare verdur hñ. Eins geingur þ til firer oſſ/ad þegar vier høfū eitt ſiñ fared villt/ af Veige Riettlæteſins/ þa kuñū vier ecke af vorū eigeñ Kroptum / ad komaſt a rietta Leid aptur/þar firer ſeiger David/z vier med hønum/ Pſalm. 119. Eg em so ſem villtur z fortapadur Saudur/ leita þu Drotteñ ad þiønum Þioon/

þvi eg

þvi eg þorgleime ecke þyrnum Bodordum. J þridia lage/ verdur oss hier lijkt vid Saudena / vegna þeirrar stooru Hættu og Háskasemda / sem vier erum i stadder. Þad skiedur opt/ad Sauduren kiemst i Jmislega Hættu/ ef Hyrderen leitar ecke ad hönum/þvi bæde kan hn̄ ad verda sundurrifen af Vlfum og ødrum O=arga Dyrum. Eins geingur og so Diøfullen sa helvijtske Vlfur um̄ kryng / z leitar ad þm̄ sm̄ hn̄ kune upp ad svelgia. So siaum til / ad vier gaungum forsialega/ eige so sem Faavijser/helldur so sem Vijser/og skickum oss i Tijdene/þvi þad er vond Tijd/seiger Postulen/ Eph. 5. J aṅan maata/ vtmaalar Herran̄ Christur oss/Eimd vora z Hørmung/ sem vier erum Jfallner/ vegna Falls vorra fyrstu Foreldra / Med þessare aṅare Epterlijkingu sem han̄ tekur hier af þeim glatada Peninge. Vær vorum i fyrstu ein heiløg Gullmint lifanda Guds / stimplader og mindader epter hans eigen̄ Mind og Vijlæte/en̄ vegna þess deckva Rids Sindareñar/sem a oss er falled/erum vier so groomtekner ordner/ ad vier høfum ølldungis mist þa fegurdar Prijde Gudlegrar Mindar/ og þad forskulldad ad vier hier epter skylldum verda eirn tijndur og tapadur Peningur. En̄ hier þverk a moote/vilium vier athuga z skoda / Naad og Giæskurijke vors liwfa Endurlausnara JEsu Christi vid oss. Þvi so sem þad/ ad Hyrderen sem hafde hundrad Saude/ villde ecke missa eirn af þeim/ og ei helldur Konan̄ eirn af sijnum tiju Peningū. Eins lijka er sa Himneske Faderen̄ siñadur vid oss/ad þo hn̄ hafe Otal Fiollda heilagra Eingla/ og Hofud,eingla/sem hønum þiona/z hn̄ daglega prijsa/Dan.7.Open.B.7. þa hefur han̄ þo samt þvilijka hiartans Epterlaangan epter vorre Velferd og Saluhialp / ad hønum er þad stærsta Angur / ef ein af hans Saudakindum skyllde fortapast/ Ezech. 18. Þvi han̄ er eirn Nadugur Gud/ og mijskunar sig yfer øll sijn Verk / Psalm. 145.

Þar næst siaū vier Elsku z Hiartalag Herrans Christi vid oss / af þm̄ Textans Ordū sem hier standa/sem er/ ad Hirderen̄ Skilur Epter Þa Nyju Og Nijutiju Saudena a Eidemørku/ Og fer ad leita epter þm̄ sem glatadest/ Jtem/Ad Konan̄ Kveiker Lioos/ Soopar Hused/ Og Leitar Vandlega/Þaangad til hun finur sin̄ Pening. Þetta hefur nu

 syna

skyna andlega Þÿding. Firer Hirderen̄ skilst Christur/ Joh. 10. Og sem um̄ han̄ hefur vered spaad/ad han̄ vilie uppleita þad glatada/ og leida aptur þad sem villtest/ og grǽda þad hid Lemstrada/Ezech.34. So hefur han̄ þad og so vel og trwlega giort/ og ongvum glatad af þeim sem hans Fader hafde honum giefed/ Joh. 17. Firer Konuna ǽ ad skiliast Christeleg Kyrkia. Hun kveiker eitt Lioos/ hvort ad er GVDS Ord/ tekur Vønd Løgmalsins/ og soopar Hwsed/ þad er/ hun lǽtur predika skarpa Løgmalsins Predikun/og lǽtur þar ecke af/ allt til þess/ ad marger þeir verda fundner/ sem an̄ars hefdu maatt eilijflega forfaraz der liggia i Helvijte. Hvad skylde nu sa Himneske Hyrderin̄ ⁊ Vijngards Herran̄/ meira giora vid sin̄ Vijngard/sem han̄ hefur ecke giort? Esa. 5. Nu so sem þad/ aller gledia sig med Hyrdernum/ þa hann hefur sin̄ Saud aptur funded/ og med Kvin̄un̄e/þa hun hefur funded Peningen̄/ bǽde Nabwarner/ Gran̄konurnar og adrer fleire. So seigier og so HErran̄ Christur i Nidurlǽge þessa Heilaga Evangelij / AD Fognudur mune verda firer Einglum Guds/ yfer einum Sindugum sem Yferboot giorer/ meir en̄ yfer niju og nijutijer Riettlǽtum/ Sem Ecke þurfa YFerbootar Vid. Þad er/ þeir sem Riettlǽta sialfa sig/ og hikiast hvorke þurfa Yferbootar / nie JEsu Forþienustu vid/eins og Pharisei. En̄ hvar af kiemur þa (kan̄ einhvor ad spyria) þesse Glede heilagra Einglaz? Hun kiemur þar af/ ad þeir eru þionustu, samer Andar/wtsender til þioonustu/vegna þeirra sem erfa skulu Saaluhialpena/ Ebr. 1. Ja/ yfer Saaluhiolp vorre/ munu ecke Einglarner alleinasta gledia sig/ helldur ⁊ eitnen̄ Eingill þess mikla Raads/ vor Drotten̄ JEsus Christus/ af þvi hn̄ sier / ad þar eru marger/ sem hafa hafft Not af sin̄e Forþienustu / Þijnu og Dauda. Þar gledia sig og so JEsu Christi Þienarar/sem eru aller trwer Prestar og Kien̄efedur / hvørier ad kallast Einglar Fridaren̄s / Esa. 33. Og þacka Gude þar firer af Hiarta/ ad þeir hafa giefad leidt nockrar Saaler til Himnarijkis ⁊ þeirra Erfvide hefur ecke vered forgiefens i Christo / 1. Cor. 15. Nu þeirre H. Guddoomsins Þren̄ingu/ seigium vier Lof/Vegsemd og Æru/nu hiedan̄ i fra og ad Eilijfu/ Amen/ Amen.

A Sancte

# A Sancti Johañis Baptistæ Dag.

Evangelium / Luc. 1. Cap.

OG þa ed sa Tijme var komeñ / þad Elizabeth skyllde fæda/ og hun fædde siñ Son. Og er Nagrañar heñar og Frændur heirdu þad/ ad DRottiñ hafde margfalldad Miskun sijna vid hana / samglødduſt þeir heñe / Og þad skiede/ ad þeir komu a hinum ættunda Deige/ ad umskiera Sveinenn/ og nefndu hann sijns Fødurs Nafne Zacharias / eñ Mooder hañs svarade og sagde. Aungvañveigeñ/ helldur skal hañ Johañes heita. Og þeir sogdu til hennar / þar er þo eingeñ i þiñe Ætt / sem ad heiter þessu Nafne. Eñ þeir bendtu Fødur hañs / hvad hañ villde ad hañ hiete. Eñ hñ beiddest Knefa-spiallds/ skrifade og sagde/ Johañes er hañs Neite. Og þeir undrudust aller. Eñ jafnsnart laukst hañs Muñur upp/ og Tunga hañs talade/ lofande Gud. Og Otte kom yfer alla þeirra Nagraña / z uñ allar Fiallbygder i Judæa vijdfrægdust oll þesse Ord. Og aller þeir ed þad heirdu/ settu þad sier i Hiarta / og sogdu. Hvør grunar þig ad þesse Sveirn verde? Þviad Hond Drottens var med høñu. Og Zacharias Fader hñs fylltest af heilogū Anda/ spaade z sagde. Blessadur sie DRottiñ Gud Israels/ þviad hñ vitiade og giørde Frelsan sijnu Folke/og hñ uppreiste oss eitt Hialpar-Horn i Hwse Davids Þions sijns. So sem hñ hefur talad firer Muñ siña heilagra Spamaña/ þeirra sem nu eru af Heimenum. Hañ frelsade oss fra Ovinum vorum/ og af Hende allra þra oss hotudu. Hañ giørde Miskunsemd vid Fedur vora/ og miñtest a siñ heilaga Sattmala. Og a þad Sære/ er hñ soor Fødur vorum Abraham/ ad hñ giæfe oss þad. Ad vier leyster af Hende Ovina vorra/ þioonudū hønum æn Otta/ J Heilagleika og Riettlæte firer høñ sialfum/alla vora Lijfdaga. Og þu Sveirn munt kallast Spamadur hiñs Hædsta/þviad þu munt f reña Auglite

DRottens/ ad tilbwa hans Vegu. Og giefa hans Folke Skilning Saaluhialparenar/ til Firergiefningar Synda þeirra. Firer Myskunar Ydur Guds vors/ i hvørium hañ vitiade vor/ uppruñenn af Hædum/ ad lysa þeim sem i Myrkrum og Daudans Skugga sitia/ til ad greida Fætur vorar fram a Veg Fridarens.

## Exordium.

HEgar Gud Drottenn hefur viliad giøra og framkvæma nockud vigtugt/stoort & Minnisstædt Furduverk/ hier vor a medal a Jørdunne/ þa hefur hañ blessadur optast uppvaked og wtvaled sier einhvøriar Ypparlegar Persoonur/ sem hañ hefur sialfur prydt fram ar ødrum/med sierlegum Gafum og Andagypt/ad framfilgia þvi sama Verke. Til Dæmis ad taka/ þegar DRottenn vilde frelsa Israels Foolk/fra þeim Egyptska Þrældoome/ þa wtvaide hann þar til sinn Elskulega Þienara Moysen/ og gaf hønum miklar og hæfar Gafur/ so hañ gat giørt med þeim Staf/sem hañ hafde i sinne Hende/mørg Jardteikn & Furduverk/ firer Pharaone Konge/ þangad til hañ um syder fieck Folked laust/ so sem þar um ma lesa/ i Exodi Book. 7. Cap. Epter Moysis Afgang/ þegar Drottenn vilde inleida Israels Folked/ i þad firerheitna Canaans Land/þa wtvalde hañ þar til Josuam/hvørn hañ prydde med miklum Gafum. Þesse same Hers.Høfdinge/ ødladest þad/ ad meiga ganga med øllum Israels Lyd/þurrum Footum yfer um Aana Jordan/ Jos. 3. J sama Maata fieck hañ þad af Drottne/firer audmiwka Bænagiørd/ ad Sooleñ stood kyrr a Festingar . Himmenum/ þvi þegar hañ mællte so/og sagde til Solareñar/ Sool/ statt u kyrr i Gibeon/ og Tungled i Dalnum Aialon/ sia/ þa vard þad ad Orde og søñu/ad bæde Sool og Tungl/ epterudu synum Edlelegum Gang/ og stoodu kyrr allt þangad til Folked fieck hefnt syn a synum Ovinum. hvad hid sama er firer eina Furdu uppteiknad i heilagre Ritningu/ ad þar hafe eingeñ Dagur vered þessum lykur/hvørke ædur nie sydañ/epter þvi sem þar stendur/ Jos. B. 10. Þegar Gud vilde frelsa sitt Folk/ af Philisteaña Hende/ wtvalde hañ þar til Samson/ hvørs Fæding og

ing og Gietnadur var bodadur af einum Eingle. Þessum sÿnum Þien- ara lagde hañ þvilÿkt Aþl og Orku til/ ad hañ sundur sleit millum siña Handa/eitt Leon/ motlÿka og þa Meñ sundur slÿta eitt Kid/hñ sloo ꝛ so i Hel med einum Asna-Kiælka Þwsund Meñ / og ødladest þad þirer sÿna alvarlega Bæn/ ad þa hañ þyrste eitt siñ mikelega / so hñ sæ ei añ- ad þirer eñ hañ munde aþ þeim Þorsta wt aþ deya / þa klauþ Gud eirn Jaxl i Asna-Kiælkanum/so þar spratt wt aþ Vatn/so hñ drack/ og hñs Ande kom til hñs aptur/ og vard endurnærdur/ so sem þar uñ stendur skriþad / Doomara Book. 13. 14. ꝛ 15. Cap.

Nu so sem þad/ ad sa almættuge Gud/ uppvakte i þvi gamla Testa- mentenu/ þvilÿka ypparlega Meñ / sem skylldu þramþilgia og a lopt hallda sÿnum Vilia og Dadsemdarverkum. Eins skulum vier vita/ad hñ heþur og so giort a Nya Testamentesins Tÿmum. Þegar DRott- eñ Gud villde þullkomna og þramkvæma þad mikla Verk Mañkynsins Endurlausnar / og lata siñ Son þædast hingad i þeñañ Heim / þa wt- vallde hñ Johañem Skÿrara til ad vera Firer-Reñara þessa sÿns elsku- lega Sonar / og tilreida hønum Veigeñ. Þessum sÿnum Þienara til meire Stadþestu Merkis/ uppa sÿna Embættis Køllun / þa liet henn undañ þara nockur eptertakañleg og merkeleg Furduverk/sem var. First ad hañ liet Johañem þædast aþ forgømlum Forelldrum / og þar a oþañ aþ Oþrioo þsamre Moodur / sem var Elizabeth. Þar næst var hañs Fæding aþ einum Guds Eingle bodud og kuñgiørd. J þridia la- ge/ þa hañs Mooder Elizabeth / sem var uñ attrædis Alldur/ heirde Heilsan Mariæ / þa seiger Gudspiallamadureñ ad Barned hafe sprotted upp i heñar Kvide. J þiorda maata stendur þar / ad Zacharias Fader Johañis / haþe orded mal-laus/ og ecke kuñad ad tala / þra þvi ad Eingelleñ bodade hønum Gietnad og Fæding hañs Sonar / og til þess hañ þæddest. Allt þetta sÿner oss og þirer Stooner setur þad / ad Gud Drotteñ heþur ætÿd i þra Upphaþe/ sÿnt nockur Audkieñingar Teikn a sÿnum Þienurum / sem hañ hefur þram yþer adra wtvaled / til ad þioona sier ꝛ sÿnum Christelegum Søþnude. Og þirer utañ leing- ra Jñgang/ vilium vier i JEsu Naþne / yÿkia til Gudspialls Textañs

 og taka

og taka oss þirer Hendur hañ ad skoda og hugleida / i þim sma Punctum. 1. Sa þirste skal vera / A hvørium Tijma Johañes hafe þæddur vered. 2. Af hvørium Foreldrum. 3. Þridie skal hlioda um Fognud þañ / sem Naungar og Nagrañar hofdu yfer þessare Fædingu Johañis. 4. Um hañs Umskurn / og Agreining þañ / sem vard um hañs Nafn og Heite. 5. J þeim þimta og sijdasta / vilium vier einfalldlega med þæstum Ordum yfervega þañ fagra Lofsaung Zachariæ.

GUD Nimtekstur Fader giefe ad þetta mætte verda hønum til Dyrdar / eñ oss ølum til Gagns og Sælar Velferdar J JEsu Nafne / AMEN.

# Um þad Firsta.

SO mikid sem vidvijkur Tijmanum a hvørium Johañes var fæddur / þa skulum vier vita / ad þad var a þrijtugasta og firsta Are Rijkisstiornar Herodis Kongs i Judæa / þa lided var fra Veralldareñar Skøpun / þriu þusund / niju Hundrud / sextiju og eitt Aar / epter þvi sem Kyrkiu Historiu Skrifararner utvijsa. Nu var Herodes eirn mikell Tyrañe / sem med Ofrijke plægade og underþrykte Gydinga Foolk / samt sem ædur vilde Gud læta þeñañ siñ Þienara Johañem / a hañs Døgum og under hañs Stiornar Vellde fædast.

Hier af høfum vier oss þad til Lærdooms ad taka. First / ad þo Herodes Kongur være eirn grimmur Tyrañe / sem med Hardydge høndlade vid sijna Undergiefna / þa samt hiellt þo DRotteñ vid Magt siñe Christne / og liet bæde a hañs Døgum Johañem Skijrara / sem og skømu þar epter / siñ Eingieteñ Hiartans Son JEsum Christum hingad i þeñañ Heim fædast / oss Mønunum til Sælargagns og Velferdar.

Þañeñ hefur nu Gud DRotteñ alla Daga og Tijma hallded sinne Christne vid Magt / og sendt heñe midt i Ofsoknunum / gooda ꝛ trwlinda Kieñefedur / og Ordsins Predikara / hvar firer hønum sie eilijft Lof og Þackargiørd. Herodes Kongur hafde æsett sier ad afmæ og eydeleggia alla Davids Ætt og Affspreinge / af hvøriu

Endur=

Endurlausuarenn Heimsins ecke ad koma / epter Helldenn. Samt liet Drottenn hönum ecke þvilijkann Dieþullegann Asetning tekast / þar þirer seiger Herrann vor JEsus Christus svo / hia Luc. 12. Hrædst eige þu litla Hiord/þvi þad þocknast idar Fødur / ad gieþa idur Rijked.

Þetta skal vera oss til Huggunar i øllum Dþsokuum / ad Gud er vor Styrkur / Ja / eirn Hialpare i þeim miklu A-naudū / sem oss haþa hitt / seiger hinn heilage David / i Psalmenum 46.

Þar næst lærum vier þ hier / hvørsu þ / ad Gud er trwr ꝛ Halldenn-ordur i sijnū Loþunum. DRottenn haþde þiter nockrum hundrud Arum / lated sijna Spamenn þirer seigia Fæding Johannis / so sem ad voru þr / David / Esaias og Malachias / þvi so seiger hinn heilage David / Psalm. 132. Jeg heþe tilreitt mijnum Smurda eitt Lioos.

Esaias kiemst so ad Orde / og seiger / 40. Cap. sinnar Spadooms Bookar / Þar er eins Predikara Raust i Eidemørkunne / tilreide þier Vegu Drottens / giøred i Obygdenne sliettann Veg vorū Gude. Malachias tekur so til Orda / og seiger / 3. Cap. Sioed / eg vil senda minn Eingel / sem tilreida skal Veigenn þirer mier. Og i næst epterþilgiande Cap. Seiger same Spamadur. Sia / eg vil senda idur Eliam Propheta adur enn sa mikle og Dguarlege Dagur DRottens kiemur / hann skal snwa Fedranna Hiørtum til Barnanna / og Barnanna Hiørtum til sinna Fedra.

Ad aller þesser Spadoomar haþe riettelega att heima / ꝛ hittst uppa Johannem Skijrara / Þad stadþester og bevijsar Herrann Christur sialþur nooglega / hia Matth. 11. ꝛ Marc. 1. Cap.

# Um þad Annad.

HWNNar Punctureñ wt aþ vorum Gudspialls Texta / hlioodar þar um / hvørier hafe vered Foreldrar hins heilaga Johannis. Enn þeir verda hier wtþryckelega Nafnkiender i þann mata / ad hanns Fader haþe heited Zacharias / enn hanns Mooder Elizabeth. Og er so ad rada / af Kyrkiunnar Historiu Bookum / ad þau heþe vered komenn af Kine LEVJ og aþ Ættlegg þess ypparsta Kiennemans Aaronis. So heþur þa Zacharias / ecke alleinasta vered komenn aþ Kiennemannlegu og Prestlegu

 Slecktе

Slecktе/ helldur var hũ og eitneñ sialfur eitn Prestur og Kieñemadur/ og er hinum heilaga Johañi þad ecke alldeil Æra og Virding/ad hũ er gieteñ og fæddur/aß so ypparlegum ꝛ mykels hattar Foreldrum.

Þar næst verdur og so gieted i Gudspiallegre Historiu / ad þesser Foreldrar Johañis hafe vered Eigeñgyptar Personur / og lifad i Hiw⸗skap edur Hioonabande til samans. J þridia mata verdur þeim þad til Lofs lagt / ad þau hafe vered bæde froom / og geinged epter Guds Bodordum og Setningum Ostraffanlega. Eñ hvorneñ siñ Hsu var vared/ þa skulum vier þo samt vita / ad þau lifdu ecke til samans firer utañ Kross og Motgang / þvi um̃ Elizabeth er þad skrifad / ad hun hafe vered Obyria.

Aß þessu ollu hefum vier oss þad til Lærdoms og Vpprædingar ad taka. Firstt verdur ollum Egyeñgyptum Personum ꝛ Eckta.Hioonum hier eitn merkelegur Hws.Speigell firer Siooner settur/ hvorneñ þau eige ad haga sier ꝛ hegda i þeirre heilogu Hiwskaparstiett/ epter Dæme þess alldrada Kieñemañs Zachariæ ꝛ hũs Kvinu Elizabethar. Og eru þ fierdeilis fiorar ypparlegar Dygder / sem vier hofũ aß þeirra Dæme ad athuga ꝛ gaumgiæmelega ad Jhuga. Sw firsta er soñ og alvarleg Gudrækne/ þvi so vottar Gudspiallamadureñ / ad þau hafe bæde vered froom firer DRottne / þad er / þau hafe elskad og ræstundad GVds Ord/ og geinged jduglega til Kyrkiu / til ad giora sijnar Gudrækelegar Bæner. Nu/þessa Edla Dygdena ættu oll Christeleg Hioon kostgiæ⸗felega ad ræstunda/þvi hun er sw/um̃ hvoria Postuleñ Pall talar so ꝛ seiger/ 1. Tim. 4. Gudrækneñ er til allra Hluta nytsamleg / hafande Firerheit þessa Lijfs og añars. Og i odrum Stad seiger same Postu⸗le so/ ad þad sie eitn mikell Aviñingur / nær eitn er Gudhræddur/ og lætur sier ænægia/þviad (seiger hũ) vier hofũ eckert iñflutt i þñañ He. im/ aß þvi er þ opeñbert/ ad vier munũ eckert helldur i burt hafa/ 1. Tim. 6. Añad þ sem vier hofũ hier ad læra / aß Dæme Zachariæ og Elizabethar/ þa er eitt meinlaust og gott Lijferne og Framferde/ þvi so vottar Gudspiallamadureñ / ad þau hafe geinged epter Guds Bodordum og Setningum Ostraffañlega / þad er ad skilia/ad þau hafe ecke ad eins elskad

elskad hvørt añad iñbyrdis sijn a mille / helldur hafe þau og eirneñ lagt alla Alwd og Astundan þar a / ad lifa vel / og hallda Frid og Eindrægne vid alla Meñ / og giefa þar med ødrum gott Eptertæme af sier.

O hvad vel og prijdelega skartar þesse Edla Dygdeñ a øllum Ecktahionum? Sa vijse Madur Syrach / þyckest ecke noglega kuña ad fullprijsa hana / þar firer tekur hñ so til Orda / i 25. Cap. siñar Bookar / so seigiande / Þad eru þrijr Luter fagrer / sem bæde Gude og Møñum vel þocknast / sem eru þesser / Þegar Brædurner eru samþycker / og Næungarner elskast / og Madur og Kviña forlijkast vel. Þar þvert a moote / hvar helst sem i Hwsstiorneñe er ecke aňad ad fiña eñ Agg og Deilur / Hatur og Osamlinde / og allskonar Tvijdrægne / þa kañ þar eingenn Blessan ad vera / so sem dagleg Dæme noglega audsyna.

Þridia Dygdeñ hveria øll Christeleg Eckta-Hioon eiga ad ástunda / þa er alvarleg Idne og Astundan sijns Embættis. Sia um til / hvørsu þesse goodu Hioon / Zacharias og Elizabeth / taka vel og trwlega Vara a þvi sem þaug eiga ad giøra / Þviad þegar Zacharia bar a vissum Tijma ad fremia sitt Kieñemañlega Embætte / og ad veita Reykelse i Musterenu firer Drottne / þa forsomade hñ þad alldrei / helldur took jduglega Vara a Guds Þioonustugiørd. Elizabeth i sama mata / liet sier so sem eñur good Hwsmooder umhugad vera um sijna Hwsstiorn. Hvar sem nu so geingur vel og skickañlega til / i hvørlu helst Embætte sem þ vera kañ / þa skulū vier vita / ad þar er vissulega Guds Blessan nalæg / epter þvi sem Salomon seiger / i Ordskvida Bok. 24. Cap. Ad af skickañlegre Heimilis Forstødu / uppfyllest Geymslu Hwseñ med allskins kostulegañ og bægelegañ Rijkdoom. Þar þvert a moote / hvar helst sem illa og Oskickanlega tilgeingur / og allt fer Afslaga i Hws-stiorneñe / þar er ecke von a ødru eñ Ogiæfu / og allskins Olucku.

Sw fiorda Edla Dygdeñ sem øllū Christelegū Hioonū a ad vera mž giefeñ / er sañarleg Þoleñmæde. Þvi er so vared og hattad / ad Gud Drotteñ legg: optast nær Hionabandsstietteñe einhvørn Kross og Motgang uppa / þvi stūdū sender hñ þm s þar iñe lifa Sott og Krankdæme / sum um lætur hñ tilfalla Fatækt og Armood / sumū margvijslegar Offsokner /

 sumum

sumū vilia til Ohlyden̄ og Ostyrelaat Børn/ sumū vonder & hreckvijser Nabwar/sumū Svikult Viñu-Folk/og margt añad þessu lijkt. Ecke voru helldur þesse goodu Hioon/Zacharias & Elizabeth anguslaus/þvi hier stendur i Gudspialls Historiuñe/ Ad hun hafe vered O-Byria/hvad aadur fordū var hallded firer stoora Læging/ hia Gydinga Folke. Samt sem aadur baaru þau þeñan siñ Kross/ vel og þoliñmoodlega/ og mogludu ecke a moote Vilia Guds/ helldur lietu sier þ vel linda/ sem DRotten̄ vilde laata þeim ad Hondum koma. Epter þvilijku Þoleñmædeñar Dæme/ ættu øll Christeleg Hioon ad breita/ þvi þad er eirn merkelegur Hlutur/ ad vera Þoliñmoodur/ og vona uppa Hialpena Drottens/ seiger Jeremias/ i sijnum Harma-Graat/ 3. Capitula.

## Vm þad þridia.

ÞRidie Puncturen̄ sem eg lofade aa ad miñast/ er um̄ Fognud þañ og Glede/sim̄ Naagrañarner feingu af þessare Johañis Fædingu. Hier um̄ aa vijsar so Texten̄. Ad þegar Grañar & Naa-frændur Elizabethar hafe heirt þad/ ad Drotten̄ hefde Myskun sijna vid hana margfalldad/ þa hafe þeir ecke gietad af sier staded/ ad þeir kiæme ecke og samgleddust med heñe/ og þockudu Gude firer sijna Omælañlega Milldе /sem hañ hafde heñe i margañ maata veitt og audsijnt. Sem var i firstu/ad hañ hafde burt-teked heñar Brixle/ og giert hana nu i sijnum haa Alldurdoome/ad eirnre gladværre Barna Moodur/ epter þvi sem David ad Orde kiemst/Psalm. 113. Þar næst samglediast þeir heñe/firer þad/ad Gud hafde laated hana komast vel & skadlaust fra sijnu Foostre. Eñ einkañiega & sierdeilis glediast & samfagna Naagrañarner yfer þvi/ad Johañi veittist sw Æra/ ad meiga vera & heita Firer-Reñare Messiæ og Heimsins Frelsara/vors Drottens Jesu Christi/ epter þvi sem aadur hafde vered um̄ hañ spaad.

Hier wt af hofum vier oss þad til Lærdooms ad taka. First/ lærum vier þad hier/ hvorsu þad hafe Olijka tilgeinged firer Christnum Moñum og Heidnum/ fordum Tijd/þegar hvorium þeirra firer sig/ hefur orded auded Barna. Þvi um̄ heidna Meñ er þad skrifad / ad

þeir hafe

þeir hafa grated & bored sig illa/þa þeirra Born fæddust/en gladst og fagnad aptur / nær þeir mistu þau / og Dauden kipte þeim i burtu. En þad hafa ecke heilager Guds Menn giort / helldur / nær þeir hafa einhvørn sinn Astvin fra sier mist / þa hafa þeir grated og bored sig illa/ so sem allvijda ma sia af heilagre Ritningu/ og þar þvert a moote ordied miøg glader þar vid / þa Gud hefur gefed þeim Børn. Þar firer eru þeir Foreldrar øngvanveigin acktande firer Christna Menn/ helldur firer Heidingia og Vantrwada/sem lata sier þykia þad midur/ þa Gud blessar þa med Fiolda Barna/ meinande ad Drotten sie ecke megnugur ad veita þeim Forsorgun/ & annad sem þeim er naudsynlegt til þessa Lijfs Upphellds. Helldur skyldu øll Christeleg Hioon þacka Gude med Fagnade/ nær hann blessar þau med Lijfs Avexte / eins og giørdu Zacharias og Elizabeth/ asamt þeirra Viner og Nagrannar.

Þar næst svo sem þad/ad Viner og Nagrannar Elizabethar glødduft yfer henar Luckù og Velgeingne / so byriar oss og eirnen ad fagna med Fagnendum/ epter Postulans Pals Aminningu / i Pistlenum til Rom. 12. Þvi þad er Christelegt og Gude þægelegt/ ad þa Herrann blessar eirn og sierhvørn/ i hvørn helst máta sem þad vera kann / ad vier unnum þm þess/ ecke ad eins af Hiarta/ helldur og þøckum Gude med þeim / firer slijka sijna Nad.

# Vm þad Fiorda.

NV epterfilger med einu Orde / ad minnast a þann fiorda Punctenn/sem hlioodar umm Vmskurn hins heilaga Johannis/og umm Agreining þnn sem vard wt af hanns Nafne/sem honum atte ad giefast. Hier umm stendur so i Textanum. OG þEir KOmu A HIunum ATTunda DEIge. Þad er/sem Gudspiallamadurenn vilde so seigia/þeir Viner & Nagrannar Elizabethar/sem adur høfdu samfagnad henne/ komu aptur/enn ecke til þess/ad eta & dreckа/& hallda Giestabod/ so sem marger Foreldrar giora/þa þra Børn eiga ad skijrast/ helldur koma þeir þess Erendis / AD UMSkera SVeinenn / epter þvi sem Drotten hafde adur boded og skipad / ad øll Sveinbørn skyldu a þeim attunda Deige umskierast /

Gen, 17+ Þessare Skickun lifanda Guds / er Johañes hlÿdugur / þui hañ var af sÿnum Foreldrum i Sindunum gieteñ og fæddur / svo sem öñr Børn / ⁊ þurfte þar þ þſſ vid / ad hñ yrde iñtekiñ i Sattmala Guds

Þar næst gietur Gudspiallamadureñ hier / ad nockur skonar Agreiningur hafe orded um̃ Nafn þſſa unga Sveins / þviad Nagrañarner hafe viliad nefna hñ sÿns Fødurs Nafne Zacharias / Eñ Mooder hñs hafe staded þar a moote / og sagt / aungvañeigeñ / helldur skal hañ JOhañes HEita+ Hvad hun i øngvañ mata giørde under þa Grein / ad hun vilde foracta siñ Ecta-Mañ / helldur uppa þad / ad hun fullnægde Eingelsins Ordū ⁊ Drottens Befalningu+ Eñ Ordsaker hvar fire ad Nagrañarner vildu ecke samþicker verda / ad Barned skylde heita Johañes / voru fierdeilis þessar þriar+ Firstad Nafn þetta var ecke i þañ Tÿma alltÿdkad hia Gydingum+ Þar næst þokte þeim þad Tilheirelegast ad Sonureñ skylde bera sÿns Fødurs Nafn / og taka / so sem ad Erfdum / bæde vid Nafne hañs og Embætte+

Þa þridiu Ordsøkena leggia þeir sialfer til og seigia / AD Þar Sie EJngeñ i HEñar Ætt / Sem HEite ÞEssu NAfne+ Þad er / sem þeir vildu so seigia / hefur þad ecke vered gemul og lofleg Sidvenia hia oss / ad giefa Børnunum Nafn / añadhvørt epter sÿnum Foreldrum / edur ad miñsta koste epter sÿnum Skilldmoñum? Hvad skulu þa þessar Nÿungar / ad lata Barned heita þessu Okenda Nafne / Johañes? Eñ sem þeir formerkia Alvøru Elizabethar / ad hun vill i øngvañ mata annad / eñ Sveirneñ skule Johañes heita / þvert a moote þeirra Vilia og Radleggingu / þa lata þeir sier þo ecke þar med nægia / helldur seiger Gudspiallamadureñ / AD ÞEir HAfe BEndt FOdur HAñs / HVad Hañ VJlde Ad Hañ HJete+ Eñ hañ (epter Mal-leisis-Vanda sÿnū) Beiddest Knefa-Spiallds / skrifade og sagde / Johañes er hañs Heite / og þeir undrudust aller+

Hier af lærum vier þad / Firstad lÿka sem þad / ad Gydingar voru forplicktader til / ad lata um̃skiera sÿn Børn / strax a ættunda Deige / epter sÿna Fæding / uppa þad / þau mættu sem firſt komast og iñtakast

i Sætt-

i Sattmaala Guds/ꝛ verda Saaluhoolpeñ. Eins erum vier Christner Meñ/ skyllduger ad laata vor Børn koma þ allra firsta (epter sijna Fæding) til þeirrar heilagu Vatns Skijrnar/þvi Skijrneñ er komeñ i stadeñ Vmskurnareñar. Leifed/ seiger Herrañ Christur/ hia Marc. 10. Børnunum til mijn ad koma/og bañed þeim þad eige. Þad er sem hañ vilde so seigia/ Þier Forelldrar giæted ad idur/ad þier ecke firer Glaum ꝛ Glede/eda nockra adra heimsins Vellist ꝛ Epterlæte/undandraged/ad koma med idar Børn til Skijrnar-Saasins/þviad/Skijrneñ er su Endurfædingar-Lau[illegible]er hvaria Børneñ verda iñtekeñ i Guds Rijke. Þar firer/ þess leingur sem Forelldrarner laata Børneñ vera heima hia sier O-skijrd/þess leingur stefna þeir þeim til ad vera under Rijke ꝛ Vallde Diøfulsins/og firer utañ Guds Naad/ og þañ Sattmaala DRottens/ sem hañ hefur i Skijrneñe vid oss bunded/ sem er þesse/ Ad hvor sem trwer ꝛ verdur skijrdur/skal Saaluhoolpeñ verda. Þvi er þ hiñ meste Salar-Haaske firer Børneñ/ þa þau eru leingefirer utañ þad heilaga Sacramentum Skijrnareñar.

Þar næst verda aller Christner Foreldrar hier amiñter/ad laata giefa sijnu Børnum þau Nøfn sem vel soomer og tijdkañleg hafa vered hia Guds Folke/ꝛ Søfnude Drottens ædur fordum. Hier i þessu Lande hefur fundest stoor Vanbrwkun i þvilijku Efne/ædr firr-meir/þvi þar hafa vered sumer Forelldrar sem ecke alleinasta hafa laated sijn Børn heita epter heidnu Kiempum ꝛ Fornmøñum/ sem vered hafa ad meira Parte Trøll eñ Mañeskiur/sem sia maa af fornu Søgu/ helldur hafa þeir ꝛ so laated giefa þeim Nøfn epter Villu-dijru ꝛ Bestiu. Eñ hier a moote skulu vier vita/ad Gud hefur kallad oss i burt fra þeim megna ꝛ myrkva Heideñdome/og til sijns dijrdarlega Lioss/so sem Postuleñ Petur ad Orde kiemst/1. Pistl. 2. Þar firer ber oss ad ganga so sem Liossens Børnum/ og leggia øll heideñ Nøfn til sijdu / þvi Gud hefur Andstigd a þeim/og vill afmaa ꝛ af-skafa þau/epter þvi sem þar stendur i Osea Spaadooms Bookar/ 2. Capitula.

Framveigis er þad vel athugande ꝛ eptertakanlegt/ wt af þessu heilaga Gudspialle/ ad þar stendur/ ad i þvi Bile sem Zacharias ætlade ad

 giefa

giefa siina Melning z skriflegt Andsvar fra sier/ um Sveinsins Nafn z Neite/ Þa hafe upplokest hans Muñur/ og Tunga hans hafe TAlad/ LOfande GUD. Þetta var eitt mikid Jardteikn z Furdu-verk lifanda Guds/ad sa sem so leinge hafde vered Maal-laus/skylde a einu Augnablike fa aptur sitt Maalfære/ z kiemur þ hier fram sm þar stendur/ Exod. 4. Cap. Hvør hefur skapad Mañsins Muñ/ eda hvør hefur giørt þañ Maal-lausa og þañ dauffa/ simanda edur þañ blinda/ hefe eg DROTTENN ecke giørt þad?

Ad sijdustu stendur hier/ad rot af þssu Dasemdarverke lifanda Guds/ Hafe komed Otte yfer alla þra Nagrañana/og um allar Fiallbigder i Judæa hafe vijdfrægst øll þesse Ord/ z aller þr ed þetta heirdu/ hafe sett þ sier i Hiarta/og sagt/ hvør grunar þig ad þesse Sveirn mune verda? Hier i þessum Textans Ordum er iñefalen svo sem nockurs-konar Spaadoomur uppa Johañem Skijrara/ hvad ypparlegur z Gude þægelegur Madur hañ mune verda.

Um Athanasium Biskup er þad skrifad/ad þa hañ eñ nu var a sijnum Ungdooms z Uppvaxtar Arum/ og liek sier med sijnū Jafnølldrum/þa hafe hañ ætt ad hafa þad sier til Skiemtunar/ ad breita epter øllū þeim Ceremonium/ sem hñ sa firer sier hafdar i Kyrkiuñe/ suma sijna Leiksveina liest hañ vijgia til Presta/ eirneñ liest hañ skijra Børn/ vijgia samañ Hioon/ og añad þess hattar. Uppa þetta horfde eitt siñ Alexander Biskup/þa hañ gieck um Stræted/og kom þar nærre/sm hñ var ad fremia þetta sitt Barndooms Spil/hvar af hñ droo sier strax Grun/ hvør Madur Athanasius munde verda i Framtijdeñe/ hvørs vegna hañ skipade hñs Forelldrum/ ad hallda hønum kostgiæfelega til Skoola/hvad þeir og so giørdu/ og lietu hañ læra/ allt þangad til ad hñ um sijder vard eirn mikels-hattar Doctor og Lærefader Christneñar. Lijka verdur og so skrifad um þañ H. Lærefødur Ambrosium/ ad þa hañ la i Vøggu/ hafe ein Hunangs Fluga setst a hñs Varer/ hvad ad var so sem ein Firersøgn uppa þa Hunangs-sætu Eloqventiam edur Maal-snille/hvørre hñ munde sijdar meir/þa hñ kiæme til Allðurs/ med begæfadur verda. Sama sinnū vier opt og tijdum eñ nu i Dag/a Bernunum/

unum/

uñum edur Vngdoomenum / þvi þar þiñast mørg þau Børn / sem strax a ungum Alldre eru so Skilningsskørp og eptertektasom / um̃ þad sem þau siaa edur heira þirer sier haþt/ad sialþer Forelldrarner ꝫ adrer / meiga þorundra sig stoorlega þar yþer / og allt þetta verkar ꝫ fram̃kvæmer sa goode heilage Ande/ jvo vel hia Vngbørnunum sm̃ hinū ødrū elldre/ Þar þirer seiger Salomon so i Ordskvida B. 20. Cap. Ad eitt Vngmeñe þeckest aþ sÿnum Athøfnū/ hvørt þad vill vera gott og hreinskiled (med Alldrenum.) Hvør sem nu vill kosta Kapps þar a/ad sÿn Børn meige þioona Gude og hñs Christne/ hier a Jørduñe/ hvørt helldur þ er i Andlegre eda Veralldlegre Stiett/ sa bidie Gud af Hiarta / ad hañ vilie wtbreida siñ Miskunar Væng yþer þau/ og vernda þau fra vondra og Ogudlegra Maña Selskap. Forelldrarner eiga og so ad haþa sÿn Børn aptur aþ þvi sem Jllt og Osæmelegt er / epter þvi sem Syrach med mørgum Ordum þaa þar um̃ aamiñer / i siñar B. 30. Cap. Eþ þu gierer so/þa muntu haþa Glede aþ þÿnum Børnum/þu munt þa og eirneñ Ohræddur/ꝫ mz gladværu Giede meiga fram̃ koma / a þeim sÿdasta Deige / þirer Doomstool lifanda Guds /. og seigia / Hier er eg Herra/ ꝫ þær Barnaskiepnur sem þu heþur mier gieþed/ Esa 8. ꝫ 18. Cap. Þvi ecke mun Herrañ Christur þa spyria þar epter/ hvad marga Hesta/hvad margar Kyr/Naut ꝫ Saude / ad eirn edur añar haþe aatt/ helldur mun hñ hallda Spurnū þar þirer / hvørt þu heþur uppfuctad þÿn Børn vel/ i søñū Guds Otta og goodū Sidum. Hafer þu þ dyggelega og kostgiæþelega giørt/ þa muntu þaa aptur a moot / Loþstÿr aþ sialþum Gude þar þirer / 1. Cor. 4. Jaa/þu munt þaa ad heira JEsum so til þÿn talande/ Eya þu froome Fader/ Eya þu gooda Mooder/ þu hefur vel staded i þÿnu Embætte/ Jeg er þiñ Gud ꝫ þÿns Sædis/ Kome þier Blessader mÿns Fødurs / og Erþed þad Rÿked / sem idur er til bwed þra Vpphaþe Veralldareñar / Matth. 25.

## Vm þad Fimta.

NV epterþilger ad miñast med þæstū Ordum/ a þñ aagiæta Loþsaung Zachariæ/og er oss hier þirst athugande. 1. Hvør sa sie / sem hañ

 hier so

hier so loþar og prijsar/sem er DRotten Gud Israels/sa sañe og eilijfe Gud/ og sa rietti Liossens Fader / þra hvørium ad oll good Giøþ/ og þullkomleg Giøþ ad oþañ kiemur / so sem Postulen Jacob vottar i sijns Pistels 1. Cap. 2. Þar næst miñest Zacharias hier a Guds Velgiørninga / og eru þeir sierdeilis þrijr. Sa þirste er Náðarsamleg Vitian/ þvi so kiemst hñ hier ad Orde/ og seiger/ LOfadur Sie GVD DROTTen Israelis/ þvi hañ hefur vitiad sijns Foolks.

Þegar sa goode Guds Madur Zacharias/ saung og samde þeñann Loþdickt / þa stood aumlega og hørmulega til i ollu Gydinga Lande/ þvi Velldisspijrañ var þa burt tekeñ fra Juda / so ad þramande Yþervalld Drottnade yfer Foolkenu/ eingeñ Spamaña Spade þa leingur/ þar sætu Fals Kieñendur a Moysis Stoole / Jæ/ i einu Orde ad seigia/allt var komed i Fær og Voda /og horþdest til hinna stærstu Vandræda / so hvørt Mañs Barn Andvarpade og sagde / aþ Psalm. 14. O Gud giæfe ad Hialpræded kiæme af Zion yfer Israel/ og þad Drotteñ Frelsade sitt Herkekna Foolk/ þa munde Jacob sagna/ og Israel vera gladur. Nu/ J soddañ þreingiande Naudsyn/kom DRottEñ Gud /og vitiade sijns Foolks / i þañ mata/ ad hañ liet Johañem Skijrara þædast/ sem var Firer-Reñare Herrans Christi / uppa þad / ad aller mættu þar aþ ráda / og sig þar vid hugga / ad þar munde ecke vera langt ad bijda / epter Fædingu og Ningadburde Messias og Heimsins Frelsara. Þessu hroosar nu sa gamle Guds Madur Zacharias/ og veit ecke hvørsu nakvæmlega hañ skal koma Ordum hier ad. Añar Velgiørningur liþanda Guds/ hvøriñ Zacharias hroosar hier/ er þ Dyrmæta Frelse/ ÞVJ HAñ VJtiade Og FRelsun GJørde Sijnu Foolke / stendur hier i Textanum. Sjæu til z hugleidum/mijner elskañleger/hvørsu þ/ ad vier voru aller aumlega og hryggelega a oss komner/ vier voru ordner Diefulsins Þy z Þrælar/z þ vegna Sindaña/sem vier hoþdu drijgt/ Vier lau þaugner under Yþervallde Mirkraña/Col.1.Og voru bundner a Hondu z Footu/Jæ/a ollu voru Lidu z Limu/mz Fiøtru Ranglætesins og Vondskuñar/ þar var eingeñ sem oss kuñe ad hialpa/edur Frelse ad veita / hvørke Eingell eda nockur oñur Skiepna/ a Himne og

Jordu

Jørdu/ þar firer sende Gud sin̄ Son/ og liet hn̄ fædast af eirnre Jomfrw/ Løgmaalenu undervorpen̄/ uppa þad/ ad hn̄ frelsade þa sem under Løgmaalenu voru/ so vier feingium Sonarleifdena / Gal. 4.

Vñ Moysen lesum vier/ ad han̄ hafe frelsad Jsraels Folk fra þeim Egyptska Þrældoome/ Exo. 13. Gedeon af Hende þeirra Madianita/ Dom. B. 6. Samson fra þeim Philisteis/ Jud. 15. Eñ hier kuñe ecke eirn Brooder añan ad frelsa/ Psalm. 49. Sialfur Guds Sonur vard ad leggia þad besta hier til/ og Endurleysa sin̄ Søfnud/med sijnu eigen̄ Bloode /Act. 20. Þess ættum vier fagnan̄ med Þacklæte ad miñast/ a medan̄ vier lifum. Þegar sa litle og unge David hafde yfervun̄ed og ad Velle lagt þan̄ Ognarlega Risa Goliath / og frelsad Foolked af Þrældoome Philisteaña / þa geingu wt a moote hønum Kviñurnar af Stadnum mz Saung z allskins Streingialeik /so sm̄ lesa ma 1. Sam. B. 17. Hvad miklu framar skyldum vier fagna og glediast/ þar Christur JEsus hefur so sem eirn Himneskur David / frelsad oss fra þeim Helvijtska Goliath Dioflenum/ og fra allre hn̄s Vondsku og Vijkingskap,/hvad med sijnum Dauda hefur hn̄ Daudan̄s Magt yfervun̄ed/ ect. Þegar vier þetta yfervegum/ þa meigum vier af Hiarta fagna z glediast/ og seigia med Zacharia/ Lofadur sie Gud DRottenn̄ Jsraels/ þvi han̄ hefur vitiad / og Frelsad sitt Foolk.

Þridie Velgiorningur lifanda Guds / hvørium Zacharias hier hroosar/er sw Sigurrijka Vernd /sem hn̄ veiter oss a mote ellū vorū Ovinū. Hier um̄ talar hn̄ so framar i þessum sijnum Lofsaung/og seiger / AD Drotten̄ Gud Zebaoth hafe uppreist eitt Horn i Hwse Davids Þions Sijns. Firer þetta Horn / ma eckert añad ad skiliast / enn sa firer, heitne Heimsens Frelsare / vor DRotten̄ JEsus Christus. First er hann eitt Magtar Horn. Vier vitum þad/ ad mallausum Dijrum og Bestiū er þ eigenlegt/Horn ad hafa/hvørra Magt og Stirkleike/sm̄ z eirnen̄ Prijde/er ad miklu leite komen̄ under Hornunum. Þar firer verd, ur allvijda i H. Ritningu firer Hornen̄ afmaalad. I. Yppatlegleike Veralldlegra Kongarijkia/ af þvi/ad þau Dijr sem Horn hafa/drottna optast nær z hafa Yferburde yfer hinū odrū Dijrū / sem Kollott eru/

 so sem

so sem tæda ma af Daniels Spaadooms B. 7. e 8. Cap. Apoc. 17.
2. J aññañ maata merkest þirer Hornen/ Magt e Stirkleike/ þvi vier
vitum/ ad þau Hornottu Dyren veria sig med sijnum Hornum / eirnen
nidurbriota þau med þeim/ þad þeim er i Veige e til Hindrunar / Og
hefur David vissulega reñt Hugskots-Augum sijnum hier til / þar hñ so
seiger / Ps. 75. Cornua impiorum Confringam/ Jeg vil sundurbriota
Horn fra Ogudlegu / þess vegna liet eirnen Zedechia sa Fals-Spaa-
madur/giøra Jaarn-Horn/þa hñ vilde telia um þirer Kong Achab / ad
hñ skylde draga wt a moote þeim Syris/þviad mz þessu Jaarn-Hornu
(sagde hñ) skaltu um koll staanga þa Syrlendsku/ hvar um lesa maa/ 1.
Kong. B. 22. Þetta allt maa miøg merkelega heimfæraſt/uppa Herrañ
Christum/hvørn sa gamle e goode Kieñemañ Zacharias kall' hier HOrn/
þviad hñ er eirn Kongur/yfer øllum Kongum/ og eirn DRotten yfer
øllum Drottnum/Openberingar Bookareñar 9. Capitula.

Framveigis er þad vel athugande um þetta Horned / ad ecke seiger
Zacharias/ad þ ligge flatt nidre a Jørdu/helldur ad þad sie uppreist /
so sem reidubwed ad vernda oss/ eñ hvar þa? J Hwse Davids/stendur
hier. Þetta Davids Hws / er ein merkeleg Figura edur Firermyndan
uppa Christelega Kyrkiu. Þar þirer hefur eingeñ sa siet Velgiørnin-
ga Herrans Christi ad vænta/ sa sem ecke er af Davids Hwse/ þad er/
sa sem ecke er riettur Christelegrar Kyrkiu Limur/i hvørre þetta Hialpræ-
des Horn er uppreist/ og hier þirer seiger so sa gamle Læresader Cypri-
anus / Christianus non est / qvi in Ecclesia Christi non est. Þad er /
Sa er aungvañveigeñ halldande þirer eirn Christeñ Mañ / sem ecke er i
þeirre Christelegu Kyrkiu uppfrædur / þvi so stendur þar hia Marc.
16. Hvør hñ trwer og verdur skijrdur / sa skal hoolpeñ verda / eñ hvør
hñ ecke trwer/ sa mun fordæmast. Eñ framar er oss vel athugande / wt
af þessum Zachariæ Lofsaung / ad þar eru so sem þrijr Bruñar edur
Uppsprettur/af hvørium ad þsser Guds Velgiørningar framflioota.

Sa firste heiter Guds Sañleike/þvi so seiger Zacharias. So Sem
hañ hefur talad firer Muñ siña heilógu Spaamaña/ ad hñ frelsade
oss fra vorum Ovinum / og af Hende allra þeirra sem oss høtudu.

Med

Med þessu Orda Tiltæke / bender Zacharias oss til þess firsta Firerheitis / sem DRotten gaf vorum firstu Foreldrum i Paradys / um̃ þad Edla Kvinn̄unnar Sæde / sem sundurbriota skylde Høggorms sins Høfud / Gen. 3. A þetta Nadar Firerheit hafa Spamennerner jduglega sijdan minnst / ⁊ ꝥ Jþrekad / so sem sia ma af þeirra Spadooms Bookum.

Annar Brun̄uren̄ er Guds Goodgirne og Miskunseme / þvi Zacharias seiger / Ad Han̄ Hafe Giort Miskunseme Vid Fedur Vora. Gidingar og þeirra Fedur høfdu ecke forþient annad en̄ Reide og Hefndarstraff lifanda Guds / þvi þeir voru eirn hardhnackadur Lydur / en̄ Guds Nad ⁊ Miskunseme er þad ad þacka / ad hn̄ hefur utvaled þa / sier til Arfleifdar / og læted Messiam fædast af þeirra Bloode.

Sa þridie Brun̄uren̄ / er Trwfeste lifanda Guds / um̃ hvøria Zacharias hier so talar ⁊ seiger. Han̄ minntest a sin̄ heilaga Sattmala / og a þad Sære er hn̄ soor Fødur vorum Abraham / ad hn̄ giæfe oss þad. Gud Drotten̄ hafde giort eirn Sattmala vid Abraham / Ad i hanns Sæde skyldu blessast allar Þiooder / og uppa ꝥ / han̄ þyrfte i aungvan̄ mata ad efast hier um̃ / þa soor han̄ hønum hier uppa eirn Eid / Gen. 22. Nu a þennan̄ Eid ⁊ a þennan̄ Sattmala / minntest nu DRotten̄ og uppfyllte ꝥ sama i synu̅ Syne / sem hn̄ hafde ædur lofad Abraham og hans Sæde. Þad fiorda sem Zacharias hroosar i þessu̅ synu̅ Lofsaung / þa er Causa Finalis edur endanleg Ordsøk / hvar firer GUD DRotten̄ hafe viliad audsyna Mankinenu soddan̄ Velgiørninga / sem nu hefur vered aminnst / þar um̃ hlioodar so Gudspialls Texten̄. AD vier leister af Hende Ovina vorra / þioonudum hønum an Otta / J Heilagleika og Riettlæte / firer hønum sialfum / alla vora Lyfdaga. So hefur þa Christur ecke Endurleyst oss til þess / ad vier skyldu̅ þioona Dioflenu̅ eda lifa epter Verallbarennar hætte / helldur til þess / ad vier skyldum vera hn̄s eiged Foolk / kostgiæfed til goodra Verka / Tit. 2.

Ad siduStu verdur hier framm̃settur eirn merkelegur Spadoomur / i hvøriu̅ Zacharias minnest þar a / hvør ⁊ hvyl[illegible] þesse sin̄ Sonur mune verda. Og þu Sveirn (seiger hn̄) munt kallast Spamadr hins Hædsta. Þetta Ord Spamadur / hefur adskilianlega Merking. First er ꝥ þvi-

 lykur Mad-

lijkur Madur sem añadhvort þirer seiger Oordina Hluke/ edr sa sem er vel þorþareñ i Andlegum Efnum / og kañ ad wtleggia þa heilogu Skrifft vel/ og predika wt af heñe/ Og i þañ mata var Johañes eirn riettur Spamadur/ Matth. 11. Capitula.

Eñ latum oss athuga eñ framar / hvør vered hafe Kiør Spamañañna adur fordum / og hvørneñ þeir hafe vered a sig komner / sem er/ ad þrir voru aumer/ fatæker og foraktader / hvørium Veralldeñ launade ecke utañ Illu einu. Elias matte ganga um kring i Fatakt og Armood/ 1. Reg. 5. Esaias vard ad lijda þad/ ad hañs Tilheirendur spottudu hañ/ allt þangad til / ad hañ var um sijdst / a attatugasta Aare sijns Spamañlega Embættis / med eirnre Trie-Sog/ i sundur sagadur / epter Befalningu og Skipan Manassis Kongs / Esa. 57. Jeremia var kastad i eina Grof edur Stifiu / Jer. 38. Micheas var sleigeñ i sitt Andlit/ 1. Reg. 22. Epter Ezechiele blijffstrudn hñs Tilheirendur. Eñ samt sem adur/ hvørneñ sem þessu var vared/ þa er þo Zacharias samt so gladur af þvi ad hñs Sonur skylde fa þa Æru og Virding / ad heita Spamadur hiñs Hædsta.

Hier wt af skulu aller gooder og Gudhrædder Foreldrar sier þad til Lærdooms taka/ ad nær Gud giefur þeim Born/ og þeir Formerkia/ ad þar er gott Ingenium og Næme hia þeim/ þa skulu þeir ecke spara neirn Kostnad þar til/ ad hallda þeim til goodra Menta. O hvad stoor Glede mun Foreldrunum verda þad a þeim sijdasta Deige / þa þeir fa ad sia siñ Son vera þar i Hoop Spamañaña / Postulaña og añara heilagra Lærefedra Christneñar / berande þa O-forgeingelegu Lijfsins Coronu sier a Hofde/ 1. Pet. 5. Þviad þeir sem kieña/ munu skijna sem Himensins Geislar/ og þeir sem morgum vijsa til Riettlætesins/ lijka sem Stiørnur/ um Allder og ad Eilijfu / seiger Dan. Spamadur 12. C. Nu til þessarar Ordar ad meiga komast/ þad veite oss ollum Gud Drottiñ / fyrer Forþienustu sijns Sonar JEsu Christi/ Hvørium med Fodurnum og þeim gooda heilaga Anda / sie æfeñlegt Lof / Heidur og Þackargiørd / nu hiedañ i fra/ og ad Eilijfu / AMEN.

# Fiorda Suñudag epter Trinitatis.

Evangelium/ Luc. 6. Cap.

SEgir JEsus sagde til siña Læresveina. Vered Miskunsamer/ lijka sem idar Fader er Miskunsamur. Aungvañ skulud þier dæma/ so ad þier dæmest eige / Fordæmed ecke/ so ad þier Fordæmest eige. Firergiefed / þa mun idur firergiefed verda. Giefed / og þa skal idur giefast. Eina fulla/ samþrickta/ vel skiekna og yferfliootañlega Mæling/munu þeir giefa i idart Skaut. Þviad med þeirre Hiñe somu Mælingu / hvorre þier mæled wt / mun idur iñ aptur mælt verda. Og hñ sagde þeim eina Epterlijking / Hvort kañ nockud blindur blindañ ad leida ? Eda/ er ecke so / ad þeir falla bader i Grøfena ? Læresveirneñ er eige yfer Meistaranum. Eñ nær Læresveirneñ er sem hañs Meistare / þa er hñ algiordur. Hvad sier þu Vagleñ i þijns Brooďurs Auga / Eñ ad þeim Biælkañ sem i þijnu Auga er/ giæter þu eige? Eda hvorneñ mattu seigia Broodur þijnum/ Brooder / leif þu ad eg burt drage Vagleñ wr þijnu Auga / þar ed þu sier ecke sialfur Biælkañ i þijnu Auga? Þu Hræsnare/ drag first Biælkañ wr þijnu Auga/og siæ þu þa so til / ad þu fáer wtdreiged Vagleñ wr þijns Brooďurs Auga.

## Exordium.

HJer lesum i Domara Bookareñar 21. Cap. Ad a þm Tijma þa eingeñ Kongur var i Jsrael / hafe hvør og eirn giørt og lifad epter þvi sem hønum þokte riett vera. Eñ i Christelegre Kyrkiu edur Søfnude Guds Barna/ geingur þad ecke so til / þvi þar høfū vier eirn Kong/sem giefur oss z fireskrifar allra Handa good Løg/z heilnæmar Lijfs-Reglur/seigiande mz liioosum z wtþrickelegū Ordum/hia Spamañenum Ezechiel/20. Cap. Jeg er DRotteñ idar Gud/epter mijnū Bodordum skulud þier lifa/og þier skulud hallda mijn Riettinde / og giøra þar epter. Og Levit. Book. 19. Befalar hñ /

at hñ / ad hvør og eirn skule elska siñ Naunga / sem sialfañ sig. Enn med þvi ad Kiærleikeñ til Naungaňs tekur ad koolna hia allmørgum / sem Christur sialfur hefur firerspaad / ad skie munde firer hañ sijdasta Dag / sem lesa maa hia Matth. 24. Þa hefur sa Himneske Lijfsins Furste og Kongur allra Konga / vor Drotteñ JEsus Christus / sett sijnū Postulum / sem og øllum ødrum wt i fra / nockrar sierdeilis Lijfs-Reglur firer / hvørneñ þeir skule haga sier vid siñ samchristeñ Naunga / sem er / First / ad vier skulum vera Miskunsamer vid hñ. Þar næst / ad vier skulum aungvañ Dæma nie Fordæma. J þridia lage / ad vier skulum Firergiefa. Og i fiorda og sijdasta maata / Giefa. Vm̄ þetta allt vilium vier faa ad heira nockud fleira talad / næst Hialp Drottens / med þvi ødru sem hier ad hnijgur / og Gudspialls Texteñ wtvijsar.

Sa Miskunsame Gud / hialpe oss med siñe Naad / so vier hier wt af mættum nockud Gott læra / og oss til Nitsemdar færa / Amen.

J Vpphafe Gudspiallsins stendur so. Vered Miskunsamer / lijka sem Ydar Fader er Miskunsamur. Med þvi ad MJskunsemeñ kallast af Læresødurnum Augustino / Corona omnium virtutum / þad er / Korona allra annara Dygda / hvad hun og eirnenn i Sannleika maa riettelega kallast / þvi hun er svo gullega Kediann / sem Himeñ og Jørd til samans bindur og samteinger / þa ber oss þessa Edla Dygdena stunda / af fremsta Megne og Mætte. Hvar til oss skal knya. First / alvarleg Befalning Guds Sonar / hvør ed svo talar og seiger / VERed MJskunsamer. Og med þvi / ad þetta er ecke Skipun eins sindugs Mañs / helldur sialfs Endurlausnarans vors / hvør ad er Kongur yfer øllum Kongum / þa er Skylda vor / ad vier heñe hlijdū / þvi vier erum ecke vorer eigeñ Herrar / helldur JEsu Christi Þienarar / med dijru Verde keipter / 1. Cor. 6. Hundrads Høfdingeñ til Capernaum / atte so hlijdna Þienara / ad nær hañ sagde einū / Far / þa foor hañ / og ødrum / Kom / þa kom hañ / og Þræle sijnum / giør þetta / þa giørde hañ þ / Matth. 8. Nu erum vier Guds Þegnar z Þienarar / skapader i Christo JEsu til goodra Verka / Eph. 2.

Er þ

Er þad þa ecke Skylda vor / ad hlÿda hs Bepalningu / einkanlega þar vier sium / ad þær skinlausu Skiepnurnar hlÿda hs Ordum / so sem N. Ritning allvijda vottar / og oplangt er upp ad telia. Hvad attum vier þa ad giøra / sem kallader erum epter hs eygen Nafne / og med hs Bloode erum Endurleister ? Þar næst skal oss koma til þess ad vera miskunsømum / loplegt Epterdæme sialfs lifanda Guds / þvi so seiger Herran hier / VERed MJSKunsamer / Lÿka Sem Jdar Fader Er Miskunsamur. Nu er Guds Miskunseme Omælanleg / þvi hun er nÿ og fersk a hverium Morgne / og varer æn Aflæts / og alla Tÿma / Luc. 1. Hvørnen er þad þa møgulegt / ad vier kunnum eins og hn miskunsamer ad vera ? Vier skulum vita / ad Herran Christur meinar ecke hier med / ad vier skulum vera Gude jafner / helldur ad eins breita epter hønum / so miked sem oss er møgulegt / i þvi ad audsÿna vorum samchristnum Naunga Miskunseme. Enn fierdeilis og einkum vill Endurlausnaren vor Herran JEsus Christus / oss kient og undervÿsad hafa / med þessu Orda Tiltæke / hvørnen vared og hattad skule vera vorre Miskunseme / sem er / ad þad a ad vera ein hiartgrooen Miskunseme / so sem sa gamle Zacharias ad Orde kiemst / i sÿnu Lofsaung. Sium til / hvørnen Miskunseme Guds til vor Manna er hattad / sem er / ad þo so sie / vier med vorum Sindum / høfum þad forþient / ad vier skÿldum Eidelagder verda / eins og Adama og Zeboim. Þa er samt hs Miskunseme so breitt / ad han vill ecke giøra epter sine Grimdar Reide vid oss / Hos. 11. So a og ecke helldur vor Miskunseme einungis ad framkoma af vorum Munne og Tungu / helldur og eirnen af hreinu og einfølldu Hiarta. Þar næst a þad ad vera ein Sannarleg Miskunseme / sem auglÿsast a med Verkunum / þvi þad er ecke noog / ad vier sieum blijdmællter vid vorn Naunga / og latum ecke neitt Gott af oss leida / helldur eigum vier ad hialpa hønum epter Megne / i hs Naudsÿn / epter þvi sem þar stendur i Jacobs Pist. 2. Cap. Enn ef nockur Brooder eda Syster eru naken / og hafa Þørf daglegrar Næringar / og einhvør idar seiger til þeirra / Fared i Fride / en giefed þeim eckert / hvad þeirra Lÿkamans Naudþurft er / hvad hialpar þad ?

 J þridia

J þridia lage/ a þad ad vera ein Almeñeleg Miſkunſeme/ þvi ſvo ſem þad/ ad i hia Gude er eckert Mañgreinar Alit/ Act. 10. So a ꝛ ſo vor Miſkunſeme ad ſtanda opeñ firer hvorium Mañe / þad er/ vier eigum ad vera reidubwner til ad þiena / þocknaſt og hialpa hvorium ſem einum / firer utañ allt Mañgreinar Alit.

J fiorda mata / a þeſſe vor Miſkunſeme ad ſkie og framkoma af liwfum og loſtugum Vilia/ eñ ecke af nockurskonar Ærugyrugheitum/ eins og giordu Phariſei fordum / edur firer þa Skulld / ad vier ætlum oſſ til Abata/eda Betalnings þar firer/ helldur a þad allt ad ſkie af einfølldu Hiarta/ eñ ecke af Naudung edur Ovilia/ þviad hyrañ Giafara elſkar Gud/ ſeiger Poſtuleñ/ I. Cor. 9. Cap.

Ad ſidſtu a vor Miſkunſeme ad vera Varañleg / þvi vor goode Gud þreiteſt ecke/ ad audſyna oſſ ſyna Miſkunſeme/ jafnvel þo vier opt og tidum/ leggium honum ecke añad i Þock/ eñ Oþacklæte. Nu ſeiger hañ ſialfur þo ſvo hia Jerem. 15. Jeg er þreittur Miſkunſamur ad vera/ eñ þad a alleinaſta heima hia þeim/ ſem alldrei vilia kuñaſt vid hañs Velgiorninga / og eru fra hvorfner ad ſnwa ſier til DRottens/ yfer hvørium hañ klagar hia Spamañenum Hoſ. 11. Cap. Lætum oſſ þar firer/ epterfilgia Aminingu Poſtulans til Gal. 6. Þar hañ ſeiger/ Lætum oſſ giora Gott og ecke þreitaſt / þviad a ſynum Tyma munu vier eirneñ Oaflatañlega uppſkiera. Eñ jafnframt þeſſu ſkulū vier vita/ad ecke eiga Meñ i þañ mata Miſkunſemena ad fremia/ad vier ſiaū i gegnū Fijngur vid vonda Boofa og Skalka/ helldur a hvør og eirn ad taka Vara a ſiñe Stiett/Kalle og Embætte. Til Dæmis ad taka / Preſtarner meiga ecke miſkuna ſig yfer Fals-Kieñendur/ Hoorur/ Hoordooms-Meñ/ Þioofa/ ꝛ adra þeſſ hattar Glæpa-Meñ/ ꝛ Stoorſindara/edur hlidra hia þvi/ſo þr ſtraffe ecke þvilijka Leſte/og Hneixlaner/ þvi ſo ſeiger Gud hia Spamoñenum Ezechiel/3. Cap. Þu Mañſins Son / Eg hefe ſett þig til eins Vardhalldsmañs yfer Iſraels Hws/þu ſkallt heira Orded af mijnum Muñe/og vara þa vid miña vegna. Nær eg ſeige til hins Ogudlega / þu ſkallt Dauda deya/ og þu varar hañ ei vid/og ſeiger honum þad ecke/ſvo ad ſa hiñ Ogudlege kuñe ad

vakta

vakta sig þirer sijnu Ogudlegu Athæþe / so hañ meige Lijþe hallda/ þa mun hm̃ Ogudlege deya þirer siña Sinda Saker / eñ hñs Bloods vil eg krefia aþ þiñe Hende. Eñ varer þu þañ hiñ Ogudlega vid / og hañ snyr sier ecke i burt þra sijnu Ogudlega Athæþe / þa mun hñ deya þirer siña Sinda Saker / Eñ þijna Saal hefur þu frelsad.

Ein Yþervallds Persoona mæ ei helldur miskuna sig yþer þeim/ sem Illa haþa lifad/ ad hañ gieþe þa lausa / so sem heþde þa eckert vondslegt hendt/ þvi so seiger DRotteñ Deut. B. 13. Þitt Auga skal ecke væg-ia honum/og þu skallt ecke skijla hönum/ Saal þirer Saal/ Auga þirer Auga/ Toñ þirer Toñ/ etc. etc. Soma er ad tala um̃ Foreldrana / þeir meiga ecke læta oþmiked epter sijnum Bornum/ og lijda þeim hvørn Osooma/ þvi Salomon seiger i Ordskvida B. 23. Cap. Lææt ecke aþ ad hirta Vngmeñed/ þvi eþ þu slær þad med Vendenum/ þa þarf þad ecke dreped ad verda / etc. etc.

Vt aþ þessum þirstu Textans Ordum/ höþum vier og eirneñ oss þad til Huggunar ad taka/ Ad Herrañ Christur vottar/ad Gud sie Fader/ & þad meira er / ad hñ sie vor Fader / sem hafe eitt Fødurlegt Hiarta til vor/ Iæ/ ad hñ sie ecke ad eins vor Fader / helldur vor miskunsamur Fader/ hvar þirer hvør og eirn Christeñ Madur mæ Okvijdeñ til hañs flija/ i hvørskins vidliggiande Naudsyn/ med Sonarlegu Trauste/svo sem eitt Barn til sijns Hiartans Fødurs/og vænta sier og vona hia hönum allrar Naadar og Miskunar. Hier næst bijdur og bijfalar Herrañ Christur oss / i þessa Dags Evangelio / Ad vier skulum aungvann Dæma edur Fordæma. Ecke meinar Herrañ Christur hier med rieττ-þerduga Dooma / sem Yþervallded uppseiger yfer þeim sem brotleger verda/ og sier illa og Ogudlega haga/ i eirn edur añañ mæta/ helldur talar hñ hier um̃ dærlega Dag-Dooma/ þa eirn talar allskonar Hæd og Spott um̃ siñ Nææunga/leggz Ord hñs & Giørder wt i hina verstu Mein ing/hvad nu a þessũ Døgũ er miøg almeñelegt. Eñ þesser sem so giøra sindga ecke allsijted a moote Gude / þvi so stendur þar skriþad/ i Pistle-enum til Rom. 14. Hvør ert þu sem añarlegañ Þioon Dæmer? Hañ stendur edur þellur sijnum Herra. Og i þirra Pistle til Cor. 4. Cap.

 Seiger

Seiger Postulen̄/ Dæmed ecke pirer Eymañ/ þangad til ad DRottenn kiemur / ſa ed auglyſa mun þad i Myrkrunum er hulid / Og opeñber giøra Rad Hiartnaña+

Pad þridia ſem Herrañ Christur wtheimter af oſſ hier / er iñbyrdis Sattſamleg Forlykun / a þvi ſem oſſ verdur a moote broted / þvi ſo ſeiger hñ+ Fyrergiefed/ Og Pa Mun Idur Firergiefed Verda+ Par eru marger ſem læ taſt firergiefa ſynū Broodur og Samchriſtnū Naunga hñs Misgiørder og ſættaſt vid hñ / eñ er þo ecke utañ einfoomis Hræſne & Yfirdrepſkapur/þvi þeirra Hiarta er fullt af Hatre/Langrækne og Hefndargyrnd/ſeigia a añare Stundeñe/ alldrei ſkule þeir firergiefa a medañ þeir lifa/ eñ a añare ad þeir vilie vel forlæta/eñ ſamt mune þeir þo miñaſt þad/ſem ſier hafe a moote giørt vered / og alldrei ſkule ſa Madur dirfaſt þadañ i fra / ad koma firer ſyn Augu+ Eñ þvilyka hræſnisfulla Sattargiørd og Firergiefning / vill Gud ecke hafa/ helldur hitt / ad hvør og eirn firergiefe wt af Hiarta ſynum Broodur hñs Misgiørder/ ſo framt ſem hñ vill ad Gud firergiefe ſier/ ſo ſem þar ſtendur hia Matth+ 18+ Cap+ Item ſeiger Syrach ſo/ 28+ Cap+ Hvør hñ hefner ſyn/a þeim vill Drottenñ hefna / og ecke firergiefa hønum hañs Sinder / firergief þynum Naunga/ þad ſem hñ hefur misgiørt vid þig/ og bid ſydañ/ ſo munu þier og eirneñ þynar Sinder firergiefnar verda+ Eñ uppa þad / ad vier verdum fuſare og viliugre til þeſſ/ad firergiefa vorum Jafnchriſtnum / þad ſem hañ brytur oſſ a moote/þa ſkal oſſ þar til hvetia+ Firſt / Befalning og Skipan ſialfs lifanda Guds/ Þvi þegar Poſtuleñ Petur ſpurde JEſum ad/ hvad opt hañ ſkylde firergiefa þeim ſem vid hñ bryte / hvørt þad være ecke noog/ ad hñ giørde þad ſieſiñum? Pa ſoarade Herrañ+ Jeg ſeige þier/ecke ſieſiñum/helldur ſiøtyuſiñum ſieſiñum/þad er fiøgur Hundrud og nijutyu ſiñum/edur ſo opt ſem hñ brÿtur a moote oſſ+

Par næſt ſkal oſſ koma til þeſſ ad firergiefa vorum Naunga/Dæme lifanda Guds/ hvør ed giarnañ medtekur alla ſem til hñs koma / og leita Fridar og Sattar hia hønum / þvi ſo ſeiger Endurlauſnareñ vor ſialfur/ læred af mier / þvi eg er Hoogvær og af Hiarta Lytelætur+

Og eñ

Og eñ aptur seiger hañ/ ad sæler sieu Fridsamer/ þvi þeir skule Guds Børn kallast.

Þad þridia/ sem oss skal u-þyssa til Fridar og Firergiefningar/ eru þau miklu Laun/ sem Gud heiter øllum þeim / sem Frid og Samþicke elska/þvi so stendur þar eñ aptur/ hia Matth. 5. Ad sæler sieu Hoogværer/ þvi þeir skule Jardrijked erfa.

J fiorda ꝛ skiodasta mata/eigū vier ad læta oss þar til koma þ hrædelega Straff/ sem yfer þeim hanger/ sem ecke vilia forlijkast og firergiefa/þa nockur þeim i mooke brijtur. Og er þad first/ad þeim verdur sialfum ecke firergiefed. Þar næst/ verda þeir ecke verduger halldner/ ad þeir skule vera Bordgiester Herrans Christi/og medtaka hñs Heilagasta Lijkama ꝛ Blood i Sacramentenu Altaresins/ epter þvi sem klarlega skrifad stendur/hia Matth. 5. Nær þu offrar þijna Gafu a Altared/ og þier kiemur þar til hugar/ad þiñ Brooder hafe nockud a mooke þier/þa læt þu þar þijna Gafu firer Altarenu/ og far first ad sætta þig vid þiñ Broodur.

Ad skiodastu befalar Herrañ Christur oss i þessa Dags Evangelio edur Gudspialle/ ad vier skulum vera erlæter/ og giefa giarnsamlega/ ꝛ ødrum til gooda giøra/ af þvi sem Gud hefur oss lænad. Hverium ꝛ eg þa (kañ einhvør ad seigia) ad giefa? Vier eigum ad giefa i firstu/ øllum þeim sem oss bidia/eñ einkañlega og sierdeilis Guds Fatækum og voludū Þurfa-Møñū/hvørt helldꝛ þeir hafa þ af oss forskulldad/eda ei/ epter þvi sem Christur seiger/hia Matth. 5. Cap. Gief þeim sem þig bidur/ꝛ vert ecke af-undeñ vid þañ sem af þier vill Lan taka.

Þar næst eigum vier ad giefa ꝛ til gooda ad giøra þeim sem oss kieña og undervijsa Guds Ord/ so sem aderu Prestar og Guds Ords Þienarar/so sem giørdu þeir i Galatia fordū/ hvøriū Postuleñ Paall hroosar og seiger/ef møgulegt hefde vered/ þa mundu þr hafa wtslited sijn Augu/ og giefed sier/Gal. 4. J þridia lage eigum vier ad giefa til Kirkna og Skoola/so sem ad giørde Hundrads Høfdingeñ til Capernaum/ hvar firer hønum verdur og eirneñ hroosad/hia Lucam/ 7.Capitula.

Hier kañ einhvør aptur ad spyria ꝛ seigia/hvørneñ ꝛ eg þa ad giefa?

Andsvar/Siertu rykur ꝛ audugur/þa attu ꝛ so rykuglega/enn ecke sparlega ad gieþa/ enn siertu þatækur/ þa attu þo samt þad ad giøra epter Megne/epter þvi sem Tobias sagde til syns Sonar/ Tob. 4. Haþer þu miked/ so veittu rykuglega/ enn haþer þu lyted/so veittu aþ þvi litla med trwu Hiarta/ þviad þu munt þa safna þier goodre Umbun i Neid/ þvi Gud vill eins þiggia þad litla/sem þad mikla/ epter þvi sem liooſt er af Dæme Herrans Christi sialþs/hvørium ad þocknadest betur þad litla / sem sw þatæka Eckia lagde i Aulmusu Kistuna/ enn hitt allt sem þeir ryku þar inn løgdu/ Luc. 21. Capitula. Og þetta eigum vier ad giøra/ þirst vegna þess/ ad þad er skilldugt og tilheirelegt/ þviad allt hvad vier høþum/ þad høþum vier aþ Gude þeiged/ til þess/ ad vier skulum brwka þad og handtiera Gude til Dyrdar/ Naunganum til Gagns/ enn oss sialfum til Goods. Þar næst er þad og so Christelegt/ ad vier giefum/þviad eþ nockur heþur Audæþe þessarar Veralldar/ og sier sinn Broodur Neid lyda/ og aptur birger sitt Hiarta þirer honum/ hvørnenn bliffur Guds Kiærleike hia honum? 1. Joh. 3.

J þridia lage er þad og so Naudsynlegt/ad vier gieþum/ og ødrum til gooda giørum/þviad hvør þatækum miskunar (seiger Salomon) sa lanar Drottne/ hann mun hønum þad goodu endurgiallda/og þad sama þirst hier i þessu Lyþe. Þviad þeir Voludu munu bidia gott þirer þeim sem þeim til gooda giøra. Þar næst i þvi tilkomanda Lyþenu/ þviad sa ꝧ Guds Þacka-giarn er/mun safna sier Fiesiood a Himnum/ Matth. 6. Og þetta eru nu þær þiorar Høþud Dygder ꝛ Mannkoster/ sem Gud vill ad eirn og sierhvør riett-christenn Madur audsyne ꝛ i tie læte/vid sinn Naunga/ hvad eþ vier giørum/ Þa Mun Oss Aptur Med Eirnre þullre/samþricktre/velskieknre og yþerþliootannlegre Mælingu/ endurgollded verda. So sem Herrann Christur hier seiger i Gudspiallenu/ þad er/Gud mun oss aptur i stadenn rykuglega blessa/ þessa Heims ꝛ annars. Enn med þvi ad vor Sindumspillta Natturа/ sem og eirnenn vort eiged Holld og Blood/ er næsta miøg tregt og Oleidekamt til goodra Verka/ þa mæler þad hier a moote og seiger. Hvad stodar mig þad/ þo ad jeg sie Miskunsamur/ eda Medaumkunarsamur. vid minn Naunga.

Eg heþe

Eg heße þar lÿted Sagn aß. Þar til ſvarar HErrañ Chriſtur ſvo/ Ad med þeim ſama Mæler ſem vier mælū ødrū wt/ mune oſſ iñ aptur mællt verda. Aptur ßramkiemur vor gamle Adam / og ſeiger. Firſt adrar Þiooder ala Natur/ Oßrid & Oſamþicke ſÿn a millū/ þvi ſkal mier þa ecke ſlÿkt hid ſama leißaſt? eda/ þar adrer ſem ßullrÿker eru/ tÿma aß aungvu ad ſia/ edur neitt ad gießa af ſÿnū Eignū/ ſkyllde eg einſamall gießa? Hier til ſvarar HErrann Chriſtur ſo/ KAñ NOckud BLind. ur blindañ ad leida/ er ecke ſo / ad þeir ßalla bæder i Grøßena? Skal eg (ſeiger vor gamle Madur) alltjaßnt ßirergieſa/ hvørſu opt ſm̄ mier er a moote giørt? Eg veit ecke utañ eg mune verda ad Spotte og Athlætre um̄ ſÿder þar ßirer? Eñ Christur ſvarar hier ſo til/ AD LÆREſveirneñ Sie Ecke Yfer MEiſtaranum. Þad er ſem hañ vilde ſo ſagt haßa/ Jeg er idar Meiſtare/ & ßirergieß giarnañ/ þa eg er þar um̄ bedeñ/ þvi ſkylldu þier þa ecke ſlÿkt hid ſama giøra? Ecke lætur Nolld vort og Blood ſier eñ hier med nægia/ helldur ſeiger ſo/ med þvi ad miñ Naunga vantar margt til ad ſkicka ſier ſo & hegda ſem honum ber og vel ſoomer/ þvi mæ eg þa ecke ßiña ad þvi/ laſta hñ & lÿta/ & jaßnvel dæma hñ & ßordæma þar ßirer/ ad hañ giører ſo og ſo? Þar til ſvarar Chriſtur og ſeiger: Hvad ſier þu Vagleñ i þÿns Broodurs Auga? Eñ ad þeim Bialkanum ſem i þÿnu Auga er/ gæer þu ecke/ þu Hræſnare/ Drag ßirſt Bialkañ wr þÿnu Auga/ og ſia þu þa ſvo til/ ad þu fæer wtdreiged Vagliñ wr þÿns Broodurs Auga. Og ſkal þetta ſo ſtuttlega ſagt vera wt af þeſſu N. Evangelio.

Þeim eina og þreña almattuga Gude/ ſie Loß og Dyrd/ nu hiedañ i ßra og ad Eilÿßu / Amen.

# A Vitiunar Hatiid Mariæ.

## Evangelium / Luc. 1. Cap.



Þeim Døgum. Stood Maria upp / og ßoor med ßlÿte til Fiallbigda i Borgena Juda/ iñgieck i Hws Zachariæ/ & heilſade Elizabeth. Og þad ſkiede ſvo/ þa er Elizabeth heirde Heilſun Mariu/ ad Barned ſprakk upp i

heñar Kvide. Og Elizabeth uppfylltest af heilögum Anda/ kall-ade hætte Roddu og sagde/ Blessud ert þu a medal Kveña/og Bless-adur er Avoxtur Kvidar þijns / Og hvadañ kiemur mier þetta / ad Mooder DRottens mijns kiemur til mijn? Sia þu/ þa er Rodd þiñ-ar Kvediu kom mier til Eirna/ sprakk Barned upp af Fagnade i mijn-um Kvide. Og Sæl ert þu sem trwder / þviad þad mun fullkomnast hvad þier var heited af DRottne. Og Maria sagde. Mijn Aund myklar DRottiñ/ Og minn Ande gladdest i Gude Heilsugiafara mijnum. Þviad hañ leit a Læging Ambættar siñar / Sia / af þvi munu mig hiedañ af allar Ætter Sæla kalla. Þviad hñ giør-de vid mig mikla Hlute/ sa sem mattugur er / og hañs Nafn er hei-lagt. Og hañs Miskunseme varer fra eirnre Kinslood til añarar / yfer øllum þeim sem hañ Ottast. Hañ framde Magt med sijnum Arme / sundurdreifde hañ Dramblætum i þeirra Hiartans Hugsan. Volldugaa sette hañ af Stoole / og upphoof Lijtelata. Hungrada fyllte hañ øllum Giædum/og hinum Rijku slepte hañ fantijtum. Hañ endurminntest Miskunar siñar / og medtook siñ þioon Jsrael. So sem hañ talade til Fedra vorra / Abrahams/ og hañs Afkvæmis ad Eilijfu. Og Maria var hia heñe/ so nær sem þria Mænude/og foor sijdañ aftur til sijns Heimkyñis.

# Exordium.

Vier lesum/ 2. Sam. 6. Cap. Ad epter þad / ad Sattmals Aurkeñ hafde vered i Hwse ObedEdom i þria heila Mænude/ad hñ hafe feinged stoora og rijkuglega Blessan/af sialf-um lifanda Gude/ þar firer. Þetta hefur i sier iñe ad hall-da / eina andlega Þijding, Christus JEsus er sw riettra Sattmals Aurk/ i hvørium ad Gud Himnesskur Fader / hefur giert eirn nyjann Sattmala vid oss/Jerem. 31. Og þar firer verdur hñ kalladur Satt-mals Eingell / hia Malach. Spam. 3. Cap. Nu lijka sem þad/

ad Obed

ad Obed Edom vard blessadur af Gude/ þa han̄ hafde hyst Guds Sattmals Aurk / so þaum vier og so ad heira i þessu N. Evangelio / ad þegar sw Himneska Sattmals Aurk JEsus Christus/ var hystur og herbergiadur/i Hwse sijns Frænd-Foolks / þa vard þad med allre goodre Guds Blessan begæfad. Eins verda þeir og so af Gude blessader/ sem hn̄ ottast/ þvi Gudhrædslan̄ er til allra Hluta nytsamleg/ og hefur Fireheit uppa þetta / og epter komanda Lijf / 1. Tim. 4. Cap. An leingra Inngangs / vilium vier koma til Textan̄s / og han̄ yferfara i þrennur Smægreinum. Sw firsta skal vera um̄ Reisu Jomfrur Mariu til sinar Frænd-Konu Elizabethar. Aun̄ur um̄ þeirra Samtal / sem þær hofdu sijn a mille. J þeirre þridiu vilium vier med fæstum Ordum yfer vega / þan̄ ægiæta Lofsaung Jomfrwr Mariu.

Gud hialpe oss m3 sin̄e Naad/ ad vier mættū hier wt af nockud Gott læra/og oss til Saaluhialplegrar Brwkunar ꝛ Nytsemder færa/Amen.

## Firsta Greinen̄.

FIrst er oss hier athugande/Tijmen̄/ a hverium Jomfrw Maria hafe þessa Reisu uppa sig teked/ sem er/ a þeim siotta Manude/ epter þad ad hen̄ar Frænd-Kona Elizabeth var vorden̄ Barns hafande.

Hier af hefum vier þad ad læra/ ad þo sijnast meige firer holldlegre Skinseme/ ad eitt edur an̄ad sie Omøgulegt/ þa skulum vier vita/ ad þ sem firer Mon̄um virdest omøgulegt ad vera / þad er møgulegt firer lifanda Gude. Trwar-Brestur vor giører þad / ad þad framkiemur ecke alltijd vid oss/ sem Gud hefur þo lofad. Þar firer er Naudsyn/ad vier iafnan̄ bidium med Postulunum Herrans Christi / og seigium / Domine/adauge nobis Fidem/ DRotten̄ auk þu vora Trw.

Hier næst er ad skoda/ hver vered hafe Staduren̄ / til hvørs Maria giørde sijna Reisu. J Gudspiallz Textanum stendur / Ad Hun Hafe Geinged Med Flyte/ J Borgena Juda/ etc. etc. Og Hafe Komed J Hws Zachariæ/ Og Heilsad Elizabeth. Sumer meina ad þad hafe vered Jerusalem Borg/sem Maria gieck til/ en̄ þad sijnest ad vera Mis-Skilningur þeirra / sem þar um̄ so skrifad hafa.

 J þridia

J þridia máta er þad athugaverdt/sem stendur i þessum vorum Gudspialls Texta/ sem er/ Ad Hun Haße Med Flyte Geinged. Ecke er þess gieted/ad hun hafe skrÿdt sig og prÿdt/med kostulegum Klædnade/helld, ur geinged sliett og riett ßirer utan alla Hoffrakt/oss til Lærdooms/ad eingen good erleg Kvinna / skule þykiast meire þar ßirer þo Gud giefe henne Lijfs-Avøxt/ helldur þeinkia til þess/ sem Postulenn Paulus seiger/ 1. Cor. 4. Hvad hefur þu Madur / þad sem þu heßur ecke þeiged ? Enn hafer þu þad þeiged/ hvar ßirer hroosar þu þier ? etc. etc.

Oss til enn ßrekare Eptertektar af þessum Texta/þa er þad ad athuga/ hvøriar vered haße Ordsaker til þessarar Jomßrw Mariu Reisu. Ecke kom hun til þess ad læna Peninga/ ecke til ad færa einar og adrar Friettir/so sem nu er miøg tÿdkannlegt/ og þar med ad rægia eirn Naunga vid annan/ helldur kom hun til þess/ad HElsa sine Frændkonu/og ooska henne Luku / aß þvi ad Gud haßde burt ßra henne teked þad Brÿxle sem hun under lá/sem var ad heita Obyria. Þegar eirn og annar audsÿner sÿnum Naunga soddann Elsku, Teikn/og gledst þar aß/ad hønum geingur vel/ þa er þad vÿst Merke þar til/ad hann er Verkfære þess gooda H. Anda/og lætur sig aß hønum stioornast / so sem margfalldlega má aß Guds heilaga Orde bevÿsast. Þar þvert amoote/ þa eirn Madur er so sinnadur / og aß Diøßlenum og vondskußullre Nattturu tilegndur/ ad hann ecke kann ad lißa ßirer utan Agg og Deilur / þa er þad og so vÿst Merke þar til/ ad hann stioornast og upphvetst til hins Vonda aß illum Anda/ sem er aß Føburnum Fianda/ þad er/ aß Dioßlenum i Helvÿte/ hvar ßra GUD vardveite alla sÿna i JEsu Naßne.

# Annur Greinenn.

OG so þetta verde ei oplæsngt/þa viliu vier koma til þess sÿdara Greinarkornsins / sem hliodar umm Samtal þeirra Jomßrw Mariu og Elizabethar. Hier er oss ßirst athugande / hvad ypparlegar Persoonur þad sieu/sem hier vid rædast. Enn þetta voru ecke neinar Ambætter/ og saßnvel þo ad Maria Guds Mooder segde so til Eingelsins Gabriels / þa hann bodade henne Getnad og Fædingu JEsu Neimsins Frelsara /

sara / Jeg er Ambætt DRottens / þa var þad þid mesta Audmyktar Teikn/þvi hun vidurkieñde sig Overduga i allañ mata/ad meiga heita/ vera og kallast JEsu holldleg Mooder. Soddañ Audmykt og Lytelæte / skartar vel i ollum Stiettum. Lytelæted Jdur under volldugа Guds Hond / so mun hñ upphefia idur a Vitiunar Tijma / seiger Postuleñ/ 1. Pet. 5.

Nu er ad miñast a Efne og Jñtak þessarar Rædu / sem Jomfru Maria og Elizabeth hafa syn i millum/ og er þad tveñt sierdeilis/ sem hier er vert ad athugande. Fyrst / Sa herlege Lofstyr / sem Elizabeth tilleggur Jomfru Mariu/ þar hun kallar hana sæla/ seigiande / Blessud ertu A MEdal KVeña / og þad fyrst vegna þess / ad hun ætte ad vera holldleg Mooder JEsu Christi. Þess og añars / ad hun hafde tvwad Eingelsins Ordum þa hañ bodade heñe Gleþnadeñ.

Þad añad sem oss er hier athugande / er sa merkelege Vitnisburdur sem hun giefur Herranum Christo / þar hun framveigis so seiger / Og Blessadur er Avoxtur Kvidar þyns / Og hvadann kiemur mier þad / ad Mooder DROTTENNS mijns kiemur til mijn ? Hier kallar nu Elizabeth Christum Avoxt Kvidar Mariu Meyar / eñ seiger þo jafnframt ad hñ sie heñar Herra ꝛ Drotteñ. Hvar mz ad stadfestest bæde Mañdoomureñ so og lijka Guddoomureñ Herrans Christi. Vm þessa og adra þvilijka vigtuga Hlute /ꝛ. Tvwar, Greiner tala þessar ypparlegar Kviñur. Hvar af vier höfum oss til Lærdooms ad taka / þad / hvørt ad vera eige Samtals-Efne vort / þa vier komum til samans/ hvørt þad er helldur Heima hia oss i Hwsum vorum og Bænum / eda og so añarstadar/sem er / ecke ad tala um eirn og añañ oþarfañ Hie gooma / af hvøriu vier verdu Gude Reikningskap ad standa / a sijdasta Deige/ Matth. 12. Helldur a vor Ræda ad vera um Gud og hañs H. Ord. Ja/ ad soñu / um Gud eigum vier ad tala/ og þad/ hvad miked Gott hñ hefur oss veitt og audsijndt i sijnum elskulega Hiartans Syne JEsu Christo. Vm hñs H. Ord eigum vier od tala / hversu kroptugt þad sie / til ad hugga mæddar og sorgfullar Mañeskiur. Af soddañ Gudrækelegu Samtale glediast H. Ande. Enn þar þvert a moote

 spilla

ſpilla illar Samrædur goodum Sidum / hvat ſem þar eru um̃ Hend haþdar / 1. Cor. 15. Eirneñ ſliggeſt H. Ande þar vid / epter þvi ſem Poſtuleñ vottar / Eph. 4. Skam̃arleg Ord og þyþlſlegt Hial / lætſed vera langt þra Jdut.

# Þridia Greineñ.

NU epter þilger ſa fagre og ægiæte Lopſaungur Jomþrur Mariu / i hvorium hun i liooſe lætur / ſitt audmiukt Þacklæte / þirer Guds Velgiørninga ſem hun heþur af hønum þeiged / bæde hid iñra og ytra. Gudſpiallamadureñ ſeiger / ad hun haþe ſo til Ords teked og ſagt. Mijn Ønd miklar Drotteñ / og miñ Ande gladdeſt i GUde Heilſugiaþara Mijnum. Hier gieþur nu ſu H. Jomþru Maria / oſſ øllum eitt merkelegt Epterdæme af ſier. Kieñande þar med hverier ad ſieu þær hellſtu Velgiørningar þirer hvøria oſſ Møñunum ber ad loſa og vegſama Gud O-aþlætaꝛlega. Firſt ber oſſ ad vier ſeigium hønum audmiukar Þacker þirer þad / ad hñ ecke ad eins helldur oſſ vid Lijþ og Heilſu / helldur og eirneñ uppheþur hñ oſſ opt og tijdum ur Dupteinu / og ſetur med Høþdingium ſijns Foolks / ſo ſem David ſeiger / Pſalm. 113. Hun loþar hñ og eirneñ þirer ſiñ mikla Krapt og Verkan / ſem hñ haþe audſijnt a ſier / þar hun ſo ad Orde kiemſt og ſeiger / AD HAñ HAþe Lited a Læging Ambættar ſinnar / Og haþe giørt vid ſig mikla Hlute. Sañlega mæ þad ſeigia / ad Gud Drotteñ haþe giørt mikla og dadſamlega Hlute / vid Mariu Meyu / þar hñ aþ ſijnu Guddooms Almætte liet hana þaa Gietnad aþ H. Anda / þirer utañ Kallmañs Tilverknad / og þetta er nu þad Novum / edur ſa nyſtarlege Hlutur / um̃ hvorn Spaamadureñ talar / Jeg vil giøra nockud Nytt i Landenu / Kviñañ ſkal um̃kringia Mañeñ / Jer. 31. Oſſ verdur hier og eirneñ ſijnt & þirer Siooner ſett / hvørſu þad / ad Gud almættugur haþe vered opt og oſialldañ vanur ad giøra mikla Hlute / aþ litlũ & audvirdelegũ Eþnũ & Medølũ / þvi lijka ſem þad / ad ſa almættuge Gud giørde mykla Hlute vid Mariu Meyu / ſo kañ hñ og ſo eñ nu a þeſſum ſijduſtu Heimſins Tijmum ad giøra mykel & ſtoor Dadſemdar verk þa høñũ ſo þocknaſt vid oz / eþ vier ad eins

ſetium

setium alla vora Von og Trwnadar-Traust til hns/ þvi hans Kraptur er i þeim Breisku mættugur/ 2. Cor. 12.

Þar næst og i annan mæta lofar og vegsamar Jomfru Maria Eilyf-an alls valldanda Gud/ fyrer sijna Fodurlega Velgiørninga/ hverier ad øllum JEsu Christi Elskendum jafnt tilheira. Þessum Velgiørn-ingum vors Guds og Drottens / samlijker sa goode Guds Madur David vid eina Coronu/ þar han so seiger/ Psalm. 5. Þu Koronar þa med þinne Nad/so sem einu Skillde. Nu/lijka sem þad/ad ein Cor-ona hefur hvørke Upphaf nie Enda/ þa hun kiemur wr Gull - Smids-sins Hende/þvi hver kan ad sia hvar hun er til samans sett. Eins er og vared Guds Myskunseme/ hun er Oendanleg/og so stoor sem han er sialfur/ Syrach. 2. Maria vegsamar hier og eirnen Drottenn/ fyrer sijna mikla Magt og Styrkleika/ hvørn hann audsijner i þvi/ ad sundurdreifa þeim Dramblætu i þeirra Hiartans Hugsun. Fyrer þa Dramblætu eiga ad skiliast aller þeir sem hallda sig ølln ødrum vijs-are/og vilia helldur hafa Vegsemd hia Mønnum/en Vegsemd hia Gude/ so sem Johannes ad Orde kiemst/ 12. C. Soddann dærlegar Manness-iur/ þa þær hallda sig vijsar ad vera/eru þær ad Þussum ordnar/seig-er Postulenn/ Rom. 1.

Frammveigs syngur Maria so i þessum sijnum Lofsaung/ og seiger. Volldugа sette hann af Stoole / og upphoof Lijtelæta. Slijkt ad giøra er Gude audvellt og alhægt/ so sem lioosslega mа sia af Dæme Pharaonis/Sennacheribs/ Nebucadnesars/Antiochi/ og ann-ara fleire. Gud sijner og eirnenn opt og tijdum sijna Magt i þvi/ Ad Hann VPPhefur Þa Lijtelætu/ so sem Maria syngur hier. Enn vier skulum vita/ad fyrer þa Lijtelætu eiga ad skiliast þeir einer/sem vidurkienna sinn Ooverdugleika/ og tilreikna ecke sialfum sier þad gott sem þeir giøra edur adhafast/ helldur sialfum Gude. Þeir sem so giøra/þeir eru Gude hiner allra þeckustu og kiærustu/og þess meir sem þeir audmykia sig/ þess meir vill hann upphefia þa og til Heidurs setia/ a sijnum Tijma/ so sem Postulenn Petur vottar/ 1. Pist. 5. Dæme þar uppa høfum vier a Joseph/ Moyse/ David/ Ester/ Daniel og mørgum ødrum.

Hier af aḃ hoḃū vier oſſ þ til Huggunar ad taka/ad þo ſo ſie ad Ovíner vorer/ ſm̄ oſſ oḃſækia/ſieu mikler/þa er Gud þo meire. Treiſte þu uppa ſiñ Styrk ꝛ Armlegg/ þa er Armleggz DRottens þo þuſūd ſiñū ſterkare/ ſo ſ David ſeiger/Pſ. 20. Þeir hiner adrer treiſta uppa Vagna ꝛ Heſta/eñ vier hugſū uppa Naḃned DRottens Guds vors.

Ad ſidduſtu pryſſar ꝛ vegſamar Jomḃru Maria Gud/ḃirer ſitt mikla Aurlæte/þvi ſo ſeiger hun hier/ HUNGrada Fyllte Hañ Ull ū Giædum/ Eñ RJkum Ryku ſLepte Hañ Fantum. Þetta ā ad ſkiliaſt a Andlegañ hatt/ um̄ alla þa ſem hungra og þyrſta epter Rietklæte/ nu/ Matth. 5. Þa hina ſömu uppḃyller og bleſſar Gud/ med allskatkudum goodum Giædū/Andlegū ꝛ Lijkamlegum. Vilier þu nu og ſo miñ Brooder ꝛ Syſter/ ad Gud veite þier ſijnar Nadar ꝛ Gæḃur/ þa gieḃdu þig i Selſkap þra hungrudu/ꝛ medkieñdu þitt Volæde/þijna Þorḃ ꝛ Naudſijn. Spamadureñ Elias kuñe ecke ad ḃilla Krukſer þeirrar ḃakæku Eckiu/ med Oleo/ ḃirr eñ þær voru allar toomar ordnar/2. Kong. B. 4. So kuñū vier ꝛ ecke helldur Nuttakarar ad verda Guds Nadar Velgiørninga/ nema ſo ſie/ ad vier adur giørum vor Hiartans Kier og Jølat toom/ ꝛ aḃleggiū allar Verallolegar Girnder/ Ahyggiu og Bukſorg/ eñ ſetiū alleinaſta vort Trunadar Trauſt til DRottens/hvadañ oſſ kiemur Hialpeñ. Frañveigis auglijſer Gud og i liooſe lætur ſitt Aurlætis Gied vid oſſ/i þvi ad hañ vill miñaſt a ſijna Myſkunſeme/og þo ad vier af Mañlegū Breiſkleika kuñū ad falla i eirn edur añañ Mata/þa vill hñ oſſ ſamt aptur a Fætur hialpa/nær vier til hñs flijum med ſañre Audmykt og Jdrande Hiarta. Nu/vier viliū hier med enda þeſſa ſtutta Rædu/ bidiande vorn gooda Gud/i Naḃne ſijns Elſkulega Sonar Jeſu Chriſti/ad hañ vilie ḃramhallda vid oſſ ſiñe Nad medañ vier liḃum hier i þeſſum Eimdardal/ ꝛ gieḃa oſſ gledelegañ og ḃarſælañ Aḃgang aḃ Heime þeſſum/ ꝛ ad Endalokunū eilijḃt Lijḃ. Þeirre Heilogu Guddoomſins Þreñingu/ſie Loḃ/Heidur ꝛ Þackargiørd/ nu hiedañ i ḃrā/ og ad eilijḃu/ Amen.

# Fimta Sunudag epter Trinitatis.

Evangelium / Luc. 5. Cap.

OG þad skiede / þa er Foolked þlycktest ad honum / til ad heira Guds Ord / og hañ sialþur stood vid Siooeñ Genezareth / og hañ leit tvo Skip standa vid Siooeñ. Eñ Fiskararner voru stigner aþ Skipunum og þvodu Neteñ. Hañ stie þa uppa añad Skiped / þad sem var Simonar / og bad hañ ad draga nockud þra Lande. Og hañ sat og kieñde Foolkenu af Skipenu. Og sem hañ gaþ upp ad kieña / sagde hañ til Simonar / Drag þu wt a Diwped/og leysed upp Ydar Net til Fiskedrattar/ Simon svarade og sagde til hañs: Meistare/J alla Noott hoþum vier Erfidad/ og feingum eckert. Eñ i þijnu Orde mun eg Netenu wtkasta. Og þa þeir hoþdu þetta giort / iñeluktu þeir mikla Mergd Fiska / so ad þeirra Net rifnudu. Og þeir bendtu sijnum Fielogum sem voru a hinu odru Skipenu / þad þeir kiæme þar / og hialpudu þeim. Og þeir komu/ og hloodu bæde Skipeñ þull / svo ad þau sucku ad mestu. Þa ed Simon Petur sa þetta / þiell hañ til Kniaña JEsu / og sagde. Gack þra mier Lavardur/ þviad eg em Madur syndugur / af þvi / ad Felmtur var yþer hañ komeñ / og alla þa sem med honum voru/ aþ þeim Fiskedrætte/ er þeir feingu til samans/ Lijka eirneñ yþer Jacobum og Johañem Sonu Zebedei/sem ad voru Lagsmeñ Simonar/ Og JEsus sagde til Simonar / Ottast þu eige / þviad hiedañ i fra skaltu Meñ veida. Og þeir droou sijn Skip ad Lande/ yþergaþu allt samañ / og þilgdu honum epter.

## Exordium.

HJer lesum i Exodi Bookar 16. Cap. Þar um / Ad þegar Gud Drottiñ (?) bædde og þorsorgade sitt Foolk a Himnabrauðenu / i þeirre Arabisku Eydemorku/þa hafe hñ gieþed þeim eina vissa Reglu epter ad ganga/hvorneñ þad skylde Himnamiolenu saþna

døgum? Eñ þeir þøgdu vid. Og hañ took a hønum/ læknade hañ og liet hañ i burtu fara / svarade og sagde til þeirra. Hvørs Jdar Asne edur Naut sem fellur i Pytt / er þad eige jafnsnart wtdreiged a Þvottdeige? Og þeir gaatu hønum aungvu þar til svarad. Eñ hñ sagde þessa Epterlijking til þeirra sem bodner voru / þa ed hañ sa hvørneñ þeir mættust epter hinum fremstu Sætum / seigiande so til þeirra. Nær ed þu verdur bodeñ af einhvørium til Brwdkaups/ þa set þig ecke i ædsta Sæte / kañ skie þad añar Heidarlegre eñ þu / sie bodeñ af hønum / og kome sa sem þier baud og hønum / og seige til þijn / Gief þessum Rwm / og hlioter þu þa med Kiñroda ad hafa hid ydsta Sæte. Helldur so/ nær ed þu verdur bodeñ / þa far þu og set þig i hiñ ytsta Sess / so ad þa / nær ed sa kiemur er þier baud/ þa seige hñ til þijn / Vinur/ þoka þier upp betur. Þa mun þier Virding veitast hia þijnum Sessunautum. Þvi hvør sig sialfur Upphefur/ hañ mun nidurlægiast/ og hvør sig Lijtelæter/ hañ skal Upphafeñ verda.

# Exordium.

A Medal añara merkelegra Nafna sem vorū blessada Endurlausnare Herranū JEsu Christo verda giefeñ i heilagre Ritningu (elsku leg Guds Børn) þa er þetta ecke hid sijdsta / ad hañ er kalladur Drotteñ vor Grædare edur Læknismeistare/ so sem lesa maa/ Exo. C. 15. og Matth. 9. Cap. Eñ hvad riettelega þessum Himneska Læknet soome ad bera þetta Nafn/ þad kuñum vier gløggvast ad sia þar af/ ef vier berum hañ samañ vid alla adra Læknara. First er sa Munureñ/ ad þar aller adrer Læknarar kuña ad bregdast / þa bregst þesse vor Lækner oss alldreige. Adra Læknara kañ ad hindra laung Leid / þa kañ ad hindra Soott og Daude / so þeir kome þa sijdst til hins siuka þa mest aliggur. Eñ JEsum vorn hindrar ecke Fiærlægd Vegarens/ þvi hñ er alltijd hia oss/ so sem David vottar um hñ/Ps. 145. Nærre er Drotteñ øllū þeim sem hñ akalla/øllū þeim sem hñ akalla i Anda og

Sañleika. Hañ hindrar ecke Soott nie Daude / þvi hañ er eitt sinn dæeñ/og þeir ecke optar / Ja/ Daudeñ drottnar nu ecke yfer hønum leingur. Pad næst er sa Mismunur a mille JEsu / og allra annara Lækxara/ad þar þeir kuña ecke Boot utañ vid Lykamans Kvillum og Krænkdæmum ad eins/ og þo eru þar nockrar Soottet sem þeir kuña eingeñ Rad vid/þa kañ vor Lækner JEsus / ecke alleinasta ad græda allar Lykamans Meinsemder/ helldur og so Sælareñar og Samvitskuñs at Sær/ sem mest æliggur. So sem þ/ad Sælareñar Velferd er dyr-mætare eñ Lykamans Velferd / so er vor Lækner Christur/ øllum ødrum Læknurū meire og betre. Þridie Mismunur a mille Læknisdooms Herrans Christi/ og añara Læknara er sa/ ad hañs Læknisdoomur er so miøg langiædur/ hañ varer ad Eilijfu/ þar hina añara Læknirgar eru skamviñar/ so þo sa siuke fae styna Lykamans Heilbrygde apftur/þa var-er þad tuttugu/ þriatiju eda kañskie mest fiørutiju Aar/ sijdañ kiemur Daudeñ og svipter aptur i burt Heilsuñe/þa er so sem einu gillde/hvort Madur hefur nockurn tijma læknadur vered edur ei. Eñ þeir sem JEsus læknar/nio ota þess Læknisdooms adeilijfu/ þeir deyia aldrei þeim eilijfa Dauda. So sem þa/ad eilijf Lækningar Not eru betre og ædre eñ stund-leg/ So er vor Lækner øllum ødrum ædre og betre. Þetta mætte saña þesse aume Vatnsiuke Madur/ hvers hier verdur gieted i þessa Dags Gudspialle/ sem og marger adrer fleire sem HErrañ Christur læknade/ ecke einungis uppa Lykamañ/ helldur og svo uppa Sælena. Og viliū vier æn leingra Jñgangs/vijkia til Textans/og hønum i þriar Smæ-greiner sundur skipta. Hin firsta skal vera uṁ þetta Pharisæiska Gieftabod/sem HErrañ Christur var tilbodeñ. Añur uṁ þad mikla Dadsemdarverk sem hañ giørde a þeim Vatnsiuka. Þridia uṁ þa merkelegu Gieftabods Predikun edur Rædu sem hañ fremsette.

Nu/ Sa ædste Lækner allra Meina/vor DRotteñ JEsus Christus/ virdest ad hialpa oss/ og vera i Verke med oss/ so vier mættum hier vt af nockud gott læra / og oss til Nytsemdar færa/ Amen.

# Firsta Greineñ.

VM Absalon lesum vier i añare Book Samuelis 13. Cap. Ad hañ hafe under Vinattu Skine/ boded synum Broodur Amon til Gie-sta/ þar hañ hafde þo vondt Auga og Nugferde til hñs / firer þad hñ hafde kreinkt hñs Systur Thamar/ og skipade þar firer synum Pien-urum / ad þeir skyldu sla hañ i Hel / þa hañ være Viindruckeñ ordeñ. Soddañ Næsnisfullt og Otrwtt Giestabod / verdur oss og eirneñ firer Siooner sett i þeim firsta Parte Gudspiallsins/ sem i Dag verdur kieñt og wtlagt i Christelegre Kyrkiu. Og er þad fierdeilis tveñt sem oss er hier athugande. Þad firra er um Verteñ eda Nwsherrañ / sem hier bydur Herranum Christo til Giesta. Gudspiallamadureñ seiger / ad þad hafe ecke vered eirn sliektur ꝛ umkomulytell Madur/ helldur eirn mikels-hattar Nøfdinge Phariseaña. Eñ Pharisæi voru soddañ eitt Foolk / sem þokteft kostulegra og heilagra eñ aller adrer / giefande margar Al-musur/ Matth. 6. Þeir bæru syda Kioola / og breidañ Klædafalld/ uppa hvørn ad miøg konstlega og merkelega voru Baldyrud edur æsaum-ud þau tiju Guds Bodord. Þeir høfdu og so Miñingar Blod sier i Hende / hwad þo alltsamañ ecke var nema eintoomis Næsne ꝛ Yfferdrep-skapur/ Matth. 23. Nu/ soddañ eirn mikelshattar Madur var kisse sem baud Herranum Christo til Giesta/og þad sama a einum Sabbaths-deige/ þvi þad var Sidvane Gydinga / ad koma til samañs ad endadre Guds Pioonustugierd/ og hallda sidsamlegt Samtal hvør vid añañ/ Nehem. Book. 8. og Tob. 2. Cap.

Hier af høfum vier þad ad læra / ad ærleg og soomasamleg Giestabod eru ecke firerboden ad hallda / þvi eirn Matarmilldañ Mañ lofar Al-þydañ/Eñ af einum Brioostleisinge talar Stadureñ Illt/ seiger Syr-ach 32. Cap. Item/ ǽmiñer Postuleñ Paall alla Riettchristna Meñ / i Pistlenu til Neb. 13. Cap. seigiande/ Gleimed ecke Giestrisneñe/ þvi ad firer hana hafa nockrer (þm Ovitande) Einglunum Herberge veitt. Soddañ Giestabod hielldu þeir H. Guds Meñ ædur fordu / so sem ad var Abraham/ Gen. 21. Isaach baud Abimelech til Giesta/ Gen. 26. Joseph Brædrū synū/ Gen. 43. Og sa goode Fadereñ þm Fortapada Synenum / Luc. 15. Eñ sañfrañt þessu / ber oss ad athuga vel og

vandlega

vandlega/ þegar vier þolldum vorum Vinum og Nauungum Gieſtabod/ ad vier giørum þad/ Firſt/med ſañarlegre Gudrækne ſo ſem Tobias/um hvørn ſkrifad ſtendur/Tob. B. 9. Ad þa þeir høfdu ſagt Amen/ þa hafe þeir geinged til Bords / Eñ Brullaups Veitſluna og Gledſkapeñ hafe þeir halldeð i Otta Guds. Þar næſt eigum vier ad hallda vor Gieſtabod m; goodre Skickan ꝛ Hoofſeme. Þeſſe Phariſeus ſem hafde Herrañ Chriſtum til Gieſta / var ad ſøñu eirn ríkur og mikelshattar Madur/ſo ſem vier heirdum ſtrax æmiñſt/ ſamt mæ hier merkia/ ad hñ hefur ecke haft neitt Ohoof i ſijnu Gieſtabode/ þvi i Gudſpiallenu ſtendur / ad Chriſtur hafe vered komeñ i hañs Hws Brauds Ad Neyta. Sama ber oſſ ad giøra / vier ſkulum læta oſſ nægia þo vier hefñ ecke marga forkoſtulega Riette a voru Borde / helldur taka til þacka þ Gud giefur/ Eñ þad geingur ſo til a þeſſum Døgum / ad þad þiker eingenn good Veitſla edur Gieſtabod/ ſem ecke er ſo frañreidt Øl og Matur/ ad Meñ verde Svijndrucknar / ſo þeir falle añadhvert under Borded/ edur miñſta koſte ſieu borner i burtu verr eñ dauder. Slijkt Ohoof þocknaſt Gude ecke/ helldur ſtiggeſt hñ miklu framar þar vid / þa hañ ſier ad ſijnar Gæfur eru ſo ſvijvirdelega vanbrwkadar. Eñ þo gooder Viner kome til ſamañs / jafnvel a Suñudegum / og giøre ſig glada ꝛ lyſtuga/ med einum goodum Drÿck Vijns/og ſoomaſamlegu Samtale/ſem Gude er ecke Stigd ad / og Meñ forſooma þar firer ecke þa heilogu Guds Þioonuſtugiørd / þa er þad aungvañveigeñ Laſts verdt.

Frañveigis er oſſ athugande / hver vered hafe Ordſok þar til / ad þeſſe Phariſeus baud HErranum Chriſto til Gieſta heim i ſitt Hws. Munde hñ nockud giøra þ af Elſku ꝛ Kiærleika til Herrañs / eins ꝛ þa Vinur bijdur Vin ? Nei / lángt fiærre/helldur var Tilgangur hñs ſa/ Ad hñ villde bera ſig ad komaſt firer hñ Bleſſadañ/Þar firer ſtendur ſo i Textanñ. OG ÞEir HOfdu V Ardhalld a Honñ. Þad er/þeir gæfu vel Giætur ad hñs Hegdan/ Ordñ ꝛ Giørdñ/ meinande ad þr mundu nu gieta ( þar hñ ſat gladur i Gieſtabodenu ) hendt eitt hvad epter honum / hvar af audſied er / ad þeſſe Phariſeare hefur mætt vera eirn ſierdeilis falſkur og underferull Hundur/og hefur læted epter ſig marga

sijna Brædur sier lijka / sem læta pagurt og vingiarnlega vid sin Naunga/ en i Hiartanu umsitia þeir hn/ Jerem. 9. C. Þesser haþa Jacobs Raust/en Esau Hendur. Soddan falskur Skalkur var Saul Kongur/ hn lietst vera Davids beste Vinur hid ytra/ z gaf honu til Ecta Doottur sijna Michol/setti hn vid sitt eiged Bord/so sin sin allrakiæræsta Doottur Mag/og lietst eckert Illt haþa i Sine vid hn/samt leitade hn Lags i tvær Reisur/ad nijsta hn i giegnum vid Veggen/ med sijnu Spioote/ 1. Sam. B. 18. z 19. Cap. David sialþum þoot ecke helldur stoors betur/þa hn um Kvolloed lietst vera goodur Vinur Uriæ/ z baud honum til Giesta/ en um Morgunen epter/ þieck hn honum eitt Brieþ/ z skipade ad setia han i Striided þar sem þ være hardast / so hn yrde i Hel sleigen/2. Sam. B. 11. Cap. Ptolomeus Hoþudsmadur i Jericho/ baud þm ædsta Preste Simeone Mage sijnum til Giesta/ og hns tveimur Sonum/ en yfer Bordum/ þa þeir voru glader ordner/ liet hn myrda þa/ so sem lesa ma/1. B. Maccab. 16. Cap. Latum oss þar þirer flya z þordast þvilijk Odæde/ Svik z Prette vid vorn Naunga/ þvi i Christo JEsu er eitt riettelegt Athæþe/ Eph. 4. En þeir Bloodgiarnugu z Falsþullu munu ecke hálþna sijna Liijþdaga / seiger David/ Ps. 54. Persoonan sem hier verdur til Bords boden / er vor allra sætaste HErra og Endurlausnare JEsus Christus / z þo han visse vel/ad þesse Phariseus sem honum inbaud / heþde eckert Gott i Sine vid sig / þa kiemur han þo samt til Giestabodsins / ecke til þess einungis ad Eta og Drecka/ helldur til þess ad kiena z uppþræda Giestena i Guds Orde/ Ef skie mætte þr heþde kunnad adleidriettast/z komast a riettan Saluhialparenar Veg. Hid sama eigum vier ad giera/ef vier siaum vorn Broodur þara villt/ einkanlega i sijnu Saluhialpar Eþnum / þa eigu vier ad kosta Kapps a / ad hialpa honum og vidrietta so miked sem mogulegt er. Verde honum snwed þra Villu sijns Vegar / þa er gott/ þvi vier hoþum þa þrelsad eina Aund fra Daudanum/ epter þvi sem Jacob Postule seiger/ 5. Cap. sijns Pistels / Og skal þetta so sagt um þad þirsta.

# Annur Greinen.

UPþerþilger þ anad Greinarkorned / sem hlioodar um þad mikla Daudsemdarverk

semdarverk Herrans Christi / sem hn giorde i Giestabods Veitslune. Og er oss hier þirst athugande Persoonan / sem læknud var / Gudspiallamadurenn seiger / ad þad hafe vered eirn Vatnssiukur Madur. En hvornenn ad þesse veike Madur haþe komed inn i Hwsed / þar Herrann Christur sat til Bords / hvort hn haþe þangad sialþkraþa þared / eda haþe hn inn þangad aþ odrum Gudhræddum ⁊ Medaumkunarsomum Monnum leiddur vered / þess verdur ecke gieted i Gudspiallenu. Hieronimi Meining er sw / ad med þvi ad Phariseatner settu sig epter Herranum Christo / þa mune þeir af æsettu Rade haþa so til sett / ad þesse Vatnssiuke Madur skylde koma inn um Maltijdar Tijman / uppa þ / ad hn skylde verda vort blessada Endurlausnara ad einn æsteitingar Steine / svo heþde hn ecke læknad hn / þa þottust þeir haþa Ordsok til ad æklaga hann / annadhvort þirer Miskunar og Medaumkunarleise / edur þirer Vanmatt ad hn giæte hn ecke læknad / enn være so / ad hn læknade hn / þottust þeir hafa nooga Ordsok til ad ækiæra hann / þirer Foracktan Sabbathsdagsins / edur Helgedags Brot. Hier aþ siaum vier ( elskuleg Guds Born ) hvad þirer eitt Giestabod þetta hefur vered / sem Herrann Christur var tilbodenn / og hvørsu skadsamlegar Snørur og hæskasamleg Net / ad þeir Ogudlegu Skalkar heþdu lagt hier þirer þad blessada Lambed Guds / til ad þanga þad i / so þeir haþa meint / ad þad være Omogulegt ad hn kynne nu hia sier ad sleppa hvad sem hn uppa slæge / edur til Bragds tæke. En hvad giorer Herrann Christur til ? Hann so sem eirn alvitur Herra sier strax þeirra Aþorm / og hvad þeim bijr i Giede / talar þar þirer so ⁊ seiger til þra. Hvort leiþest nockud ad lækna a Hvottdogum ? En ÞEir ÞÞogdu Vid. Hier aþ heþum vier þetta ad læra / Ad Sabbaths edur Hvijldardaguренn vanhelgost ecke þar þirer / þo Menn þremie ⁊ adhaþest þ Naudsynlegt er. Til Dæmis ad taka / eþ Elldur kiemur upp / og ætlar ad giora Skada heilum Hwsum edur Bæum / Edur eþ Striidsher innþellur a helgum Deige / þa er leiþelegt / ad Menn bæde biarge sijnum Hwsum / ⁊ so griþe til Vopna / a moote sijnum Ovinum / epter þvi sem þeir Machabæi samtooku / seigiande / Eþ Oviner vorer yþerþalla oss a Hvottdogu / þa viliu vier oss veria / 1. B. Maccab. 2. Og þeir giordu

 þad

þad eirneñ/ ſvo ſem leſa mæ i ſömu Bookar 9. Capitula. So giörđu Lærеſveinarner Chriſti / þa hañ a Sabbathsdeige gieck um̄ Kornſæded/og þa Hungrade/þa tijndu þeir Axen ſier til Matar / hvad þegar Phariſei ſau / fundu þeir þar ad/ Eñ Herrañ Chriſtur forſvarade þa ſialfur/ ſo ſem leſa mæ hia Matth. 12. Capitula.

J añañ mæta ſkulū vier vita/ad Sabbathsdagureñ vanhelgaſt ecke/ þar firer/ þo Meñ giøre Kiærleikans Verk/Til Dæmis /ef eiñ Mañ eſkia ratade Ofor varandis i Olucku/ ꝛ være añadhvørt hegg veñ/ſtrangeñ/edur i einhvørn añañ mæta Jlla vtkleikeñ/ þar eru Meñ ſkylduger ad taka hñ ad ſier og giøra til gooda/ Eda hoør kann ad firerbiooda Lakuismeiſtaranum / ad bwa til Plaſtur og leggia vid Saar þeſſ Særda ? Eda Apotekaranum /ad blanda þeim ſwka þañ Dryck/ ſem honum kañ af ad batna? Þvi ſoddañ er ecke Helgedags Brot/ helldur vtheimter miklu framar Chriſtelegur Kiærleike/ ad hvør ꝛ eirn ſkule giøra ſitt hid beſta/hvad ad er Løgmalſins Uppfilling/ſo ſm̄ Poſtuleñ kieñer/ i Piſt. til Rom. 13. Cap. J þridia mæta ſkulum vier vita/ad Sabbathsdagureñ vanhelgaſt ecke firer þau Verk/ſem Guds Pioonuſtu til heira/ ſo ſm̄ er firer Ordſins Predikun/Sacramentaña handtieringu/framlideña Maña Greftran/ edur firer Vitiun ſiwkra/Eckna og Fodurlauſra Barna/þvi ſlijkt er Oſtleckud Guds Pioonuſta/ ſo ſem Jacob Poſtule ſeiger/1.Cap. Þar firer ſkulū vier hier æmiñter vera/ad hallda oſſ alleinaſta fra þeim Verkum/ a heiløgū Drottens Døgum/ſem Gude vorum meiga vera til ſtigdar/ Þvi añars kañ Drotteñ ad ſnwa vorum Helgedøgum i Hrigd/epter þvi ſem Spæmadureñ Amos ad Orde kieniſt/ 8. Cap. Framveigis ſkulum vier ſkoda hier og yfer vega / hvørſu dæ dſamlega ad Herrañ Chriſtur fer ad lækna þeñañ Vatnsſwka Mañ. Ecke bijdur hañ epter Andſvare Phariſeaña/helldur tekur hañ a honum og læknar hañ ſtrax/ æn allra Orda. Hañ hefde vel kuñad ad lækna hñ med einu Orde/ſo ſem Pioon Hofudsmañſins / Matth. 8. Eda þañ Blinda hia Veigenum/Luc. 18. Eda þañ Jcktſwka/Matth. 9. Eñ þ vill hañ ecke giøra/helldur tekur hañ a hønū med ſiñe Almættis Hende/ viliande þar med audſijna/ ad ſitt Holld være alleinaſta þad ſem lijfgiafa

kiñe/

kyñe/ Joh. 6. Eñ ſierdeilis er þ þo næſta Nuggunarſamlegt/ad þo ſa Vatnsſiwke beidde vorn liwþa Endurlauſnara ecke um Hialp/þa er hñ ſamt þo ſo Siœſkurſkur ad hñ olldungis Obedeñ ahrærer hañ og lækn- ar. Hvad mun hañ þa giöra oſſ ( mijner Elſkañleger) þa vier koll- um til hañs/ og bidium aþ Hiarta ? R/ hañ er lœngtum þwſare til ad gieþa/eñ vier erum ad medtaka. Og þar þirer verdur hañ kalladur Sool Riettlæteſins/Malac. 4. Cap. Þvi ſvo ſem þad/ad Sooleñ kañ alld- rei ad vera an Byrtu og Liooma/ſo kañ hañ og ecke añars/ eñ ad miſk- una ſig yþer oſſ/ og giöra til gooda/ Jerem. 31. Cap.

Nu ſem vor Bleſſade Endurlauſnare JEſus Chriſtus þormerker/ad ſijner Mootſtodumeñ ſem þar ſatu til Bordſins med hönum/vilia laſta hañ þar þirer/ad hañ heþde læknad þeñañ Vatnsſiwka a Hvootldeige/ þa þorſvarar hñ ſig ſo ſeigiande. HVers JOar A Sne Edur NAut ſin þellur i Pitt/ er þad ecke jaþnſnart wtdreiged a Hvottdeige? etc. etc. Þad er ſem vilde hañ ſvo ſeigia/ Ef ad Meñ draga Fienad ſiñ upp wr Dijke edur Fene a Sabbathsdeige/ ſo hañ ſkule ecke kaþna þar midre i/ hvad miklu þramar ber þa ad hialpa eirnre Naudſtaddre Mañeſkiu/eins- kanlega þar Sabbathsdagureñ er vegna Mañſins/eñ Madureñ ecke veg- na Sabbathsdagſins giördur / Marc. 2. Cap. Og ſtrax ſem þeir heira hvorneñ HErrañ Chriſtur forſvarar þeñañ ſiñ Giorning/ þa ver- da þeir ſo Stamer og Stader a ſier/ ad Gudſpiallamadureñ ſeiger. Ad þeir haþe aungvu gietad hönum þar til ſvarad. Og kiemur þad hier þrañ ſem Job ſeiger/ 5. Cap. Hañ Onijter Radagiörder þra Ill-klooku/ ſo ad þeirra Hönd bær þvi ecke aþ ſtad komed/ Hañ hendler hina Vijſu i þeirra Slægsmunū/ & umvellter Radū Rangferdugra.

## Þridia Greineñ.

ÞAd þridia og ſijdaſta Greinarkorned/ ſem eg loþade a ad miñaſt/ A- hrærer þa merkelegu Gieſtabods Predikun/ſem Herrañ Chriſtur fram ſette/ þirer hina adra Bodsmeñena/ ſem til Bordſins ſatu. Eñ Ord- ſokeñ hvar þirer hañ hana þrañ ſette/ rar Drambſeme og Metnadur þra Skriþtlærdu og Phariſeaña/ hverier ed mottuſt epter hinum fremſtu

Sætum/ Og med þvi ad vor blessade Endurlausnare var sialfur hoog⸗vær ꝛ aff Hiarta lijtelatur /epter þvi sem hn um sig vottar hia Matth. 11. C. Þa kunne hn i aungvan mata soddan audstyggelegan Lost Adþin⸗ingarlaust ad lijda/ talar þar þirer svo ꝛ seiger til þra sem mz honu til Bordsins satu. Nær ed þu verdur bodenn af einhvorium til Brwd⸗kaups/þa set þig ecke i ædsta Sæte/ kann skie þad annar Heidarlegre enn þu/ sie bodenn af honum/ ꝛ kome sa sem þier baud ꝛ honum/ ꝛ seige til þijn/ Gief þessum Rwm/ ꝛ hlyoter þu þa med Kinnroda ad hafa hid ytsta Sæte. Helldur so / nær ed þu verdur bodenn / þa far þu og set þig i hinn ytsta Sess/ so ad þa/ nær ed sa kiemur er þier baud/ þa seige hn til þijn/ Vinur/ þoka þier upp betur/ etc. etc. Þriar merkeleg⸗ar Giestabods Reglur giefur Herrann Christur ollum oss / i þessare sinne Epterlijkingu. Hin firsta er sw / Ad vier eigum ecke ad forsma / þar gooder Vinner biooda oss Heim til sijn/ helldur med þockum þigg⸗ia þeirra Veiting / og þad þeir oss til Gooda giera / hafande þirer oss Dæme sialfs Herrans Christi/ hvor ed/ þa hn var bodenn til Brwdkaup⸗sins i Cana / þa kom hn sialfur Persoonulega þangad / med sijnum Læ⸗resveinum / Joh. 2. Hann var og eirnenn til Giesta hia Mattheo / Matth. 9. Hia Zacheo/ Luc. 19. Hia Lazaro epter þad hn hafde uppvaked hn af Dauda/Joh. 12. Cap. ꝛ hia morgu odrum. Aunur Giestabods Reglan / sem Herrann Christur giefur oss / er sw / Ad vier fordunst Krugfrugheit ꝛ Hofmood/ þvi svo seiger hn hier. NÆr Þu VErdur BOdenn Af EJNhvorium Til BRwdkaups/ Þa Set Þig Ecke J Hid Ædsta Sæte / etc. Firer þessum Andstygdar Leste eigum vier jafnan ad taka oss Vara / þviad eitt Drambsamt Hiarta er Andstigd þirer DRottne/ seiger Salomon / Ordsk. B. 16. Þridia Giestabods Reglan er / Ad vier eigum ad vijkia wr Sæte þirer od⸗rum / sem meire Hattar er enn vær. Hier um hlioodar so Textenn. Helldur nær þu verdur bodenn / þa set þig i hinn ytsta Sess / so ad / nær ed sa kiemur er þier baud/ þa seige hann til þijn / Vinur / þoka þier upp betur/ Þa mun þier Virding veitast hia þijnum Sessunautum.

Gud

Gud er ei Gud Oskickunarenar/ helldur Fridarens/ seiger Postulen 1. Cor. 14. Og so sem þad/ ad Himentunglen a Festingar Himnenum hafa sin vissan Stad edur Platz/ Soolen er so sem eirn Kongur / sem hefur sitt Hasæte midt a millum anara Planetana/ Tungled so sem ein Drottning. Og so sem Postulen Paall ad Orde kiemst/ 1. Cor. 15. E. Anan Biartleika hefur Soolen/ en anan Tungled. Anan Biartleika hafa og Stiornurnar. Þuiad onnur Stiarnan yfervinnur adra i Biartaleika. So hefur Gud giort adskilianlegan Greinarmun a millu Mananna/ og vill ad hvør og eirn gange epter þvi sem han hefur hn tilkallad/ 1. Cor. 7. Og þeim sie Heidur veittur/ sem Heidur heirer/ Rom. 13. Og Salomon seiger i Ordsk. B. 25. Cap. Verk ei Skrautsamur/ hia Kongenum/ og gack ecke i Reit þeirra stooru/ þviad betra er þier ad sagt sie til þyn/ gack upp hingad/ helldur en þu verder nidradur þirer Hofdingiunum/ so ad þyn Augu hlioote þ ad sia.

Ad sijdustu i Niourlage þessa H. Gudspialls/ leggur Herran vor JEsus Christus Ordsokena til/ hvar þirer vier eigum ad stunda Lijtelætesins bestu Dygd/ so seigiande/ Þviad hvor sig sialfur upphefur/ han mun nidurlægiast/ og hvør sig lijtelæter/ hn skal upphafen verda.

Tvent er oss i þessu Ordu athugande/ Þad þirra vidvijkur Straffe þvi sem þeir hafa sier ad vænta sem Drambseme og Hofmood stunda. Pharao Kongur var so Hofmoodugur/ ad han dirfdest ad lata af sier heira þesse Ord/ Hvør er sa Drotten hvørs Raustu eg skule hlijda? Eige veit eg neitt af þeim Drottne/ og ei læt eg Jsrael fara/ Exod. 5. En hvønen gieck þ honum um sijder? Eg meina hn tæke sitt Straff ut i Hafenu rauda/ þa hn þirerfoorst þar med Hestum og Vøgnum/ z ollu sijnu Lide/ Exod. 14. Eins gieck þad til þirer Nabochodonosor Konge þa han sagde med sialfum sier / Eg vil fara yfer þau haau Skyen/ z lijkur verda þm allra hædsta. En Gud snere þvi svo/ad hn mætte fara til Helvijtis/ til Grafarenar sijdu/epter þvi sem þar stendur/ i Esaiæ Spaadooms B. 14. Mootlijka verdur og so lesed um þan stellta Haman i Esthers B. 7. Og soddan Dæme finast allmorg i heilagre Ritningu/ i hverium vier ættum oss ad speigla/hafande i Mine ꝥ a ma-

 giætu

giæku Reglu/ sem sa gamle Tobias þirer skriþade sÿnū Syne/ hvør ed so er latande/ Drambseme lattu alldrei Drottna / hvørke i þÿnu Hiarta nie i þÿnū Ordum/ þt hun er Vpphaþ allrar Gløtunar, Tob. V. 4.

Þad aňad sem vier hoþum hier ad athuga / eru þau rÿku Laun/ sem þr aller þa sem Audmÿktareňar z Lÿtelætesins Dygd stunda. Hier uṁ hlioodar so Textenn. Eñ hvør sig Lÿtelæter/ hañ skal Vpphafeñ verda. Hier uppa hoþum vier mørg Dæme i heilagre Ritningu / bæde a Joseph i Egyptalande/ Ruth/ David/ Daniel z ødrum fleirum. Þar þirer ( miñ Brooder og Syster ) vilier þu komast til nockurs Goods hier i þessum Heime/þa halldtu þier þast vid Lÿtelæted / epter þvi sem Postuleñ Petur rædleggur þier / 1. Pistle 5. Cap. So mun Gud a sÿdasta Deige giøra þig stooraṅ og mikels Meteñ / Ja / uppheþia þig til eilÿfrar Dÿrdar og Gooma. Hvad ad ødlast / oss veite Gud Fader aþ siňe Naad / Hvørium med Syne og heiløgum Anda / sie Loþ / Dÿrd / Vegsemd og Æra / nu hiedaṅ i þra og ad Eilÿþu / Amen/ Amen.

# A Michaelis Messu.

## Evangelium / Matth. 18. Cap.

Þaň Tÿma. Geingu Læresveinarner til JEsū/z sogdu. Hvør er mestur i Himnarÿke? JEsus kallade eitt Barn til sÿn/ og sette þad midt i millum þeirra z sagde: Saňlega seige eg Idur/ Nema þier umsnweft z giøreft soo sm̄ smaa Børn/ munud þier ecke iňganga i Rÿke Himnaňa. Hvør sialþur sig læckar so sem Vngmeňe þetta / sa er mestur i Rÿke Himnaňa. Og hvør sem medtekur eitt þvilÿkt Vngmeňe i mÿnu Naþne/sa medtekur mig. Eñ hvør haň hneixlar eitt aþ þessum Veſælingum sem a mig trwa/ þarfara være hønum ad Mylnusteirn heingdest uṁ haňs Hals / og være i Siaþardiwp sokkur. Vei sie Heimenum þirer Hneixlaner/ þar hlioota þo ad koma Hneixlaner. Eñ Vei þm̄ Maňe / þirer hvørn ad Hneixlaneñ kiemur. Eñ eþ þÿn Hønd edur þiñ

Footur hneixlar þig/ sniid hañ aþ og snara honum fra þier. Betra er þier iñ ad ganga til Lijþsens Halltur og Handarvane / eñ þad þu haþer tvær Hendur/ og tvo Fætur/ og verder i eilijþañ Elld kastadur. Og eþ Auga þitt hneixlar þig / þa slijt þad wt z snara þvi þra þier. Betra er þier eineigdum iñ ad ganga til Lijþsens / eñ þad þu haþer tvo Augu/ og verder i helvijtiskañ Elld kastadur. Siaed til ad þier þorsmaaed ecke eirn aþ þessū Vesælingum. Þviad eg seige Idur/ ad þeirra Einglar a Himnum / siaa jaþnañ mijns Fodurs Auglit sem er a Himnum.

# Exordium.

I Loþkvæde Salomonis/ 3. Cap. lesum vier/ Ad krijngum Sæng Salomonis haþe staded 60 Sterker Meñ / af þeim hraustustu i Jsrael/ og þeir hafe aller haþt Sverd/ verande reidubwner/ so sem til Bardaga/ Og þeirra Sverd hiengu vid þeirra Sijdu/ sökū Nætur Ottans. Þetta heþur eina andlega Þijding (mijner Elskañleger) Sierhvør trwud Saala / maa med Riettu kallast ein andleg Hvijla edur Sæng þess Himnesta Salomonis/ vors DRottens JEsu Christi / þvi hañ bijr i vorum Hiørtum þirer Trwna / so sem Postuleñ seiger / til Eph. 3. Eñ þirer þa Vflugu z Sterku sm̄ standa i krijngū þssa Sængena / meiga vel skiliast Guds heilager Einglar / þvi þeir sylkia sier i krijngū þa sem ottast DRotteñ/ Psalm. 34. Og vernda þa a moote Yþervallde Mirkrañā/Col. 1. So þeir meiga soþa Vggalaust. Og hier þirer kallast Einglarner øflugar Kiempur / aþ Spaamañenum David/ Psalm. 103. Og med þvi vier þiggium Oteliañlega marga Velgiørninga af þeim goodu H. Einglum / Aar epter Aar / þa haþa þeir goodu Christneñar Formeñ so tilskickad / ad þesse Einglaña Haatijd skylde halldeñ verda i Soþnudenum Heilog Aarlega / So vier heþdum Ordsek til ad þacka Gude almattugum af Hiarta / hver ecke ad eins sialfur ber Vmhyggiu þirer oss/ helldur heþur hañ og so þar ad auke / beþalad siñ H Einglum ad þeir skule vernda oss a øllū vorū Vegum og Stigū / alla vora Lijþdaga/ og einkañlega a vorte Andlaats Tijd/ þa vier eigum hier

 vid ad

vid ad skilia. Vær vilium aun leingra Jngangs / taka oss þetta Heilaga og Naatsdlega Evangelium þirer Hendur / og þad yfirfara i epterþilgiande tveimur Smærgreinum. J þeirre þirre vilium vier athuga hvørsu þad / ad Gud DRottenn af sine Owtseigianlegre Goodgirnd og Miskun / sender syna blessudu H. Eingla wt / oss til Verndar og Forsvars / a moote ollum vorum Ovinum / einkanlega a moote Dieflenum og hans Aarum. Enn i þvi sydara Greinarkornenu / vilium vier þ læra / hvornenn vier eigum ad hegda oss / so vier stiggium ecke þa heiløgu Eingla þra oss / helldur ad þeir meige ætijd hia oss nalæger vera.

Nu / Sa Eingell þess mikla Raads / vor DRottenn JEsus Christus / sende oss syna Naad / so vier mættum nockud gott hier wt aþ læra / og oss til Nytsemdar færa / Amen.

# Firre Greinenn.

AD vier mættum þessa Trwarennar Høfudgrein umm Einglana / þess betur athuga / þa er oss þirst vel adgiætande / hver ad sie Art / Naattura og Eigenlegleike þeirra heiløgu Guds Eingla.

Firsst skulum vier vita / ad þeir eru skapader Andar / þvi þirst þeir sim jaþnann Auglit lifanda Guds / þa þilger þad epter / ad þeir sieu aungver Guder / helldur skapadar Skiepnur / Enn þo samt eru Einglarner ecke soddann Skiepnur / sem vier Mennerner / helldur eru þeir Andleger / hvers vegna þeir verda eirnenn kallader Andar / Heb. 1. Nu heþur Ande hvorke Holld nie Bein / Luc. 24. Enn nær sem hellst þeir eiga ad wtrietta nockud hia oss Mønnunum / þa taka þeir uppa sig Mannlega Asiønd.

Þetta skal vera oss til Glede og Huggunar / ad med þvi / ad heilager Einglar eru Andar / þa er eingenn Stadur so þastur / eingenn so þiærlægur / ad þeir kunne ecke til ad komast / og vernda þa Froomu og Gudhræddu / hvar sem þeir eru stadder / so sem vier meigum liooslega sia / a Dæme Postulans Peturs / þa hann laa i Mirkvastoþunne / bundenn med Fiøtrum edur tveimur Jarnhleckium / þar ad auk voru Dyrnar sterklega aptur læstar / enn samt sem adur / kom Eingell Drottens inn þangad til hans / og leidde hann wt þadann / Act. 12.

J añañ mæta er oss þad athugande / uñ þa heilogu Eingla Guds / ad þeir eru sæler Andar / þui so stendur hier i Niðurlage Gudspiallsins / AD þEir Siae Jafnañ Auglit GUds Fødurs. Hvar af audræd, ed er / ad þeir alla reidu eru ordner Hluttakarar þrar eilijfu Sælu / eft, er hvørre vier bijdum / vid hvøria Sælu ꝛ Dijrd / eckert kañ ad jafnast.

J þridia lage eru þeir heilogu Guds Einglar soddañ Andar / sm stad, faster eru vordner i þui enu Gooda / so Omøgulegt er / ad þeir kuñe hier efter fra Gude ad falla / hvørs vegna þeir verda kallader Utvallder Andar / 1. Tim. 5. Nu ef vier vilium komast til þvilijkrar Dijrdar og Vegsemdar sijdar meir / og meiga sia ad sia Gud / Auglite til Aug, litis / so verdum vier ad hreinsa oss af øllum Saurugleika Holldsins ꝛ Andans / þviad sæler eru Hreinhiartader / þui þeir munu Gud sia / Matth. 5. J fioorda mæta eru Einglarner begæfader med herleg, um Qvalitetum og Eigeñlegleikum / so sem er / Firsi med mikellre Vit, sku / hvøria sialfur Gud iñplantade hia þeim strax i Upphafe Skøpun, areñar / eñ samt skulu vier vita / ad Einglaña Vitska er ecke Infinita / edur Oendañleg / eins og Vitska sialfs Guds / þui ecke vita Einglarner allt / einkañlega þ iñra / sem i Hiartanu er huled ꝛ duled / þad er aung, re skapadre Skiepnu giefed ad vita. Motteñ Gud er sa eirn / sem Rañsakar Hiørtun og Nijrun / Þar firer fara Papistar villt / þa þeir tilbidia Einglana / so sem sia ma af þeirra Litaniu sem þeir sijngia i Sijn, um Kyrkium / Audi nos Michael Angelorum sume / etc. etc. Þad er / O Michael Hofud Eingell / heir þu vora Bæn. Þetta og añad þvilijkt / er ein sviuirdeleg Afgudadijrdkun / þui Gud vill ecke giefa ød, rum sijna Dijrd / Einglarner girnast ꝛ ecke helldur slijka Æru / ad læta sier tilleggia / so sm liooft Dæme er ad sia a þm Eingle sem byrtest Johañi / sm lesa ma / Opeñb. B. 22. Cap. Þui þa Johañes villde falla fram a sijna Asioonu til Jardar og tilbidia hañ / þa sagde Eingelleñ til hñs / sia þu til þu gierer þad ecke / þui eg er þiñ Medþienare / vilier þu bid, ia / þa tilbid þu Gud. Þad fioorda sem oss er athugande / uñ þa H. Guds Eingla / er þad / ad þeir eru sterkar og øflugar Kiempur / so sem David nefner þa / Psalm. 103. Þeir kallast ꝛ so Einglar Kraptarens /

 2. Tess.

2. Tess. 1. Item / Throonar / Hoffdingiadoomar og Valldstiettier.
So lesum vier og so i heilagre Ritningu / hversu þad/ ad eirn Eingell i Hel sloo a eirnre Noottu / alla Frumburde i Egyptalande / Exo. 13. J sama mata i Hel sloo eirn Eingell i Herbudum Senacheribs/hundrad attatju og fimm Þusunder Manna a eirnre Noottu/ so sem lesa ma/ 2. Book. Kong. 19. Cap. Og so vijdar i Bibliunne verdur slijks gieted. Sie nu þar firer Dioffullenn og hans Brædur/ þad er sw Ogudlega Verolld / svo sterk og megtug sem hun vera kann / þa huggum oss samt þar vid/ ad Einglar Guds eru Þusundsinnum sterkare til ad vernda oss og vardveita. Framveigis skulum vier vita / ad Guds Einglar eru skijrlijfer Andar/ og þvi kallar sialffur Herrann Christur þa heilaga Eingla/ Luc. 9. Vilier þu nu Christenn Madur / ad Guds Einglar skule vera hier nalæger/þa mundu þig ad þu siert skijrlijfur/ og eptersilger Helguneñe/ an hvørrar eingenn kann Gud ad sia/ Hebr. 12. Cap.

Nu er oss hiet enn framar vel athugande/ hvørt ad sie Embætte þeirra heiløgu Guds Eingla: Enn vier skulum vita/ ad þad er tveffalldt. First uppa Guds Sijdu/ og so þar næst uppa vora Sijdu Mannanna. Uppa GUds Sijdu/þa er þad first þeirra Embætte/ ad lofa og prijsa Gud Oaflatannlega. Þessa Loffgiørd biriudu þeir strax i Upphafe Skøpunarennar/þa Gud skapade Himen og Jørd/og allar Skiepnur. Og fre hinne somu Loffgiørd hallda þeir enn nu a Lofft/þar þeir standa framme firer Stoole GUds og Lambsins / seigiande og syngiande / Heilagur er GUd Fader/ Heilagur GUds Sonur/ Heilagur GUd Helgur Ande. Ja Heilagur er hann i sinne Guddoomlegre Veru/ Heilagur i sijnum Guddoomlegum Vilia/ og Heilagur i sijnum Verkum / Esa. 6.

Latum oss z eirnenn taka under mz þeim heilogu Aundum/z Loff syngia vorum Gude/þvi þ er eirn agiæt: Hlutur seiger David/ad þacka Drottne/ z syngia þijnu Nafne Loff/ þu hinn allra Hædste / ad Morgne þijna Nad/z ad Kvollde þinn Sannleika ad kunngiera/ Psalm. 92. Enn þesse vor Loffgiørd a ecke alleinasta ad skie med Munnenum/ helldur eiga Munnur z Tunga/Sinne z Sal/ad filgiast ad/ og samhlioода æ vid Guds legt Mal / þvi so seiger Ande Guds / firer Munn Spamannsins Amos/

mos / 5. Cap. Tak fra mier þitt Psalma Bulldur / þvi eg giet ecke heirt þitt Psalltara-Spil. Hvar firer? Þvi þad kom ecke af Hiartanu.

J aňaň maata er þad Embættis skylda Einglaňa / ad standa frame firer Stoole lifanda Guds / verande æthd reidubwner hönum ad þiooňa og reka haňs Erende / Psalm. 103. Nu so sem þad ad Einglarner eru fafnaň ferduger til ad giöra Vilia Mottins Guds vors / So eigum vier og ecke helldur ad vera treger og stamer til þess ad giöra vora Embættis Skilldu. J þridia maata er þad Embætte Eingla ňa / ad vera oss Moňunum til gooda / og vernda oss a moote margfalldre A. stryda og Vmsatrū Diofulsins og vondra Maňa / hvar oss liggur stærsta Magt a / einkaňlega nu a þessum syduftu Tijmum / þar Andskoteň med synum Þienurum um kryng geingur / so sem eitt greniande Leon / og leitar ad þeim sem hū z þeir meige uppsvelgia. Þar firer liggur oss stoor Magt þar a (seige eg eň) ad vier bidium Gud af Hiarta med Læresveinunum HErrans Christi / sem geingu til Emaus / Vertu hia oss Herra / þviad Kvöllda tekur og a Dageň lydur / Luc. 24. Capitula. Eň nær Gud er med oss / hvør kaň þa ad vera a moote oss? Þa megnar og orkar Diöfulleň og hȳs Aarar / ei helldur hȳs Limer og Þienarar / neitt a moote oss / epter þvi sem vier syngium i vorum Kyrkiu Psalme. Þo være af Diöflum Verölld full / og vilde oss svelgia alla / vel tækest þo vor Ffneň öll / eckert kaň oss þvi hrella / etc. Hier um mætte margt fleira framsetiast / þvi hvad mikeň Drooa stiptar og framkvæmer Diöfulleň i öllum Stiettum? Firstt i þeirre Andlegu Stietteňe. Mun haň ecke opt eg Dsialldaň nidur sa þar Jllgrese syňu i bland Hveitesins / og hindra þa sem eiga ad kieňa og predika Guds Ord? Hvad opt burttekur haň Orded wr Hiertum Tilheirendaňa / so þeir skule ecke trwa og verda hialpleger? Luc. 8. Hvad skulum vier seigia um þa Veralldlegu Stietteňa? O Herra Gud / Hvilykum Drooa / Striide og Bloods Vthellingu / kiemur hȳ þar af stad? Hvad ecke er ad undra / þvi haň er eirn Maňdrapare og Mordinge i fra Vpphafe. Ecke sier haň hellbur i Fride Hwsstioornar-Stiettena / þvi hvad opt kiemur haň upp Dsampicke / Agge og Deilū / a mille fra Persoona sem þar iňe lifa?

Ec þad

þad er nu Deigenum liooſara / og þarꝼ ecke margt um ad tala. Eñ hverneñ ſem þeſſu ollu er vared ꝛ hattad/ þa verum þo ſamt hughrauſter og Oeꝼader / þvi vier eigum eirn goodañ og giæſkurykañ Fødur a Himnum / ſa oſſ kañ ad hialpa i allskins Raunum og Mootlætingum / Sia / hñ ſem vardveiter Iſrael/ ſeꝼur ecke/ og ecke ſyꝼiar hñ/ ſeiger hiñ H. David/ Pſalm. 121. Og hvønær helſt ſem Dieꝼulleñ vill vekia nockurn Oſtooa/ þa er Gude audvelldt þad ad hindra/ þvi Dioꝼulleñ er ſo ſem añar Hleckia-Hundur / og hefur ecke ſo mikeñ Matt / ad hañ aꝼ ſialꝼs ſijns eigeñ Ramleik/ kuñe ad giøra eina Lws/Exo. 8. Auk helldur hñ mune kuña / ad ſnerta eitt miñſta Haar a voru Høꝼde/ an Guds Vilia/Matth. 10. Þar þiret ſijngur ſo Chriſteleg Kyrkia. Eingium ſijnum hñ ſette Bod/ad ſia til þijn og leida/a Vegum þijnum þier veita Stod/ ꝛ venda øllu til Greida / þeir bera þig hægt a Høndum ſijn/ ſvo hvørge nær þu Fæte þijn/ a miñſta Steine ad meida. I einu Orde ad ſeigia/ þeir H. Guds Einglar eru vorer Filgiarar/a øllū vorum Vegum/eins ꝛ Raphael Eingell þilgde þm unga Tobiæ/Tob. B. 12. C. Þeir vaka yꝼer oſſ/ſo Dioꝼulleñ giete ecke med ſijnum Þienurum giert oſſ nockurt Mein edur Miſka / Hvørs vegna þeir verda kallader Sancti Vigiles/ þ er/Heilager Vaktarar/ Dan. 4. Nær vier Mañe ſkiurnar ſoꝼum/ þa vitum vier ecke neitt hvad um oſſ lijdur / eñ þa eru þeir H. Einglar vakande yꝼer øllū Guds Børnum/Ia/ þeir ſetia ſijna Skialldborg og Vijge i kringum oſſ / ſo ſem Spamadureñ Zacharias ſeiger / Ieg vil ſetia eirn Elldlegañ Mwr i kringum þa/ Cap. 2.

Þeir Heiløgu Guds Einglar / eru og eirneñ Amiñingar Andar vorer /ſem vara oſſ vid adſkiliañlegre Olucku og Fare / ſem oſſ kañ ad henda/ eins og þeir giørdu vid Eliam Spamañ / þa hañ ſvaꝼ under Eineberia Trienu/ 1. Reg. 19. Cap. Og Ioſeph Fooſtur-Fødur Herrañs Chriſti/ Matth. 2. Þeir H. Guds Einglar eru ecke ad eins hia oſſ/a medañ vier liꝼum hier / helldur og ſo i ſialꝼum Daudanum og Andlats Stundeñe vorre / og bera Saaler vorar i Abrahams Skaut / eins og Saal Lazari/ Luc. 16. Ia/ i einu Orde ad ſeigia / þad ad vier kuñum heiler og heilbrigder a hvørium Morgne upp ad ſtanda / og þad vier

a Náturnar

a Næturnar kuñum roosamlega ad sofa/þad eigū vier allt eilyfū Gude ad þacka/sem lætur sijna Blessudu Eingla giæta vor/ bæde i Voku og Svefne. Hier mætte eirn og sierhvør hroopa upp ꝫ seigia/A Drott-eñ/ hvad er Mañeskiañ þess / ad þu miñest heñar/og Mañsins Barn ad þu vitiar þess ? Psalm. 8. Og skal þetta so sagt um̃ þad þirra Greinarkorned/ med þæstu og einþølldustu Ordum.

# Auñur Greineñ.

EPterþilger þad añad i stuttu Mæle/ sem er þar um̃/ hvørneñ vier eigum ad haga oss og hegda/ so vier stiggium ecke H. Guds Eingla þra oss. Pad kuñū vier ad læra/bæde aþ Upphaþe/sem ꝫ aþ Nidurlage þessa H. Gudspialls / þvi so seiger HErrañ vor JEsus Christus hier. Nema so sie/ ad þier um̃snweſt og verded so sem Smæ-Børn / þa munud þier ecke iñganga i Himnariike. Item / siæed til / ad þier þorsmæed ecke eirn af þessum Velsælingum. So er þad þa tveñt sierdeilis sem Herrañ vor JEsus Christus gieþur oss hier til Lærdooms og Epterteektar. Pad þirra er/ hvørneñ þ/ ad vier eigum ad haþa Smæbørneñ þirer vora Skoolameistara.

Firſt eigum vier sem elldre erum þad aþ Børnunum ad læra/ad vera Udmiwker og Lytelæter/þvi þad siaum vier a þeim/ad þau eru hvør-ke stollt nie hofmoodug/ jaþnvel þo þau sieu af miklum og ypparlegū Forelldrum gieteñ og þædd/ so eigū vier eirneñ ad varast alla Drambse-me/Hofmood og Siergiæde/Pvi so stendur skriþad i Jobs B. 41. C. Ad Dioþulleñ sie Kongur yþer øllum Dramblætum. Og hvad hætt er hia Møñunum/ þad er Svyvirdelegt þirer Gude/ Luc. 16. Cap.

J añañ mæta/ so sem þad/ ad i hia Bernunum þiñst ecke giarnañ Underþerle/Svik edur Pretter/ eins og hia sumumhvørium þeim/ sem Elldre eiga ad heita/so ætte ꝫ so hvør Madur (sem vill læta sig af hei-løgum Anda stioornadañ vera) ad varast Flærd og Underhyggiu / og grafast ecke epter Embætte sijns Brooдurs ꝫ Naunga heimuglega edur opeñberlega/ so sem nu tekur til þo ad verda mieg almeñelegt a þessum Tijmum/ ad eirn og añar vill grijpa epter añars Bestillingu/ og so sem



añar

eñar sollteñ Nraþn hripsa þad Sticke Brauds þra Muñenum a þeim sem Gud hefur einum til Upphelldis gieþed.

I þridialage er þad Art z Vissa Barnaña/ ad bera ecke stoora Umhyggiu þirer þvi sem epter kañ ad koma. Þau leggia sig nidur a Kvölldeñ til sijns Svefns / og hugsa ecke neitt um̄ þad / hvad ad Morgne kañ ad skie / helldur treista sijnum Forelldrum / ad þeir mune þorsorga sig/ og læta sig ei bresta þad þeim er naudsynlegt til Lijþsins Næringar og Upphelldis. O hvad sæler værum vier þa / ef vier giørdum slijkt hid sama / og vørpudum allre vorre Ahyggiu uppa vorn Himneska Fødur? Sañarlega munde hañ ecke læta oss þa neitt vanta / þad oss være þarþsamlegt og naudsynlegt til vorrar Lijþs Næringar.

I þioorda mata er þad eitt Edle Barnakindaña/ ad þau eru sialldañ Idiulaus / so þau sieu ecke allt=staþnt eitthvad ad þitla/ og giora sier til Skiemtunar. So ætte hver og eirn ad vera jdeñ og ástundunarsamur i sijnu Kalle og Embætte / og taka jduglega Vara a þvi sem hønum ber ad giøra/ epter þvi sem Postuleñ æmiñer oss/ i Pistlenum til Rom. 12. seigiande/ Haþe nockur Embætte / þa giæte hañ þess Embættis.

I þimta mata er þad eitt Loþsverdt i Fare Barnaña/ Ad þegar nockur bidur þau med Goodu ad gieþa sier eitt edur añad / sem þau haþa medþerdis/þa giøra þau þad strax/ og þeinkia ecke neitt þar um̄ / hvørt hañ sem þau bidur /er þess verdugur/ad þau gieþe hønum þad/ edur ecke. So er þad og christelegt og tilheirelegt / ad vier svo sem Endurþædd Guds Børn komum þeim Voludu/ Fatæku og Aumu til Hialpar/ og giørum þeim til Gooda i Guds Nafne / epter Eþnum/ so sem Ande Guds bijdur oss og skipar / Matth. 6. Cap. Sidaum til (Myner Eiskañleger) i slijkañ og añañ margþalldañ mata / meiga Smaa=børneñ vera vorer Skoolameistarar og Hnøspreslar / og þetta er nu þad hid same / sem Herrañ Christur miñest hier a / og seiger i þessu Gudspialle. Ad nema so sie / ad þier umsinnæst / og verded so sem Smæborn/ þa kuñed þier ecke iñ ad ganga i Guds Rijke.

Ad sijdustu eigum vier ad þordast ad gieþa nockrum ill Epterdæme aþ oss / hvørt helldur þad er i Lærdoomenum edur Liþnadenum. Prest-

arner og Kieñemeñerner / eiga ecke ad vera eins og adrer Vindhanar/eda vera i imsum Hoopum / og hallda stundum med Papistum / stundum Calvinistum/ stundum med þeim og þeim Villumeñum og Kieckurum/ helldur blijfa fast vid þañ riecta Lutheraniska Lærdoom. Nu / vier viliumm hier vid læra standa / i þetta Siñ. Þeim eina og saña eilijfa og almættuga Gude Fødur / Syne og heilegum Anda / sie Lof og Dyrd/ Heidur og Þackargiørd / nu hiedañ i fra og ad Eilijfu / Amen / Amen.

# Atianda Suñudag epter Trinitatis.

Evangelium / Matth. 22. Cap.

Y Þañ Tijma. Þa Pharisearner heirdu þad/ ad hañ hafde nidurþaggad þa Saduceos/ samañsafnuduſt þeir i eitt. Og eirn Løgvitringur af þeim / spurde hañ ad / Freistade hañs og sagde / Meistare/ Hvørt er hid hædsta Bodord i Løgmaalenu? Eñ JEsus sagde til hañs / þad / Ad þu skallt elska Drottiñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu / og af allre Aundu þiñe / og af øllu Hugskote þijnu / þetta er hid first og stærsta Bodord. Eñ hitt añad er þessu lijkt. Þad / Ad elska skalltu Naunga þiñ so sem sialfañ þig. J þessum tveimur Bodordum / er iñebunded allt Løgmaal og Spámeñerner. Eñ þa Phariseaner voru so til samañs komner / spurde JEsus þa ad / og sagde: Hvad virdest Jdur um Christ / hvørs Son hañ sie? Þeir søgdu hønum Davids. Hañ sagde til þeirra. Hvørneñ kallar David hañ þa i Anda eirn Herra? Þar hañ seiger. DRottiñ sagde mijnum DRottne / Sit þu mier til hægre Handar / þangad til ad eg legg Ovine þijna til Skarar Foota þiña. Nu ef David kallar hañ Herra / hvørneñ er hañ þa hañs Sonur? Og eingeñ gat svarad hønum einu Orde. Og eige dyrfdest nockur upp fra þeim Deige hañ framar ad spyria.

## Exordium.

 Vier

HJer lesum (Elskuleg Guds Børn) i Exodi Bookar 25. Cap. Ad Gud DRottenn baud Moysi ad giøra eirn Nadarstool / af skijra Gulle / Og þar yfer tvo Cherubim / hverier skylu Vænge skulu utbreida ofann yfer / so ad þeir hylie Nadarstoolenn med sijnum Vængium / og hvørs þeirra Andlit skal standa hvørt a moote ødru / & þra Andlit skulu horfa a Nadarstoolenn. Nu / so sem þ / þær Mosaiske Ceremoniur / voru allar so sem ein Firermindan uppa þ Epterkomanda / so er og eirnenn þesse. Þviad Nadarstoollenn merker Christum / so sem Postulenn Paall vottar / Rom. 3. Og so sem þ / ad Gud talade vid Moysen og Israels Børn af Nadarstoolnum / mille þeirra tveggia Cherubim / So hefur Gud Drottenn firer þenann rietta Nadarstoolenn Christum / talad vid oss / og openberad allt sitt Leindar Rad um vora Saluhialp / epter þvi sem þar stendur / Joh. 1. Gud hefur eingenn nockurn Tijma sied / Sonurenn sem er i Skaute Fodursins / hefur openberad oss þad. Þar næst stendur skrifad / ad yfer Nadarstoolnum hafe vered tveir Cherubim sem hñ huldu. Hvar firer ad merkia a þau tvø Testamenta / sem er þ Nyja og Gamla / i hvøriu Christur er hulenn / þt allt hvad oss er naudsynlegt ad vita oss til Saluhialpar / þ hliootum vær ad læra af þvi gamla og nyja Testamente. Rannsaked Ritningarna / seiger Herrann Christur / hia Joh. 5. Þvi þier meined Jdur i þeñe ad hafa eilijft Lijf / Og hun er sw / hvør af mier ber Vitne.

J þridia lage so sem þ / ad þesser tveir Cherubim horfdu hvør a moote ødru / So lijtur & þ Gamla Testamented til þess Nyja / & þ Nyja til þess Gamla / so ad hvad helst sem i þvi gamla Testamentenu er vandskiled / þ er audskilnara i þvi Nyja / & þ sm i þvi Nyja Testamentenu er openberad / þ hefur adur firre i þvi gamla Testamentenu vered firersagt.

J fioorda mata / so sm þ / ad þesser tveir Cherubim / mattu ecke i burt takast af Sattmals Ørkeñe / so leinge sm Nadarstoollenn var þar uppa. Eins hlioota & so þesse tvø Testamenta ad adfilgiast / kiennast & predikast i Christelegre Kyrkiu / so leinge sem vier vilium behallda Herranum Christo / þeim rietta Nadarstoolnum hia oss. Og med þvi ad Herrann Christur var sa sañe Læremeistarenn / sem af Gude var komenn / ad kieña oss

Guds

Guds Søku i Sañleika/ so sem þar stendur hia Matth. 22. Cap. So hefur hañ og viliad med sijnu Epterdæme/giefa øllum Ordsins Þienurum wt i fra/ eirn Leidarvijser/hvørsu þad/ þeir skyldu kieña vel ꝛ trwlega/ bæde þad gamla og nya Testamented/ þad er Logmaled ꝛ Evangelium/ꝛ þess vegna framsetur hañ firer oss i þessu heilaga Gudspialle.

Firsf/ hvørneñ þad vier eigum ad elska Gud og vorn Naunga wt af Løgmalenu. Þar næst framsetur hañ Lærdoom um sijna Persoonu og Embætte wt af Evangelio. Og um þetta hvørtt veggia vilium vier stuttlega høndla ad þessu siñe. Gud giefe ad þesse vor Idia/ mætte verda hañs heilagasta Nafne til Lofs/ eñ oss til Sælargagns/ i JEsu Nafne / Amen.

# Vm þad Firra.

J Vpphafe þessa Heilaga Evangelij stendur so. Þa Pharisearner heirdu þad/ ad hañ hafde nidurþaggad þa Saduceos/ samannsøfnudust þeir i Eitt/ og eirn Logvitringur af þeim/ spurde hañ ad/ Freistade hañs og sagde / Meistare / hvørt er hid hædsta Bodord i LOGmalenu? Ordsok og Efne til þessa Spursmals / sem Pharisearner framsettu hier/ firer vorn Endurlausnara JEsum Christum/ var þad/ad hñ hafde nijlega nidurþaggad þa Saduceos. Eñ þesser Saducei voru þeirrar Meiningar / ad þar munde eingeñ Vpprisa Framlideña til vera. Þessare siñe Vantrw til Styrkingar/ framsetia þeir firer Herrañ Christum eina Spurning/ so seigiande. Moyses hefur sagt/ þa nockur andadest / og hefde ei Børn epter / þa skylde hañs Brooder eiga hañs Eygeñkonu/ og uppvekia sijnum Broodur Sæde. Eñ hia oss voru sio Brædur / Hiñ firste fastnade sier Konu/ og hñ andadest/og af þvi hañ hafde eckert Sæd/liet hñ Broodur sijnum epter sijna Eygeñkonu/ lijka sa añar / og hiñ þridie / allt til hiñs siøunda. Eñ sijdast epter alla / þa andadest og Konañ. Hvørs þeirra sio / verdur hun Eygeñkona i Vpprisuñe/ þvi aller þeir hafa hana haft? Eñ JEsus svaradr ꝛ sagde til þeirra / Þier villest / og vited ecke Ritningarnar nie helldur GVds Kraft / þvi ad i Vpprisuñe munu þeir hvørke Kvongast nie sig Kvonga sama

ga læra / helldur eru þeir sem Einglar Guds a Himne. Hafed þier ei leſed af Vppriſu Framlidena / hvad af Gude er Jdur ſagt / er hn ſeiger? Eg er Gud Abrahams / og Gud Jſaacs / og Gud Jacobs / En Gud er ecke Gud Daudra / helldur Lifande Manna. Og er Foolked heirde þetta / undradeſt þad hns Kiening / og þeir þegdu og geingu i burt. Þegar nu þetta Samtal Herrans Chriſti og Saduceana kom firer Phariſeos / þa þocknadeſt þeim i Þele nidre vel / ad Chriſtur hafde nidur þaggad þeſſa rangſnuna Villumen / en ſamt ſem adur / bio þeim þad i Giede / ad Chriſtur ſkylde hafa þad giort / þvi þeir voru hrædder / ad hn munde fa þeſſ meire Vnuſtu af Foolkenu / ſem hn liete fleire ſodd-an Sticke epter ſig liggia. Þar firer koma þeir til ſamans z ályktа / ad eirn af þeim ſkule framſetia eina Diſputatiu firer Herran Chriſtum / allra þeirra vegna. En hvor munde þa Perſoonan vera / ſem þeir út-voldu til ad Diſputera a moote vorum Endurlauſnara? Ecke tooku þeir þann Lakaſta til þeſſ / helldur ſeiger Gudſpiallamadurenn / ad þad hafe vered eirn Løgvitringur / ſem i Løgmalenu var vel fordarenn / og þar til eirn mikell Mælſku-Madur. Hvørt var þa Diſputatiu Efned? Gud-ſpiallamadurenn vottar / ad þeſſe Løgvitringur hafe freiſtad HErrans vors med þeſſare Spurningu og ſagt / MEJſtare / HVørt Er HJ-ædſta Bodord i Løgmalenu?

Hier af høfum vier oſſ þ til Lærdooms ad taka / Hvørſu þ / Dioffull-enn hefur vered alla Tijma jden og aſtundunarſamur til þeſſ / ad offækia Chriſtum og hans Lærdoom. Phariſearner høfdu firer ſtuttu ſett fram firer hn eina vandaſama Spurning þar um / hvort leifelegt være ad giefa Keyſaranum Skatt edur eige / Og ſem Herran Chriſtur hafde þeim ænægianlega þar til ſvarad / Sia / þa fram koma ſtrax Saducei / og framſetia adra Spurning um Vppriſu Framlidena. Og i þridia Sinn / þa hann hafde og ſo þeſſa nidur þaggad / þa kiemur Dioffullenn uppa Nijtt Phariſeunum til ad freiſta hans med þeirre Spurningu / Hvert ed være þad Ædſta Bodord i Løgmalenu / ſvo HErran Lijfſins hefur valla hafft Frid / firer þeſſum Blygdunarlauſu Skalkum / ſo þeir hafe ecke ad hønum høggved / hvar ſem þeir hittu edur ſau hann.

Lærum

Lærum oss þar ßirer ecke þikia þad nein Vndur/ þo eñ nu a þessū Døg-um meige ßiñast Iller og Oguðleger Meñ/ sem ecke spara ad mæcka a alla Vega Guðhrædda ꝛ Trwlinda Nerrañs Christi Þienara/ og setia fram ßirer þa klooklegat Spurningar/ so þeir giete um̄ Koll kastad þm̄ Heilsusamlega og saña Lærdoome/ Eñ hier ßirer skulu þeir þo ecke siñe Skylldu gleima/ helldur vera þess Iðnare og mastundunarsamare/ i þvi ad framßilgia siinu Kalle og Embætte.

Nu vilium vier framveigis ßa ad heira/ hvoriu Nerrañ vor JEsus Christur svarar þessum Løgspeking e/ uppa siina Spurning. Ecke þeig-er hñ blessadur edur hugar sig um̄/ hvad hñ skule hier til svara/ þviad i hönū eru hulder aller Fiesioder Vitskuñar ꝛ Vidurkieñingareñar/ Col. 2. Cap. Nelldur tekur hñ so til Orda ꝛ seiger. ÞV Skallt Elska DRottеñ Guð þiñ aß øllu Niarta þiinu/ ꝛ aß allre Aund þiñe/og aß ollu Hugskote þiinu. Þetta er hid ßirsta og stærsta Boðord/ Eñ hitt añad er þssu liikt/ Þad/ad elska skalt Naunga þiñ so s͂ sialfañ þig.

Tveñt er oss hier athugande. Þad ßirra ahrærer Elsku þa sem vier eigum ad haßa til lifanda Guds/ og hvørneñ heñe a ad vera vared og hattad/ sem er/ ad vier eigum ad elska hañ / Firſt aß øllu Niarta/ Þad er/ vier eigum ad hafa hañ kiærañ/ og elska hañ yßer alla Hlute fram/ so þar sie eingeñ su Skiepna til a Nimne nie Iørdu/ ecke Kviña/ ecke Børn/ ecke Liiß/ Æra/ Gootz eda Gardar/ sem oss sie kiærara enn Guð Fader med siinum elskulega Syne JEsu Christo/ og þeim verduga gooda heilaga Anda/ þvi so seiger hañ sialfur/ hia Matth. 10. Cap. Hvør hañ elskar Fødur og Moodur meir eñ mig/ sa er miin ecke verd-ugur/ Og so sem þad/ ad su rietta Mooðureñ kuñe þad ecke ad liida/ad heñar Barne være i sundurskipt ßirer heñar Augū / 1. Kong. B. 3. C. So vill ꝛ so Guð ad vier skū elska sig/ ecke ad halfu leite/ helldꝛ ad ellu.

Þar næst eigum vier ad elska hñ aß allre Aund vorre/ þad er/ so leinge sem Saaleñ (sem hañ heßur gießed oss) er i Liikamanum. Hier er eckert Aar/ eingeñ Maanudur/ eingeñ Dagur edur Stund undañteke-eñ/ helldur eiga aller vorer Liißdagar og Stunder/ þar uppa bygd-ar ad vera/ ad vier elskum hañ Sañna Eilliißa og Odaudlega

 Guð/

Sampioonar/ Openb. Book. 22. Cap. Pesser vorer Sampioonar/ gieþa vel Saum og Giætur ad øllum vorum Ordum og Gierdum / og nær hellst sem vier vykium aþ þm rietta Veige/og saurgum vora Samvitsku med einhvørre daudlegre Sind/ þa angrar þad þa stoorlega. Pat a moot/ þa vier snuwum oss aptur / og gierum Ydran / so verda þeir miøg glader/ og oss samþagnande / Luc. 15. Cap.

Par næst eiga ad skiliast þirer þessa vora Sampioona / øll frooom og Gudhrædd Hiørtu/ hvør ad eru Mustere og Herberge heilags Anda/ & aumka sig yþer øllum þeim Svyvirdingum sem i Stadnum skie/Ezech. 9. Vrum oss þar þirer / so vier giørum ecke neina Hneyxlan nockrum Mañe/ hvar med vier ecke ad eins/ stiggium þa heiløgu Eingla/ helldur og so komum ødrum þroomum Hiørtum til ad Andvarpa yþer oss.

Frammveigis stendur hier i Gudspialls Textanum / Ad Herrann haþe læted kalla þennann Illa Pioon þirer sig/ og sagt til hanns / PV Illur Pioon/ alla þa Skulld gaf eg þier upp / aþ þvi þu badst mig / hvørt byriar þier þa ecke miskunsømum ad vera/ vid þiñ Samlagspioon/ lyka sem þad eg var þier miskunsamur ? Hier i þessum Ordū/ ber nu Herrañ hønum a Bryn / og so sem bryxlar hønum um þa Vidhøndlan/ sem hñ haþe haþt vid siñ Samlagspioon. Sømu Bryxlyrde munu og so þæ ad heira / aller þeir sem liþa i Hatre vid siñ Naunga/ og vilia ecke læta Fridstilla sig vid hañ / og soddañ Moñum hæþer med riettu sa Titell/ ad kallast sa Ille Pioon.

Oss verdur hier & eirneñ syńt/hvad miked Illt þeir bake sier/ sem Oþorlykañleger eru / og vilia ecke þirergieþa synum Naunga hañs Misgiørder / sem er/ Eilyþa Firerdæming / hier um hlioodar so Textenn. Og hañs Herra vard Reidur / og oþurselde hañ Kvølurunum/ þang ad til hañ hafde borgad / allt þad hañ var hønum Skylldugur. Bidium þar þirer Gud himneskañ Fødur / i Nafne syns Elskulega Sonar JEsu Christi / ad gieþa oss øllum hoogværañ og þridsamañ Anda/ og seigium med Christelegre Kyrkiu. Pu sæte Ande send oss þyna Naad/læt oss þæ ad hallda þyn Elskuleg Raad/so vier mættum aþ Hiarta/ hver añañ Elska / J einum Hug ad vera/ og i Fride Christs

ad

ad blýfa/Kyrieeleeson. Hvad off veite og giefe af siñe Nad/Gud Fad-
er/Sonur z Heilagur Ande/ Hverium ad sie Lof/Prýs/Æra z Þack-
argiørd / søgd og swngeñ / af øllum Tungum/ nu og
ad Eilýfu/ Amen/ Amen.

# A Allra Heilagra Messu.

## Evangel. / Matth. 5. Cap.

OG þa JEsus leit Foolked/ gieck hañ uppa Fialled. Og
þa hañ setteſt nidur/ geingu hañs Læresveinar til hañs.
Og hañ lauk siñ Muñ upp/ kieñde þeim og sagde :
SÆler eru þeir sem Andlega eru Volader/ þviad þeirra
er Himnarýke. SÆler eru þeir sem Harma / þviad þeir munu
Huggader verda. SÆler eru Hoogværer/ þviad þeir munu Jard-
rýked erfa. SÆler eru þeir sem hwngra z þyrsta epter Riettlæte-
nu/ þvi þeir skulu sadder verda. SÆler er Miskunsamer / þviad
þeir munu Miskun hlioota. SÆler eru Hreinhiartader/þviad þeir
munu Gud sia. SÆler eru Fridsamer/ þviad þeir munu Guds
Børn kallader verda. SÆler eru þeir sem firer Riettlætesins sak-
er Ofsookter verda/ þviad þeirra er Himnarýke. SÆler erud þier
nær Meñerner hallmæla Ydur/ og Ofsookn veita / og tala i giegn
Ydur alla Vondsku/ firer mýnar saker/ þo Liwgande. Fagned þier
og vered glader/ þviad Ydart Verdkaup er gnooglegt a Himnū. Þvi-
ad so Ofsooktu þeir Spameñena/ þa sem firer Ydur voru.

## Exordium.

VJer Lesum (Elskañleger i Christo) Gen. Book. 37. Cap.
Ad Forfadereñ Jacob hafe siñ Son Joseph Elskad og
Kiæraū haft / fram yfer øll sýn Børn. Þeim sama sýn-
um Syne giørde hañ eirn mislitañ Kyrtil / og þegar hañ
var hønum Iklæddur / þocknadeſt hañ sýnum Fødur harla vel.

 Vier

Vier (Elskuleg Guds Børn) heirum og eirnen̄ / i þessa Dags Heilaga Evangelio / hvørsu ad sa himneske Jacob / DRotten̄ vor JEsus Christus / Tilreider øllum Riettrtrwudum / Utvøldum og Heiløgum / sijnum Børnum og Astvinum Andlegan̄ Kyrtel / sem aþ mørgum ægiætum Christelegum Dygdum er giørdur / med hvøriumm þeir eiga sig ad prijda og skrædast / eþ ad þeir skulu hønum þocknast. Þvi hvør sem þeñan̄ Dygda-Kyrtelen̄ a sier heþur / er hønum þægur og þocknan̄legur. Eñ lijka so sem þ / ad þegar þr vondu Josephs Brædur droou þeñan̄ Kyrtelen̄ af hønum / og velktu hn̄ i Naþurs Bloodenu / þa aflade þad hn̄s Fødur Jacob stoora Hiartans Sorg / ad hn̄ sagde med grætlegre Raust / þad er mijns Sonar Kyrtell / Olmt Dijr heþur uppeted han̄ / glepsande Dijr heþur sundursliteð Joseph. So skiedur og eirnen̄ / ad þegar þeir bølsku Brædur / med hvøriumm vier verdum ad um̄gangast i Heime þessu̅ / þr a iadhvørt draga þeñan̄ Andlega Kyrtelen̄ vorrar Christelegrar Trwar aþ oss / eda þeir saurga hn̄ med Oþreinferdugu Lijþerne / þa hryggest sa himneske Jacob / Christus JEsus i Anda / þvi han̄ vill ecke ad nockur skule glatast / eda þortapast. Helldur ad aller kome til sijn / þrae Endurnæring / Lijþ og þulla Nægd / Matth. 11. Joh. 20. Cap. Þar þirer ber oss þeñan̄ Andlega Kyrtelen̄ Christelegrar Trwar og goodra Verka / a oss Goodþwslega ad bera / og sia Kostgiæþelega til / ad han̄ saurgest ecke aþ Sindunr og Misverkum / einkum aþ Vantrwne / og Akalle þeirra Heilogu / hvøriumm Gud vill ecke sijna Dijrd gieþa / med þvi og eirnen̄ ad Abraham veit ecke aþ oss / og Israel þecker oss ecke / Esaiæ 64. Þeñan̄ Andlega Dygda Kyrtelen̄ / sem i þessa Dags Heilaga Gudspialle er oss þirer Augu framsettur og gieþen̄ aþ Drottne vorum JEsu Christo / Vilium vier þramar ælijka / af ætta upptøldum Dygdum / Og þa ættþølldu SAlu / sem aller þeir munu ødlast er þeñan̄ Dygda Kyrtelen̄ bera. Sa Himneske Doctor og Læremeistare / DRotten̄ vor JEsus Christur / upplijse oss med sijnum gooda Heilaga Anda / þetta ad yþervega / sier til Dyrdar / eñ oss til Saluhialpar / þirer sijns Heilaga Naþns saker / Amen.

# Firsta Sælann.

J Upphafe þessa Heilaga Gudspialls / Framsetur Gudspiallamadurenn Mattheus/ nockrar Krijngumstædur (svo sem einum goodum Histori- ustrifara ber ad giora) sem hlioода uppa þetta Efne / hvert vier nu strax fyrer Hende hefum. First talar hn umm Platzed edur Staden/ J hvørium vor Drottenn og Endurlausnare / hafe giort þessa sijna Cate- chismi Predikun / sem er/ uppa einu Fialle. Og hier framm kiemur nu Fyrersøgn Esaiæ Spamanns / þar hn seiger/ i sinnar Bookar 2. Cap. Ad a þeim sijdustu Døgum mune þad Fialled / sem Hws Drottens er a/ visssulega vera hærra enn øll Fioll/ og yfer allar Hæder upphafed verda/ og aller Heidingiar munu þangad skunda/ & margt Foolk þangad ganga/ & seigia/ Komed/ & lætum oss fara uppa Fialled Drottens/ til Hwssens Guds Jacobs/ so þad hann kienne oss sijna Vegu/ og þad vier gaung- um i hanns Stigum / þviad af Zion mun Løgmaaled wtganga / og Orded Drottens af Jerusalem. Enn hvar fyrer Herrann Christur framm- sette þessa merkelega Rædu/ seiger Gudspiallamadurenn ad vered hafe sa mikle Foolks Fiølde sem hn sa til sijn koma.

Frammveigis verdur hier gieted / hvad hann hafe giort / sem er / Ad hann hafe uppløked sijnum blessada Munne / og kiennt Foolkenu og sagt. Sæler eru þeir sem eru Andlega Volader / þt þeirra er Himnarijke.

Tveggia Ordsaka vegna/ framsetur Herrann Christur sierdeilis/ þessa sijna Predikun fyrer Læresveinana. First ad hann kienndе þeim hvørn, enn þeir ætti riettelega ad kienna og uppfræda sijna Tilheirendur i Guds Orde. Þar næst ad hn giæfe þeim þar med Huggun/ i allskonar Krosse og Mootgange/ sem þeim kynne ad Hendum koma/ þvi Malltæke er þad gamallt/ Tela Prævisa minus nocent / þad er/ Þær Pijlur sem Menn sia ad sier stefna / eru ecke so skadlegar / sem þær Oforvarandis koma. Þeir H. Christi Postular voru Homines Carnales / Holldlega Sinnad- er Menn / og meintu ad sw rietta SALa være komenn under wtvortis Høfdingskap / Magt og Metordum/ eins og Mooder fra Zebedei So- na/ sem kom til Christum /bad hn & sagde / lat þessa mijna tvo Sonu sitia i Rijke þijnu / annann til þinnar Hægre / enn annann til þinnar Vinstre Handar/ þad er/ sem hun hefde saat/ Herra minn/ Lattu annann fra verra

 Cantzeler

Cantzeler eñ añañ Hoꜩmeiſtara/ þa þu tekur vid Kongs Tign hier i Hei-
me/ E.i þad er ecke ſw rietta Sælañ/ helldur hitt ſem Chriſtur ſeiger/
Þad er eilijft Lijf / ad þeir þecke þig ſañañ Gud / og þañ þu wtſender
JEſum Chriſtum / Joh. 17. Þetta er nu ſw rietta Sæla / þetta er
þad ſem oſſ dregur beſt a Veg ꝛ Gøtu Sæluhialpareñar. Þetta er þad
Medaled / ꜩirer hvørt ad vier ſæum ad ſiaa Gud / Auglite til Auglitis
ſijdar meir i eilijfu Lijfe/ og hia hønum æꜩeñlega ad vera. Þeſſa Heims
Børn hallda þad ꜩirer þa ſtærſtu Sælu/ ad liꜩa i allskonar Velliſtingū/
til Matar og Dryckiar/ eins og ſa Rijke Svelgiare/ Luc. 16. Þeir
ſem Vnger eru marger hvørier kieppaſt þar vid / ad prijda ſig ſem meſt
þeir gieta/ og ad klæda ſig hid ytra med koſtulegum Skrwda / løgdum
med Gulls og Sylꜩur Snwrum/ ſo þeir kuñe ad haꜩa Alit hia Foolke/
ſo marger heimſker / nær þeir ſiaa ſoddañ Oſlaata og Þaaꜩugla/ hia ſier
ganga / þa ſeigia þeir / O ſiaa hvørſu prijdelega þeſſe er klæddur ? Eñ
hier þvert a moote/ kieñer Herrañ Chriſtur Læreſveinunum ſijnum/ añad
langtum naudſynlegra og þarꜩlegra / ſem villde hñ ſo ſeigia / Non ſic
itur ad Aſtra/ þad er ecke ſa riette Vegur til Sæluhialpareñar/ þvi hia
þeſſum og þvilijkum/ a þad riettelega heima ſem Chriſtur ſeiger hia Luc.
6. Vei Jdur ſem nu erud Auduger / þvi þier haꜩed Jdar Huggun i
burtu / Vei Jdur ſem nu erud ſadder / þvi Jdur mun hungra / Vei
Jdur ſem hier hlæed / þvi þier munud æpa og yla.

Fraṁveigis ſkulum vier vita/ ad þar er ſierdeilislega þreꜩolld Faa-
tækt til. Firſt Volæde/ þa eirn heꜩur hvørke ad bijta nie ſwpa/ ſo ſem
vier pløgum ad ſeigia. Soddañ Mañeſkiur ſumarhvøriar / nær þær ver-
da hier yꜩer Oþoleñmoodar/ þa klaga þær Gud þar ꜩirer / ad hañ ſie ecke
Riettſijn /helldur giøre ſier rangt til/ ꝛ giefe ødrum rijkare meir eñ ſier.
Þær klaga og ſo ſiñ Naaunga ꜩirer Nijſku/ þa þeim er ecke ſtrax giefed/
ſo ſem þeim lijkar vid ad taka. Siaalꜩa ſig klaga þær ꝛ eirneñ/ ꝛ ſeig-
iaſt giefiñ ꝛ ꜩædd vera a Ogiæfu Stund/Eñ hier til ſvarar JEſus þm̄/
hia Gudſpiallamañenum Matthæo i 20. Cap. ſeigiande. Ertu þar ꜩir-
er Rangeygdur/ þo eg ſie Goodgiarn/ edur leiꜩeſt mier ecke ad giøra aꜩ
mijnu þad eg vil ? Añarſlags Armoodur og Faatækdoomur er þ/ þa
eirn

eirn og añar giører sig sialfañ Fatækañ/ med Ohoofe i Mat ꝛ Dryck/ med Onaudsynlegum Giestabodum ꝛ Stoorveitslum. Vm̃ soddañ Meñ talar so sa Vijse Salomon Kongur/ i Ordskvida B. 21. Cap. Hvør sem giarnañ lifer i Vellistingum/ hañ mun skorta/ og hvør hañ elskar miked Vijn og Vidsmiør/ verdur ei Rijkur. Pridiaslags Fatæktdoomur edur Volæde/ er Ærlegt ꝛ Andlegt Volæde/ um̃ hvert Herrañ so talar/ hia Matth. 19. Hvør hañ forlætur Hws edur Brædur/ Systur/ Fødur eda Moodur/ Eygeñkonu eda Børn/ edur Akra/ firer mijns Nafns saker/ sa mun hundradfallt i staden̄ taka/ ꝛ erfa eilijft Lijf.

Vm̃ Julianum Trwarnijding er ꝥ skrifad/ Ad hn̄ hafe ætt ad seigia so til þeirra Christnu/ sem elskudu Gud siñ af øllu Hiarta/ Jdar Herra og Lavardur hefur lofad ad giefa þeim Voludu og Fatæku eilijft Lijf. Þar firer vil eg taka fra Jdur/ allt Jdar Gots og Audæfe/ og giøra Jdur ad Fatækum Þurfamoñum/ so þier meiged þess firre komast i Himnarijke/ ꝛ ødlast eilijfa Sælu. Nei/ aungvañveigeñ so/ ecke var þetta Herrañs Christi Meining/ helldur kallar hañ hier þa alla Andlega Volada/ sem bera Angur og Trega firer sijnar Synder/ og reida sig ecke uppa sijn eygeñ Goodverk/ helldur alleinasta uppa Guds Naad og Miskunseme. Vm̃ ꝥsa ꝛ þvilijka talar so Ande Guds/ firer Muñ Spamañsins Es. 66. C. Eg æl ijt þn̄ hiñ Fatæka/ ꝛ þn̄ sm̃ hefur sundurknosadañ Anda/ ꝛ þn̄ sm̃ hrædest mijn Ord. Soddañ Andlega Volader Meñ voru ꝥr Zachæus ꝛ Tollheimtumadureñ i Musterenu/ hvør ecke þorde ad upplypta sijnū Augū til Himens/ helldur barde sier a Brioost/ ꝛ saqde. Gud vertu mier Sindugū lijknsamur. So var ꝛ eirneñ Andlega Voladur/ S. Petur/ Maria Magdalena/ ꝛ adrer fleire. Hier um̃ mætte margt fleira fram̃setiast/ ef Tijmeñ lide/ ꝛ ꝥ yrde ecke oflangt.

## Vm þa adra Sæluna.

ENN vier vilium nu fram̃veigis stuttlega skoda/ og yfervega þa adra Sæluna/ um̃ hvøria vor liwfe Lausnare talar hier og seiger. Sæler eru þeir sem Harma/ þviad þeir munu Huggader verda. Þessu samhlioodar þad sm̃ Salomon seiger/ i Predikunar B. 7. Cap.

Ad þad sie betra ad ganga i Sorgar-hws / helldur eñ i Dryckiu-hws / Item/ betra er ad syrgia / eñ ad hlæa. Nu verdur þar alltiaþnt eiñ hvør sierleg Ordsøk til ad vera/ þa eirn edur añar grætur / og wthellet sijnum Tarum / eñ vier skulum vita / ad þirst wtpressar þad Tareñ aþ Mañsins Augum/ þa eirn verdur þirer þwngum Krosse og Mootganæge/ hvørt helldur ð sw Byrde liggur hid iñra a Sæluñe/ hvad þo er allra-þijngst/edur hid ytra a Lijkamanum. Þar næst/ þa eirn heþur Samaumkan med sijnum Astvin/ edur ødrum sijnum Samchristnum Naunga/ þa hønum þellur illa/ hvar um Postuleñ Pall talar/ til Rom. 12. C. seigiande/ Fagned med Fagnendum/ og Grœted med Grœtendum. J þridia lage/ er þad ecke hin miñsta Ordsøk til Grætsins/ þa eirn þiñur til Sinda siña / og ber Angur og Trega þirer þær. J þioorda mæta þa Madur heþur eina hiartans Girnd og Epterlaungan til þess/ ad meiga þrelsast wr þessum Eimdardal sem þirst / eñ komast iñ i þa himnesku Sælu og Dijrd allra Utvalldra/ sem S. Pall seiger/ Philip. 1. Eg girnest ad skiliast hier vid/ og vera hia Christo. Nu / um alla þa sem i þvilijkañ mæta eru Sorgþuller og Angrader seiger Endurlausnareñ vor JEsus Christus hier/ Ad Þeir Skule Huggader Verda/ Sama sagde hñ til hiñs Icktsiwka/ Vertu Hughraustur Sonur / þier eru þijnar Sinder þirergieþnar. Matth. 9.

## Um þa þridiu Sæluna.

Framveigis seiger Herrañ Christur hier i Gudspiallenu/Sæler Eru Hoogværer/ þvi þeir munu Jardrijked erfa. Þetta er nu sw þridia Edla Perlañ edur Gimsteirneñ/sem skartar vel a øllum Guds Børnum. Sonur Guds/ vor liwþe Lausnare JEsus Christus /visse vel/ hvørneñ ad vorre Sindumspilltre Natturu var hættad/ sem er/ad hun er iaþnañ hneigd til þess hiñs Vonda/sm er/til Reide/Naturs og Oþundsykis/ Hvad og eirneñ hendt heþur Heilaga Guds Menn / so sem vier meigum sia auglioos Dæme a Postulanum Petre / hvør ad kom til Christum og spurde hñ ad,/seigiande/ Herra/hvad opt skal eg mijnum Broodur/ þeim sem vid mig brijtur/ þirergiefa ? Er þad ecke noog sieꝼiñum ?

Nier

Hier a moot seiger Herran Christur / Sæler Eru HOgværer. Eñ pad er ad vera riettelega Hoogvær / þa Madur brÿtur a moote Giede sÿnu / og Bordast Reide og Bondsku / eñ þirergieþur giarnañ sÿnu Samchrist-num Naunga hañs Misgiørder / eñ hvørsu Torvellt þad sie / ad naa þessare Edla Dygdeñe / þad kieñer oss Dagleg Reinsla. Eñ hvad a oss þa ad uppvekia þar til / ad vier þvßlega þirergieþum þeim sem oss i moote briootas? Þar til skal oss uppvekia / First ꝛ þremst Befalning sialþs liþ-anda Guds / þvi so stendur þar i Pistlenum til Rom. 12. Capitula. Heþned Idar ecke sialfer / mÿner Elskañleger / helldur gieþed Rwm Reide. Og sialþur Sonur GUds vor DRotteñ JEsus Christus seiger hia Matth. 5. Cap. Þegar þu oþþrar þÿna Gaþu til Altaris / og þier kiemur þad til hugar / ad þiñ Brooder haþe nockud a moote þier / þa lattu þar þÿna Gafu þirer Altarenu / og gack adur ad sætta þig vid þiñ Broodur. Item / Vertu snarlega samþÿckur þÿnum Mootstødumañe / a medañ þu ert eñ nu a Veige med hønum. Og Postuleñ Paall talar so i Pistl. til Eph. 4. Cap. Reidest og Sindged ecke / lated ecke Soolena underganga yþer Idarre Reide.

Þar næst a oss ad uppvekia til Fridar og Forlÿkunar vid vorn Sam-christeñ Naunga / epter-Dæme liþanda Guds / hvør ad lætur sÿna Sool skÿna / so vel yfer þa vondu sem goodu / og lætur sitt Regn þalla nidur / eins yþer þa Riettlaatu sem Ranglaatu. Item seiger Endurlausnareñ vor JEsus Christus so sialþur / Læred aþ mier / þviad eg er Hoogvær og aþ Hiarta Lÿtelaatur / Matth. 11. Cap.

J þridia maata a oss ad upphvetia til þessarar Edla Dygdar / Dæme þeirra Hellogu Guds Mañа / Abrahams / Jacobs / Josephs / Moysis / Davids og añara þleire. J þioorda maata a oss ad knÿja til Fridar og Samþÿckis vid Naungañ / Eitt Gott og Ypparlegt Naþn og Rÿckte / Hier þirer seiger so hiñ Heidne Cicero / Meñ leggia sier iñ stoort Lof þar med / þa þeir umlÿda Þoleñmoodlega þad þeim er Ranglega tilgiørt / miklu þramar eñ þo þeir vilie heþna sÿn sialþer a sÿnu Ovinu. J þimм-ta ꝛ sÿdasta maata / a oss ad hræra til þessarar Dygdar / Sa mikle Skade sem aller Reidegiarner og Heþndargÿruger hafa sier ad vænta / ef þeir

 stilla

stilla ecke styna Giedsmune / þvi so seiger Postulenn Jacob / 1. Cap. Mannsins Reidegiøret þad eige/hvad þirer Gude Riettþerdugt er. Nær vier skickum oss nu þannen/ epter Guds Orde og Beþalningu / og erum Nogværer/hvørs Goods munum vier þa eiga oss aptur a moot ad vænta? Hier uppa svarar so sialþur Endurlausnarenn vor i þßu Gudspialle/seigiande/ ad þeir sem so giøra & bregta / skule Jardrijked Erþa. Þetta Guds Firerheit edur Loþun/a og mæ med riettu tvøþalldlega ad skiliast. Margur meinar so og þeinker/ kannskie/ med sialþum sier/ ad þeir mune verda stoorauduger og rijker þar aþ / þa þeir liggia i Fiandskap / Kløgumælum/ Agge og Deilum/ vid sinn Jaþnchristenn. Nei/ þvi er aungvanveigenn so vared og hættad / þvi Prætur og Osamlinde leida eckert Gott epter sig. Dæme hier uppa høþum vier a Forþødurnum Jacob/ Hanns Maagur Laban/ hvrættade opt og osialdann vid hann / enn Jacob liet sem hann heirde þad ecke / þess vegna blessade Gud hann i stadenn Rijkuglega.

J annann mæta kallast þad/Ad ERþa Jardrijked. First/ ad haþa goo da Heilsu / og ødlast langa Lijþdaga. Þar næst ad hafa sitt Daglegt Braud og Upphellde / til ad þorsorga sig og styna med / þvi so seiger David/ i Psalm. 112. Ad Sæde þeirra sem Drottenn Ottast / mune verda Wolldugt a Jørdu/ og ad Att þeirra Goodu mune blessud verda/ Rijkdoomur og Nægter munu vera i þeirra Hwse / og þeirra Riettvijse blijþur Æþennlega. J þridia mæta kallast þad ad Erþa Jardrijked/ þa Madur þær ad liþa i Fride og Roolegheitum. Tyrannar og Bloodgyrtuger Hundar / Item ægiarner Kroppar og Reidegiarner / þesser og þvilijker verda opt og tijdum Wellrijker / og miklu audugre enn þeir Goodu og Froomu/ sem Ottast og elska sinn Gud/ aþ ollu Hiarta/ Enn þeirra Lijþdagar verda næsta þæer og stutter / so sem hinn heilage David seiger/ Ad þeir þæe ecke hælfnad styna Lijþdaga. J þioorda mæta / a þetta Guds Firerheit umm Arþtøku Jardrijkis / ad skiliast þirer Erþd Himnarijkis og allra himneskra Audæþa/ epter þvi sem David ad Orde kiemst/ i Psalm. 116. Enn eg trwe þad (seiger hann) Ad eg mune sia Goodsemd Drottenns/ a Jørdu liþande Manna/ Þad er i eilijþu Lijþe / Og Postulenn Pall seiger / Ad vor Umgeingne sie a Himnum / Hvadann vier

væntum

vænkum vors Endurlausnara JEsu CHristi/ Philippens. 1. Capitula.

# Um Þa þioordu Sæluna.

SU þioorda Sælan/ hvørrar gieted verdur i þessu N. Evangelio/ er þesse/ ad Herran seiger / Ad Sæler sieu þeir sem Hungra og Þyrsta epter Riettlætenu / þvi þeir skule sadder verda. Þesse Ord heþur Sonur Guds/ vor livþe Endurlausnare JEsus Christus/ riett eigenlega teked wr aþ Spamanenum Esaia/ þar han so ad Orde kiemst/ seigiande i sinar Bookar 65. Cap. So seiger DRotten Drottenn/ Sia þu mijner Pioonar skulu eta og drecka/ en þier skulud hungra og þyrsta. Þeir sem setter eru til þess / ad uppþræda Ungdoomenn i Skoolum/ i Booklegum Lystum/ kienna so/ ad Riettlæted sie þrennslags/ edur med þrennu moote. Þad þirsta Riettlæted aþ þessum þremur/ verdur kallad Justitia universalis/ þad er/ Almennelegt Riettlæte/ hvørt ed innebindur allar adrar Dygder i sier / epter þvi sem þeir gømlu haþa sagt/ Justitia in sese Virtutes continet omnes. Aþ þvilijku Riettlæte hroosar Post. Pall sier 1. Cor. 4. þar hann seiger/ Jeg er mier einskis samvitande. Og um þann gamla Simeonem stendur skriþad/ ad hann haþe vered Homo Justus/ þad er Riettlatur/ Uppricktugur og Ærugøþugur Madur/ sem ecke være sier nockurs Skalkaparts medvitande. En hvar þinnast nu þvilijker Menn ? Sannarlega þeir eru mieg þaer a þessum Døgum/ hvar yþer Micheas Spamadur so klagar/ seigiande/ Cap. 7. Þeir þroomu eru aller burt wr Landenu/ og þeir Riettþerdugu þinnast ecke meir a medal Foolksins. Þad annad Riettlæted verdur kallad Justitia Particularis/edur þad Riettlæte sem vidkiemur nockrum/ en þo ecke øllum/ so sem þa eirn Madur heþur goodan Asetning aungvum Oriett ad til giora. Um soddan Riettlæte talar Jacob Forfader vid Maag sinn Laban / þar hann seiger/ Mijn Riettvijse skal mier Vitne bera/ i Dag edur a Morgun/ þegar þar ad kiemur/ ad eg skal taka mitt Verdkaup aþ þier. Ut aþ soddann Riettlæte hroosar David sier / i Psalm. 7. seigiande/ Dæm þu mig DRotten epter minne Riettvijsse. Þridia slags Riettlæte/ verdur kallad Justitia Evangelica/ edur þad

Evangeliska Riettlæte/ þad er/þegar Madur verdur Riettlætur og Sæluhoolpeñ/ alleinasta firer Forþienustu / Piinu / Dauda og Bloods Vthellingu JEsu Christi Guds Sonar. Vm̃ þvilijkt Riettlæte talar Post. Pall so / i Pistlenum til Rom. 5. Cap. seigiande. Nu/ þar vier erum Riettlæter ordner firer Truna / þa hofum vier Frid hia Gude / firer DRottenn vorn JEsum CHristum.

# Vm̃ þa fimtu Sæluna.

ÞV fimta Sælañ/a hvøria hier miñst verdur/er þesse/ SÆler Eru Miskunsamer / þvi þeir munu Miskun hliota. J Heilagre Ritningu/ verdur sierdeilis gieted þrefalldrar Miskunseme. First er Nad og Miskunseme lifanda Guds / vid oss aumar og syndugar Mañeskiur/ hvør ad ny og ferst er a hvørium Morgne. Hvøria Lærefadereñ Augustinus kallar / Reginam Cœlorum / Himensins Drottningu. Añur Miskunseme a heima hia oss Møñunum / nær vier audsijnum þeim Aumu/ Voludu og Hialparlausu nockud Gott/ hvort helldur sm̃ þad skiedur med Ordum edur Vtlatum. Þridiaslags Miskunseme er svo sem Madur giører vid sialfañ sig / þa eirn edur añar helldur ecke meir af sialfum sier eñ hønum ber af sier ad hallda / og þetta er nu svo þriggia handaslags Miskunseme/ sem eg strax sagde/ hverrar gieted verdur i heilagre Ritningu.

# Vm̃ þa siøttu Sæluna.

ÞV siøtta Sælañ er iñebundeñ i þessū Herrañs Christi Ordum/ þar hñ seiger/ Sæler eru Hreinhiartader / þvi þeir munu Gud sia. Hier kañ einhvør ad seigia. Hvørneñ kiemur þad til / ad Sonur Guds talar hier so / og seiger / Ad SÆler Sieu Hreinhiartader ? Seiger ecke Job so/ 15. Cap. Hvad er Mañeskiañ þess / ad hun skylde vera hrein ? Sia þu ad þar er eingeñ Ostraffañlegur a medal hñs Heilagra / og Himnarner eru ecke hreiner firer hønum. Jtem seiger David Psalm. 14. Aller eru þeir frafnwner og aller samañ hvør med ødrum Onyter ordner/ þar er eingeñ sm̃ Gott giører og ecke eirn. Þessu sam-

hlioda

hlioода Ord Spaamañsins Esa. 64. Vier (seiger hñ) erū aller svo sm̄ hiner Ohreinu/ ꝛ allt vort Riettlæte er sm̄ añ ar Opeckt at Leppur.

Hvar þirer seiger Herrañ Christur þa hier/ Ad SAller Sieu Hreinhiartader? Hier til svarast so / Pad er vissulega og Obrygdañlega satt / Ad af Nattuŕuñe erum vier aller Ohreiner / og i Sindunum gietner og þædder / svo sem David seiger/ Psalm. 51. Eñ vier skulum vita/ ad þetta Ord HReinhiartadur/ maa ꝛ kañ ad skiliast i þrefalldañ maata.

First meiga þeir aller riettelega HReinhiartader kallast/ sm̄ þvegner ꝛ laugader eru mz JEsu Guds Sonar Dyrmæta Bloode i Skyrneñe/ þviad Blooded JEsu Christi hreinsar oss af allre Sind/ 1. Joh. 1.

J añañ maata meiga þeir og so HReinhiartader heita og nefnast/sem bwa yfer heiløgum og hreinum Þaunkum/Ordum og Giørdum / eñ þo einkañlega og sierdeilis/ þeir sem ad þordast og taka sier Vara þirer allskonar illum og andstyggelegum Løstum / so sem ad eru Hoordoomar / Frillulifnadur/ Raan/ Þiooþnadur / Lygar/ og añad þess konar/ Hvar um̄ Postuleñ Paall so talar/ 1. Tess. 4. Pad er ( seiger hañ ) Vilie Guds Jdar Helgun/ ad þier um̄flyed Hooraner / og hver Jdar sem eirn vite ad eignast sitt Kier i Helgun og Heidre.

J þridiu Grein kallast þeir aller HReinhiartader/sem ad eru æn Svika og Vnderferlis/ hafande ekkert falskt Hiarta i sier/ so þeir hure añad hid iñra/ eñ tale añad hid ytra. Soddañ Gæfu var giæddur og prydddur Nathanael fordum/hvørium sialfur Herrañ vor JEsus/ giefur þeñañ Gull væga Vitnisburd/ seigiande/ Siaa/ þar er eirn Riettur Jsraelite/ i hvørium eingeñ Svik eru/ Joh. 1. Cap. Vm̄ þvilijka Meñ talar David so/ Psalm. 15. seigiande. Hvør mun gaanga uppa Fialled Drottens? Og hvør mun standa i hñs heilaga Stad? Sa ed hefur Meinlausar Hendur/ og hañ sem er Hreinhiartadur. Hier þirer bidur hañ Gud so sialfur/ Psalm. 51. Hreint Hiarta skapa þu Gud i mier/ etc. etc. Og um̄ alla þa sem so haga sier/seiger Sonur Guds ad ÞEir Skule GVd Siaa. Eñ hvad er þad kañ einhvør ad seigia/ ad sia Gud? Forfadereñ Jacob sagde/Jeg hefe sied DRottеñ/Auglite til Auglitis/ og myn Aund er frelst/ Gen. 32. Moyses Guds Madur

 vilde

villde feigeñ hafa feinged ad sia Gud / eñ hñ fieck ecke ad sia meir eñ a Baked a hønum / þvi so sagde DRotteñ til hñs / Eingeñ Madur mun lifa / sem mig sier / Exo. 33. Esaias Spamadur sa og so DRotteñ sitia a einum haum Stoole / ꝛ Falldur hñs Klæda / uppfyllte Musterꝫ ed / Esa. 6. Vier lesũ ꝛ eirneñ ad þeir siøtju Aulldungar / i Israel / sem geingu uppa Fialled med Moyse og Aaron / hafe sied Gud / og under hñs Footum hafe vered ad sia / so sem fagur Saphyrus / edur so sem Himeneñ / þa hañ er Heidbiartur / Exo. 14. J lijkañ maata þa sa hiñ heilage Stephanus i siñu Andlaate Himeneñ opeñ / og JEsum standꝫ ande til Guds Hægre Handar / Act. 7. Eñ hvørneñ þetta hafe til geinged / eda hvørneñ þessare Sioon hafe vered hattad / kuñum vier ecke ad vita / þvi so seiger Johañes / 1. Cap. Eingeñ hefur Gud nockurn Tijma sied / Sa Eingietne Sonurenn / sem er i Skaute Fødursins / hefur oss þad opeñberad. Item / seiger Post. Paall / Ad Gud bwe i þvi Lioose sem eingeñ faae tilkomed. 1. Tim. 6. Cap. Eñ ecke talar Sonur Guds hier einungis uñ þessa / helldur seiger hñ / ad þeir Hreinꝫ hiertudu mune Gud sia / þad er ad skilia / First hier i Lijfe / med Augũ Trwareñar / og so sijdañ añars Heims i Himnarijke / hvar vier munum sia hañ / Auglite til Auglitis / so sem sialfur hañ er. Nu / hier þvert a moote / hvørier hellst sem ecke eru Hreinhiartader / þad er / þeir sem ecke eru þvegner og hreinsader firer Blooded Christi / i Skijrneñe af sijnũ Syndũ / ꝛ ecke hugga sig i sañre Trw / vid Forþienustu / Pijnu ꝛ Dauꝫ da Guds Sonar / og ecke varast ad drijga Stoorsinder og Glæpe a mooti Samvitskuñe / etc. etc. þeir munu ecke fa ad sia Gud.

# Vm þa siøundu Sæluna.

SV siøunda Sælañ / uñ hvøria Herrañ Christur talar hier / er þesse. SÆler eru Fridsamer / þvi þr munu Guds Børn kallader verda. Hvørier ad riettelega meige heita og kallast FRidsamer Meñ / þad þarf ecke med mørgũ Ordũ wt ad skijra / þviad Eindrægne ꝛ Fridseme er soddañ ein Edla Dygd / sem ecke verdur nooglega lofud ꝛ prijsud / so sem þa eirn Samchristeñ hagar sier so i Ordum ꝛ Verkũ vid siñ Naꝫ unga /

unga/ ad hn̄ stygger hn̄ ecke / helldur ad hvør kome ødrum til Hialpar/ þar þørf gioreſt. Soddan Dygd er harla naudsynleg i øllum Stiettum. Firſt i þeirre Andlegu Stiettenñe/ þui ſo ſeiger David/ Pſalm. 133. Sia þu/ hvad ægiætt og elſkulegt þad er/ þa Brædurner bwa hvør vid aña Samþyckelega ? Þar næſt i þeirre Veralldlegu Stiettenñe/þa er þeſſe Dygden̄ Omiſſande/ Qvia Concordia res Parvæ Creſcunt/ Diſcordia maximæ dilabuntur/ ſeiger ſa Heidne Salustius. Þad er/ Litlar Alner kuña ad æ vaxtaſt med Eindrægne og Samþycke / þar a moot kuña ſtoor Audæfe/ og ſo fiirer Oſamþycke og Deining ſnarlega ad eidaſt. Hvar uppa fiñaſt meiga Otelianlega mørg Dæme/bæde forn og ny. J þridia lage/ er þeſſe Dygden̄ Omiſſande / i Hwsſtioornarſtiettenñe/ þui ſo ſeiger Syrach. Þar eru þryr Koſtuleger Hluter/ ſem Giedþecker eru bæde Gude og Moñum / ſem er / þa Brædurner eru Samþycker / og Naungarner Elſkaſt / og Madur og Kona vel ſorlykaſt. Eñ hvad ſkal þa uppvekia oſſ og æfyſa / til ad Jdka og Æfa oſſ i þeſſare Dygdeñe ? Firſt ſkal oſſ þar til kuña ſw mikla og Owtſeigiañlega Nad/ Goodgirnd og Miſkun / Lifanda Guds / vid þad Mañlega Kyn/Vm̄ hvøria ſialfur Sonur Guds ſo talar/og ſeiger/ Joh. 3. So elſkade Gud Heimeñ / ad hañ gaf wt ſin̄ Eingieteñ Son/ uppa þad/ ad aller þeir ſem a hañ trwa/ fiirerfareſt eige/ helldur hafe eilyft Lyf. Sømuleidis ſeiger ſo Poſtuleñ Paall / i Piſtlenum til Rom. 5. Cap. J þui pryſſade Gud ſin̄ Kiærleika vid oſſ / ad Chriſtur hefur fiirer oſſ Dæed / þa þegar vier vorum eñ Sinduger / Og eñ aptur ſeiger hañ ſo/ 2. Piſtle til Cor. 5. Gud var i Chriſto/og forlykade Heimeñ vid ſialfañ ſig/ Tilreiknande þeim eige ſyn̄ar Sinder/ og hefur uppreiſt vor a medal Orded af Forlykuneñe. Þar næſt / ſkal oſſ upphvetia til Fridar og Forlykunar / vid vorn Samchriſtenn Naunga / ſa Nakomne Skylldugleike ſem er vor a mille / þui vier erum aller Jñbyrdis Brædur og Syſtur / hafande eirn ſoma Fødur a Himnum / hvørn vier Daglega ákøllum i vorre DRottenlegre Bæn / ſeigiande/ FAder Vor/ etc. etc.

J þridia lage ſkal oſſ koma til Fridar & Forlykunar / ſw Breñande

 Bæn

Bæn sem Herrañ Christur giørde skømu þirer sijna Pijnu / seigiande / Heilage Fader / Geim þa i þijnu Nafne / hvoria þu gafst mier / ad þeir sieu eitt sem vid.

J þioorda og sijdasta mata / skal oss hier til aminña og uppvekia / Betalning sialfs lifanda Guds / þar hañ seiger / Eitt nijtt Bod gief eg Idur / Elsked hvør añañ iñbyrdis / so sm̃ þ eg hefe Idr elskad / þvi þar af þeckest þier ad vera mijner Læresveinar / ef þier elskest iñbyrdis / Joh. 13.

# Vm þa Attundu Sæluna.

NV filget a epter sw sijdasta edur Attunda Sælañ / þar Herrañ Christur talar so og seiger / Sæler eru þeir sem þirer Riettlætesins saker Offsokter verda / þviad þeirra er Himnarijke. Ecke eru hier med meinter / þeir sem verda ad lijda Kvaler og Pijntingar / vegna Rangs Lærdooms / sem þeir kieña z medfara. Ecke þeir helldur / sm̃ straffader verda þirer sijn Illvirke / eda þeir / sem taka Illt wt a sialfum sier / og svellta sig sialfa / firr eñ þeir bere sig ecke ad safna nockrum Maurum. Helldur talar Sonur Guds hier / um̃ rietta og saña Christna Meñ / sem vegna Erwareñar z JEsu Nafns Vidurkieñingar / verda ad lijda margvijslegar Offsokner z Harmkvæle / Vm̃ þessa talar Herrañ Christur hier og seiger / Ad Þvilijkra Sie HImnarijke.

J Nidurlage Gudspiallsins / Tilleggur Herrañ Christur þesse Ord og seiger til Læresveinaña siña. Sæler erud þier / nær ed Meñerner Hallmæla Idur og Offsokn veita / og tala i giegn Idur alla Vondsku / þ mijnar saker þo liugande / fagne þier z vered glader / þt Idart Verdkaup er nooglegt a Himnũ. Eñ hvilijkt Verdkaup / og hvilijk Laun muni þka þa verda? O / þad verda soddañ Laun / sem hvorke hefur Auga sied / ecke Eira heirt / eda i nockurs Mañs Hiarta stijged / 1. Cor. 2. Þessara Ongdarlauna niootande ad verda / um̃ alla Eilijfd i Himnarijke / þ veite oss Gud Fader / firer Offrmæta Forþienustu z Medalgaungu sijns Hiartans Sonar JEsu Christi. Hvøriũ mz sijnũ Himneska Fødur z heilogũ Anda / sie Lof / Dijrd / Æra z Þackargiørd / nu hiedañ i fra / og ad Eilijfu / Amen / Amen / J JEsu Nafne / Amen.

Tuttugasta

# Tuttugasta og Pridia Suñudag epter Trinitatis.

Evangel. / Matth. 22. Cap.

Y Þañ Tijma. Þa geingu Pharisearner i burt/ og settu Rad samañ/ ad þeir þeinge veidt hañ i Ordum / Og sendu til hañs sijna Lærisveina/ med Herodis Þienurum so seigiande: Meistare/ vier vitum þad ad þu ert Sañsøgull/ og kieñer Guds Gøtu i Sañleika/ og skeiter ei nockrum / þviad þu þer ei ad Mañvirdingum/ Þar þirer seig þu oss/ hvad þier lyst/ Hvort leiþest ad giefa Keysaranum Skatt edur ei? Eñ þa JEsus formerkte þeirra Flærdskap/ sagde hañ/ Hvad þreiste þier mijn Hræsnarar? Sijned mier Myntena Peningsins. Og þeir sijndu hønum Peningeñ. JEsus sagde til þeirra. Hvors Mynd og Yþerskriþt er þetta? Þeir søgdu hønum/ Keysarans. Þa sagde hañ til þeirra/ Giefþed þa Keysaranum hvad Keysarans er / Og þad Gude hvad Guds er. Og er þeir heirdu þetta/ Undrudust þeir / þorlietu hann og geingu i burt.

## Exordium.

Vier lesum Elskuleg Guds Børn / i Doomara Book. 15. C. Um Samson/ þegar hañ vilde giøra Skada þeim Philisteis/ þa haþe hañ geinged wt / og veidt þriu hundrud Reþa / og snwed Hølunum a þeim til samans / og bunded Elldsijsd a millū hvørra tveggia Hala / og sleppt þeim sijdañ lausum i Korn-Akra Philisteaña og uppbrendt þeirra Bindine/ og þad standanda Korn.

Alijka Dæme verdur oss hier sijnt ꝛ þirer Siooner sett i þessa Dags Evangelio/ a Þienurum Herodis og Phariseaña/ hvørier ad riettelega meiga lijkiast vid þessa Samsons Reþa/ þvi þad ma seigiast og sijnast/ aþ þeirra Hegdan og Breitne/ ad þeir haþe vered svo sem til samans klwsader og þester/ a Hølunum/ i þvi ad taka sijn Rad samañ/ hvørneñ þeir kyñe ad aþma Christum ꝛ hijns Heilsusama Lærdoom. Og sañast

 þad

þad hier miøg merkelega/ sem Post. Petur seiger i Gierninga Book Post. 4. Cap. Sañarlega komu þeir til samans/ i giegn þijnu Hei-laga Barne JEsu/ sem þu smurt hafdet/ Herodes og Pontius Pilatus samt ødrum Heidingium/ og Israels Foolke/ ad giøra hvad þijn Hønd og þitt Raad hafde ædur firre hugad/ ad skie skylde.

Eñ so sem þad/ ad Samsons Refar brendu ecke alleinasta Philiste-aña Kornhlødur/helldur og so fordiørfudu sialfa sig/ af þeim Elldebran-de/ sem þeir uppkveiktu i þeirra Korne. So foor og so Phariseaña og Herodis Pienurū/ad þeir fiellu i þa sømu Grøf/hveria þeir hugdu Christo ad bwa. Hier um vilium vier heira nockud framar talad i stuttlegre Utleggingu þessa H. Evangelij/ hvøriu vier vilium sundurskipta i tvær Greiner. Og skal hin firre vera um Spurning þa/ sem þesser Herodis og Phariseaña Sendesveinar/ setia fram firer Christum. Añur um Andsvar Herrañs Christi / med hverin hañ skøruglega so sem añar Hælærdur Doctor og Læremeistare svarar þm og fulla wrlausn giører/ a þeirra Spurningu.

Nu/ sa riette Meistare yfer øllum Meisturum / i hvørium foolgner eru aller Fiarsiooder Vijsdoomsins og Spekeñar/ Leide oss til þessara Gudspialls Orda riettelegrar Kyñingar og Heilsusamlegrar Uppfræd-ingar / i JEsu Nafne/ Amen.

# Firre Greineñ.

I Upphafe Gudspiallsins stendur so. PA GEingu Pharise-arner burt/ og settu Raad samañ/ ad þeir feinge veidt hñ i Ordū. First er oss athugande i þvi firra Greinarkornenu/ hvenær eda a hvør-ium Tijma ad Phariseарner hafe teked þesse sijn Raad samañ/ um Herr-añ Christum. Eñ þad sijner oss þetta Ordkorned/ PA/ sem hier stend-ur strax i Upphafe Gudspiallsins / sem er/ þad hafe vered i þad sama sijñ sem hñ framsette firer Hofudprestana og Aulldungana/ þessar tvær Epterlijkingar. Hin firre var um Vijngards Herrañ sem hafde leigt ødrum sijñ Vijngard/ eñ þeir borgudu hønum ecke ødru aptur eñ þvi/ad þeir tooku hañs Son og aflijfudu hañ/Matth. 21. Añur um Brwd-

Kauped

kauped sem sa Himneske Kongurenn giørde Syne sijnum. Baadar þessar Epterlijkingar/ framsette vor Blessade Endurlausnare / firer Gydinga/ skomu epter Innreid sijna / i Borgena Jerusalem/ sem var þrem Døgum firer hans Kvøl og Pijnu / sem hann leid vorra vegna. Enn med þvi / ad Gydingar Skyniudu vel og underskoodu/ ad Herrann Christur hneygde þessar baadar Epterlijkingar/ uppa sig/ þa Eyrde þad illa med þeim/Tooku þar firer Raad sijn samann hvørnenn þeir giæte best hefnt sijn a hønum aptur/firer þessar Epterlijkingar/hvøriar hann Blessadr framsette þo sialfum þeim til Vidvørunar og Betrunar.

Eins geingur þ enn nu til a þessum Døgum/firer Kiennemønnum z Guds Ords þienurum/ad þegar þr seigia þre Oguðlegu Verølldu til Synda sinna / þa forþiena þr sømu Þøck / sem Christur og hans Lærefveinar feingu ædur fordum. Ja / Verølldarennar Børn eru reid uppa þa/ sem straffa þa i Þortuunni / og hallda þann firer Svivirding sem Heilnæmt kienner/ epter þvi sem Spaamadurenn Amos ad Orde kiemst/ 5. Cap. Dæme hier uppa høfum vier allmerg i Heilgre Ritningu. Jessabel soor/ ad hun skyllde af Lijfe taka Spaamannenn Eliam/og Ofsookte hann / so hann vard adflija firer henne / sem þar stendur / 1. Book. Kong. 19. Herodes liet Aflijfa Johannem firer þad/ hann sagde hønum beiskann Sannleik/ og straffade hann firer sijna Bloodskøm/ Matth. 14.

Þar skylldu ecke fiinnast enn nu þr/ sem sitia under Guds Orda Heyrn/ og ef þeim fellur ecke Prestsins Kienning so vel i Gied / sem þeir vilia eda þeim þyker sig nockud snerta/ þ Kiennemadurenn framsetur i sinne Predikun/ þa fafna þeir Mood/ og þeinkia so mz sier/ Eg skal þacka þier firer Predikunena ein hvørn Tijma. Enn soddann Menn giera sier sialfum mesta Skada/Þviad Guds Ord/hvørt ad i sialfu sier er Kraptur Guds til Saaluhialparennar / øllum þeim sem þvi trwa / Rom. 1. Verdur þeim med soddann moote Ilmur Daudans til Daudans/ 2. Cor. 2. Þar firer skyllde hvert og eitt Guds Barn. vara sig og giera ecke soddann/helldur medtaka Orded mz Hoogværd/epter þvi sem Postulenn Jacob Raadleggur / i sijnus Pistils 1. Cap.

Frammveigis verdr oss hier sijnt/ af þessare Gudspialls Historiu/hvad

þirer Foolk þetta hafe vered/ sem took sig saman moote Herranum Christo/ sem er/ bæde Andlegrar ꝛ Verralldlegrar Stiettar Menn. Hvernenn byria þeir þa Rædu sijna vid hn.? Þeir byria hana med fogrum ꝛ þorbloomudum Ordum a þennan Hatt/ seigiande/ MEJstare/ VJer Vitum ad þu ert Sannsøgull/ og kiener Guds Gøtu i Sannleika / Skeyter ei nockrum/ þvi þu þer ecke ad Mannvirdingum. Og þo þeir þeinktu allt annad i Hiartanu/ þa var þad samt allt hvøriu Torde saman/ sem þeir umm tøludu/ Jaa/ hn var sa riette Meistare/ med þa Lærdu Tunguna/ og þess vegna seiger hn so sialfur vid sijna Læresveina/ hia Joh. 13. Þier kalled mig Meistara og Herra/þad giered þier rett/ þvi eg er þad eirnenn. Þad hn være Sannordur / og kiennde Guds Gøtu i Sannleika/ þad søgdu þeir og so satt/ þvi hn er trwr Vottur/ sa er ecke kann ad ljuga/ Openb. B. 1. ꝛ Ebr. 6. Þar þirer giører hn þessa Jatning/ þirer Pilato/ og seiger/ þar til er eg þæddur og i Heimenn komenn/ad eg bere Vitne Sannleikanum. J þridia lage sæta þeir hier þad og so umm hn/ ad hn þare ecke ad Mannvirdingum/þad tøludu þeir eirnenn rett/ þvi hn er eirn Herra yþer øllum Hlutum/umm hvørn skrifad stendur/ Hann mun ecke Dæma epter þvi sem hns Augu sia/ og ecke Straffa epter þvi sem hns Eiru heira/ helldur mun hn Dæma med Riettvijse hina Fatæku/ og medur Doome Hirta þa Aumu i Landenu / Esa. 11.

Hier aþ haþa nu aller Trwlinder Guds Ords Þienarar / sier merkelegt Epterdæme ad taka/ og læra ad þeta i Footspor sijns Herra / þirst i þvi / ad vera ecke þaþroodet sem Barn / eda sem eirn a sijnum Vngdooms Aarum/ helldur ad vera eirn Meistare/ þad er soddann eirn Madur sem sig hefur vel Jdkad i Guds Orde/ haþande sier i Minne þad Syrach rædleggur 15. Cap. seigiande / Lær þu sialþur adur enn þu kiener ødrum Monnum/ ꝛ so sem þ/ad Gud hiellt þordū/ i þvi Gamla Testamentenu Asnann/ Opienannlegann Grip til Offur sins / so sem lesa maa / Exo. B. 24. Cap. So vill hann ꝛ ecke helldur liijda / soddann Asna i sinne Kyrkiu-Þioonustu/ sem sialþer eckert vita/ enn lætast þo vilia kienna ødrum/helldur a eirn Trwlindur Guds Ords Þienare / ad vera mattugur til ad aminna / þirer Heilsusamlegann Lærdoom / og ad straffa þa sem

sem a mooke mæla/ Tit. 1. J aňaň mæta/ ber einum Predikara edur Kieňemaňe/ ad vera Saňordum / epter Dæme Herraňs Christi / þvi þo so sie/ ad allet eige ad þordast Lygar og Osaňende / so miked sm̃ møgulegt er/ med þvi þad er eirn andstyggelegur Løstur / epter þvi sem Syrach seiger/ 10. Cap. þa eiga þo helst Guds Ords þienarar / ad giæta vel og vandlega ad sier/ so þeir kome ecke uppa Predikunarstooleň/ aňadhvørt med raungaň Lærdoom/ edur þad sem þeir kuňa eckj ad bevysa wt af heilagre Ritningu. J þridia lage a eirn Kieňemadur ad vera Hugdiarfur og Obrædddur ad seigia hvørium sem einum til Sinda siňa/ hvørt hň a ad sier miked eda lited. Nu vilium vier fara leingra æfraň/ og heira hvør vered hafe Spurningeň / sem þesser Phariseaňa og Herodis Sendesveinar / framsettu firer Herraň Christum. Gudspiallamadureň seiger/ hun hafe vered þesse/ Hvørt henum blessudum/ Styndest þad riett vera / Ad KEysaranum skylde Skattur giefast edur ecke ? Eň Ordsok og Tilefne til þessarar Spurningar/ var sw/ Ad GUd DRotteň hafde ædur befalad/ ad hver og ein Kallmaňs Persoona sem var tuttug ad Alldre / skylde giefa Aarlega eirn hælfaň Sikel Silfurs/ þad er so miked sem Ort wr Dal/ i Mustered / hvad ad hlioop sig eina mikla og stoora Suňu Peninga/ og hvad sem ecke var brwkad af þessum Peningum/ til Guds þioonustugiørdar edur Underholdningar Mustteresins og Prestaňa/ þad var geimt og forvarad i Kyrkiuňar Peninga Hirdslu. Eň epter þad/ad sa Romverske Keysare hafde lagt under sig Gydinga Land/ þa took hň allaň þeňaň Kyrkiuňar Skatt til sijn & wtbytte hønū a medal sijns Herlids & Strijdsmaňa / þeim til Atviňu og Underholdningar. Þetta fiell Gydingum næsta þungt/ og þess vegna senda þeir hiner Ypperstu sijna Læresveina til Herraňs Christum/og læta spyria hň ad/hvørt þad sie riett/ad þeir skyldu giefa Keysaranum þaň Skatt/ sem Gud hafde ædur til sett og skipad/ ad gialldast skylde til Mustteresins ? Og þo þesse þeirra Spurning sijnest i sneggu Alite einlæg og einfalldleg / þa høfdu þeir þo samt hana þar uppa bigt / ad vor blessade Endurlausnare skylde sig a heňe forgrijpa/ so ef hň segde Ja / ad þeir skyldu giefa Keysaranum Skatt / þa skylde allt

 Foolked

Foolked taka sig upp a moote hønum/ hafa han og hans Lærdoom/ þit/ er þad ad han hielldt a moote þess Frijheitum. En segde han Nei/ ad þr være Keysaranum um Skatt skylduger/ þa skyldu Herodis Þienarar eige seirna grijpa hn̄ þa ngen̄/ t fæ ra han̄ þirer Keysaran̄/ so sem eirn Odæda Man̄ sem sette sig uppa moote Yfervalldenu/ og vilde þvi ecke hlij/ da. En hvøriu mun Herran̄ Lijþsins svara þessum Skalkum aptur/ uppa sijna Spurning? Þad verdur oss nu kient i þessu Sijdara Greinarkorn/ enu/ sem epterþilger.

# Aunnur Greinen̄.

GUdspiallamaduren̄ seiger/ ad þegar Jesus hafe formerkt þra Flætt/ skap/ þa hafe han̄ teked so til Orda og sagt. HUad FReisted þJer Mijn HRæsnarar? Þad er/ sem hefde han̄ so sagt/ meined þier ecke/ ad eg muné sia og þormerkia/ hvad Jdur bijr i Giede vid mig? Þier taled allt an̄ad med Mun̄enum/ en̄ þier þeinked i Hiartanu.

Hier af høfū vier oss þad til Huggunar ad taka/ Ad ef Oviner vor/ er vilia um̄sitia oss/ og þin̄a uppa eitthvört þad Raad/ med hvøriu þeir kun̄e ad þordiarfa oss og Skada ad giøra/ þa eigum vier þan̄ Herra og Hialparman̄/ s ecke einungis sier t þecker hvørs eins Mn̄s Hiarta/ hvört þ bijr yfer Goodu edur Illu/ helldr t eirnen̄ þan̄/ sm̄ um̄vellta kan̄ Raad/ um þra Rangferdugu/ so þr giete ecke komed sijnū Vilia fram̄/ Joh. 5.

Vier lærum hier t eirnen̄/ ecke alleinasta ad þeckia t vidurkien̄a vorn Herra og Frelsara Jesū Christū/ þirer eirn sliettan̄ Man̄/ helldur t so þ San̄an̄/ Eilijfan̄ t Almættugan̄ Gud/ þirer hvøriū eckert er huled eda duled. Vier lesum ad sen̄u um̄ Spamen̄ena/ þad þeir hafe af mørgu þvi vitad/ sm̄ huled ætte ad vera. So visse Spamaduren̄ Elisæus (þo þiær lægur være) allt þ sm̄ Konguren̄ i Syria talade vid sijna Raadgiafa i sijnu Svefnherberge/ 2. B. K. 6. C. En̄ vier skulum vita/ ad þeir høfdu þad ecke af sialfū sier/ helldur af Gudlegre Open̄beringu / Þeir vissu og ecke helldur neitt framar / en̄ Gud villde þeim openbera. En̄ ødruvijse er þvi vared þirer Herranum Christo/ þvi hn̄ er sa/ i hvøriū hulder eru aller Fiesiooder Visskun̄ar og Vidurkien̄ingarin̄ar/ Col. 2.

Fram̄veigis

Framveigis seiger Gudspiallamadurenn/ad Herrann Christur hafe sogt til þssara Phariseanna Sendemanna/ S. Y. ned Mier Myntena PEnings sins/ z þEir FEingu HOnum PEningenn. Hann spyr þa eirn framar/ z seiger/ Hvørs Mynd og Yfirskrift er þetta? Enn þr seigia honum KEysarans. Gydingar hofdu ꝏdur fordum þau Frijheit/ad þeir mattu lꝏta sla sialfer Mynt i sijnu Lande/ Enn a þeirre Mynt/edur þm Peningum/sem til Mustereisins ꝏttu ad giefast/ hofdu þr sierdeilis Stimpel z Yfirskrift/þvi uppa adra Sijduna Peningsins var stimpladur sꝏ bloomgade Aarons Vondur/ med þessare Yfirskrift/ Eirn Israelskur Sekill/enn uppa adra/eitt Reikelsis Kier/med þeirre Yfirskrift/Su Heilaga Jerusalem. Enn epter ꝏ seirna a Døgum Christi/ þegar Gydingar voru undergiefner ordner þeim Romverskum/hofdu þr adra Mynt/ þvi a annare Sijdunne stood Mynt Tiberij / med þessare Yfirskrift/ Tiberius Keysare/ enn a annare eitt Horn/ fullt med allra Handa Avexte/ Yfirskriften var þesse/ Almuganum til Gagnsemdar.

Nu med þvi ad þesser Freistarar/Phariseanna Sendemenn/giefa Herranum Christo þad Svar/ ad þ sie Keysarans Mynd og Yfirskrift a Peninginum sem þeir sijndu honum/ þa so sem binda þeir sialfa sig og medkienna/ ad þeir sieu nu ecke leingur Frijmenn / eins og ꝏdur/ helldur sieu þeir nu ordner Skattgillder under Keysarann/Þar fyrer Andsvarade Herrann Christur þeim hier aptur miøg Merkelega og Meistaralega uppa þeirra Spurning/og seiger/ GJefed Þa KEysaranum HVad KEysarans Er / Og Þad GVde HVad GVds Er.

Hier verdur oss kient/ og fyrer Siooner sett/hvad þad sie/ sem vier sieum voru Yfervallde umskylduger. First erum vier þvi skylduger umm Elsku og Trwskap/ ad vier Oskum þvi og unnum af Hiarta alls Goods. So giørde Jthani Getither/þegar David vard ad flyia fyrer sijnum Syne Absalon/þa vilde hann ecke vid hann skilia/ helldur af Elsku þeirre og Kiærleika/ sem hann hafde til hans/ epterfylgde hann honum/ lijka vel þo David skipade honum ad snwa heim aptur/ þa svarade hn honum z sagde. So sannarlega sem DRottenn lifer/ hvar helst sem minn Herra Kongurenn verdur/ hvørt sem þad er til Lijfs eda Dauda/ þar skal og þinn Þienare

 vera/

vera/ 2. B. Sam. 15. Cap. Sømu Elsku og Trwskap bevijsade og so Nwsai Kongenum David/ ecke alleinasta i þui/ ad hañ hindrade Achitophels Rad/ helldur og so varade hañ Neimuglega vid þeim Nøska/ sem henum var bweñ/ 2. Book Sam. 17. Og sem David vilde sialfur Persoonulega hafa fared a moote Absalon/ þa høfdu hũs Vnderswtar hañ so kiærañ/ ad þeir vildu henum i aungvañ mata sleppa/ helldur søgdu/ þu skallt ecke wtfara/ þui þu eirn ert sem tiju þusunder af oss. Eñ einkum og sierdeilis/ eiga Vndersatarner ad bidia gott fyrer sijnu Yfervallde/ ad Gud vilie giefa þui vel og Christelega ad stioorna/ epter þui sem Post. Pall aminer/ i 1. Pistl. til Tim. 2. seigiande. So aminñe eg/ ad Meñ umfram alla Nlute giore Booner/ Bæner/ Firerbeidslur og þackargiorder/ fyrer ollum Mønnum/ fyrer Kongum og ollu Yfervallde/ uppa þad/ vier mættum hafa spakt og Roolegt Lijfferne/ i allre Gudrækne og Sidseme.

J añañ mata erum vier skillduger/ ad veita voru Yfervallde Tilbærelega Aru og Virding/ hvøria vier eigum ecke alleinasta ad audsijna þui/ i wtvortis Negdun/ sem er/ Soomasamlegum Ordum/ Kurteise og Velskickanlegheitum/ helldur og so/ ad vier holldum þad ad vera sendt og skickad oss af sialfum Gude. Þegar Saul var kioreñ til Kongs/ þa voru þar sumer sem hañ forøcktudu/ og færdu høñũ engva Gafu/ helldur søgdu/ Nvad skal þesse hialpa oss? Eñ Neilagur Ande giefur þeim aptur i stadeñ þad Nafn/ ad hañ kallar þa Lausingia/ so sem lesa ma/ 1. Book. Sam. 10. Nvørs munu þeir þa hafa sier ad vænta/ sem ecke ad eins firerlijta og forsma sijna Yfermeñ/ helldur og eirneñ formæla þeim/ og tala svijvirdelega um þa? Sañlega/ þeir munu yfer sig taka stoort Dooms Afelle/ epter þui sem þar stendur/ i Pistl. til Rom. 13. Capitula.

J þridia lage erum vier skylduger voru Yfervallde / um Otta og Nlijdne/ i ollu þui sem þad byđur oss/ og Guds Orde er ecke a moote.

Framar meir verdur oss hier kieñt hvad þ sie/ sem vier sieum voru Gude umskylduger/ sem er fyrst/ um Skatt allra vorra Lida og Tima/ þui so seiger Post. i Pist. til Rom. 12. Jeg aminne Jdur (seiger hñ) ad þier

að hier gieþeð Iðar Lykame til þess Offurs sem liþanðe er og Heilagt/ og Guðe þacknæmt/ hvørt að er Iðar skinsamleg Þioonusta. Guð er eirn Kongr ꝛ Herra/ yþer øllū Herrū/ ſ oss heþr giørt að sijnu Foolke/ so vier skyllðū þioona hm̄ i Heilagleika og Riettlæte/ epter þvi sm̄ hm̄ sialþū þocknast / Luc. 1. Augu og Eyru / Muñ og Tungu/ Henður og Fætur/ Ia/ Lijþ og Lykama/ það allt høþum vier aþ hønum þeigeð og meðtekeð. Þar þirer ber oss aptur a moot / að gieþa hønum vora Lime/ til að þioona Riettlætenu/ Rom. 6. Sie nu Guð þiñ Kongur og Herra / þa ertu hønum skylldugur. 1. Um̄ Skatt þijns Hiarta/ þviað Elska skalltu DROtteñ Guð þiñ aþ øllu Hiarta þijnu. 2. Um̄ Skatt þiñar Tungu/ þt alla Tijma vil eg Loþa DROtteñ hñs Lofgiørð skal ætijð vera i mijnū Muñe/seiger Davið/ Psalm. 34. 3. Um̄ Skatt þiña Eyrna/ þviað mijner Sauðer heyra mijna Raust og eg þecke þa/ ꝛ þr þylgia mier epter/ seiger Christur hia Ioh. 10. 4. Um̄ Skatt vorra Augna/ þviað so ſ Augu Þienaraña horþa a Henðr siña Yþerboðara/ꝛ so ſ Augu Ambattareñar horþa a Henðr siñar Hwsmooður / so eiga vor Augu að horþa uppa Drotteñ vorn Guð/ Psalm. 123. 5. Um̄ Skatt vorra Lima/ þar þirer skalltu læta Christi Lime vera/ og giøra þar ecke aþ Skækiuñar Lime/so sem Postuleñ Pall að Orðe kiemst / 1. Cor. 6. Þa vier nu so giørum / þa kuñum vier að seigia með Gleðe/ Herra IEsu/ þier liþe eg/ þier Dey eg/ þiñ er eg bæðe Lijþs og Liðeñ.

Þar næst erum vier skylðuger vorum Guðe um̄ Skatt aþ voru Gotze og Auðæþum/ hvørn vier hønum giøllðum/ þa vier giørum gott af oss/ og gieþum nockuð til Kyrkna og Skoola/ og einkañlega til þeirra Fatæku/ i hañs Naþne/ og vitum það þirer vijst/að Guð lætur soddañ Aulmusugiørðer ecke Olaunaðar vera/Ottastu DROtteñ/ Heiðra Prestana/ꝛ gief þm̄ siñ Hluta/ sem þier er boðeð/ Vrieðt þijna Honð Fatækum/ so þu verðer þess rijkuglegar Blessaður/ seiger Syrach 7. Cap.

I þriðia mata erū vier skylðuger Guðe vorū um̄ Skatt vors Erþiðis/Drotteñ heþur boðeð oss ꝛ skipað/að vier skylðū erviða ꝛ leita vorrar Næringar/a sex Dogū Vikuñar/eñ þañ sioūnda Dageñ heþr hñ giefeð

 oss

